eñ ecke Christs Kyrkiu til Eblingar/ svo hætt er vid/ ad þar siñest eins marger Judæ Lykar/ þeir ed selie siñ Herra fyrer fáeina Peninga/ svo sem Petri Stallbrædur/ þeir ed yfergiefe alla Hlute hañs vegna/ og ad þ mege vid nockra segia/ er DRottenñ talar hiá Micheam Cap. 3. nær þeir hafa ad tiggia med Tøñunum/ þa hroopa þeir Fridenñ/ eñ þeim sm̃ ecke lætur upp i Muñ þra/ boda þeir Skrýd. Þeir eta Synder mýns Foolks/ seger DRottenñ fyrer Muñ Hoseæ Cap. 4. og þeir reisa Hug siñ vid þra Ranglæte. Med sama moote talar DRottenñ um̃ þessa Leigulida og um̃ Daglaunarañ/ Devt. 24. er hñ seger þeir reise Hug siñ vid Launeñ / og er þad nærsta vel sagt / þvi eiñ Hyrdulaus Kieñemadur/ nær hañ hefur þad hañ eta skal/ þa skeiter hñ lýted um̃ Foolksins Synder / þvi reiser hañ Hug siñ allenna a moote Launnunum/ eñ leggur ad litlu hñs Vm̃boot edur Framsør/ sem hañ þiggur Launeñ af / og fagnar safnvel af vondu Athæfe / ef Syndareñ vill þad leysa med nockru Prestsens Gagne / giørande svo Bethel ad Bethawen/ þad er/ Guds Hus ad Hiegooma Huse. Eingeñ bruke þad fyrer Afsøkun / ad hañ neydest til þvilýkt ad giøra fyrer Vanesna og Fatæklar Saker. Hver er sa af ydur/ ad hñ læse aptur Dyrnar/ fyrer eckert/ edur kveike a mýnu Alltare fyrer eckert ? seger DRottenñ vid Kieñemeñena / Mal. 1. Svo má og um̃ oss segia / Eingeñ er sá ed þioone Christo Okerpis/ þoott ei sieu margra Laun svo rýfleg/ svo sm̃ Kyrkiu Þienaraña i Gamla Testamentenu/ og vante hier nockud/ mun þ Þusundfalldt aptur giallda st i Vpprisu Riettlátra/ edur hvad mun verda af þm̃ Laununum/ er þier ætled ydur af Christo þ ydar Starf/ ef þier taked þau fram̃ fyrer Hendur a hønum i þessu Lýfe ? Trued mer til/ at þ mun ecke verda audrelldt/ ad vera Judas hier/ eñ Petur þar/ og er þa betra hier lýted ad hafa/ og þar fullrýkur ad vera/ ef anñadhvert vera skal/ Fyrer þ i látum oss þ sagt vera/ er Johañes sagde Striidsmøñunum þeim/ Er komu til hañs Skýrnar / og þad þess helldur/ sem vier erum Christi Striidsmeñ/ Giøred eingum Ofrýke/ og prettid eingañ / helldur vered ánægder med ydar Mála / Luc. 3.

2. Þad

2. Þad Añad sem Guds Kieñemeñ eiga ad nema af Johañe / er hañs skynsamlegt Vandlæte i hañs Embætte / þar komu til hañs Skyrnar Tollheimtumeñ / Luc. 3. sem hallðner voru hid versta Foolk / þeim sagde hañ med Hæglæte / ad þeir skylldu eckert giøra fram̃ yfer þad sm̃ boded være: Þar komu til hañs Strydsmeñ / þm̃ sagde hñ og med Spekt þ sama / er eg fyrer Skøm̃u um̃gat: Eñ þar komu og til hñs Skyrnar Pharisæi / sem hallðner voru hiner Vysustu / hiner Heiløgustu / og Saducæi / hiner Riettlætustu / þesser voru einger Smælingar / þvi allt Foolked hnie ad þessum tveñum Flockum / voru og marger Høfdingiar Grdinga af þm̃ / Eñ af þvi ad þr voru Hræsnarar / þa vogade þesse Guds Madur ad segia vid þa: Þier Nødrukyn / hver hefur kieñt ydur ad um̃flyia tilkomande Reide ꝫ Giøred þvi verduga Avøxtu Ydraneñe / og seged ei med siælfum ydur / Abraham høfum vier fyrer Fødur: Hañ vogade ad segia hinum Gudlausa Herodi Konunge: Þier byriar ecke ad hafa þyns Brooðurs Egta-Kviñu. Telkande munu þeir nu vera medal vor / Brædur myner / sem svo alvarlegæ tale til þeirra / er sig kalla Høfdingia a medal vor / Jafnvel þoott ad Missmyden sieu svo mørg i Fare suma þeirra / ad ecke þurfe Sioonhagañ Mañ til ad þeckia þau. O Gud vere oss Lyknsamur / og giæfe ad Meñ villdu til þess hugsa / hversu Landed er fullt af Svyvirding: Agyrnd / Ræinglæte / Gripdeillder / Forøktun Guds / Forsmañ hañs Orda / Lauslæte / Hatur til Næungans / Lygar og Roogur gæinga Skyunum hærra og hroopa i Himeneñ / svo ad nærre þvi syñest liggia / ad hiñ Almættuge mune ytreka þau Ord fyrer Eyrum vorum / er hañ i Fyrstu talade vid Ezechielem / Cap. 7. Haf Snøruna til Reidu / þvi Landed er fullt af Høfud-Giørningum / og siælf Borgeñ af Ofrijke / og þetta verdur þo añadhvert ecke / edur med hæinngande Hende straffad / af þeim / sem þo eiga ad giøra Reikning hinum Allvallda Doomara fyrer Sæl hiñs Ogudlega a sydarsta Dege / allra sydst hia þeim / sem Megtuger eru / jafnvel þoott þeir añadhvert sieu fremster i Flocke / bæde ad æfa þvilykt / edur og ad forsvara þa ed þad

giøra. Þier ſegeð/ þad gyllder ecke/ ei ad ſiꝗdur heyra þeir oſſ eins og Dvergmaal Fiallaña. En hvad viteð þier af þvi/ Brædur mijner? Hafeð þier til þſſ reynt? Hafe þier hlijdt Bode Paals i þvi/ ad kalla i Akafa og vægia ecke / ad ſtraffa / Ogna og aamiña i Tijma og O-Tijma/med allre Þolenmæde? 2. Tim. 4. Nema þier ſvo giøred/ þa viteð þier ecke hvad Gud kañ fyrer ydar Þioonuſtu ad utrietta. Alleð ei til ad þ ſie noog/ad leggia Hønðena a Ploogeñ/eñ lijta ſvo aptur til þeſſ/ſem til Baka er/þeir eð ſvo giøra/eru ei hæfer til ad leida ſiaalfa ſig nie adra til Himnarijkis. Gud vill ecke læta hætta vid ſitt Verk þoott lijteð aorkeſt. Skodum Dæme Eliæ/ ſkodum Jonæ Dæme/ Gud vill læta ſitt Ord Vondum og Goodum Predika / ſvo þad añað-hvert frelſe edur fordæme. Heyreð hvad hñ ſeger vid Ezechielem / Cap. 2. Eg mun ſenda þig til þra/ og ad þu ſeger þeim: Svo ſeger DRottiñ/hvert helldur þr heyra þad/edur þeir Mootſtødu veita/þvi þeir eru eitt þverbroteð Hus/Ottaſt ecke/þoott þeir ſieu mootviliuger og Þirnum vaxner / og ad þu buer a millum Høggorma. Eñ Gud giæfe / ad Otteñ edur Fiegyrnen hiellde ecke Sverde Andans i Skeid-unum hiaa oſſ aa Skundum/ſvo Meñ ecke Vanhelgudu Gud fyrer eiñ Hnefa Bygg-Miøls / og eiñ Bita Brauds / og ſaumudu ſvo Kodda under hvern Armlegg/eins og hinar følſku Spaa-Konur giørdu under Jeruſalems Eydeleggingu / Ezech. 13. til ad teikna þar med Frid / hvar þo eingeñ Fridur var. O Brædur mijner/ þvi ſkylldum vier þo hrædaſt þa riukande Elldebranda? Og ecke miklu fromar hiñ lif-anda Gud? Hvers Bũbod vier a Hende høfum/ lææum oſſ heyra þad hañ ſeger vid Jeremiam / Cap. 1. Vert ecke Ottaſlegeñ fyrer þeirra Augũ/ad eg ei ſundurmerie þig i þeirra Auglite/hvert er þa nu betra/ ad ſiaa Skaalkeñ ygla ſig / og hañ faae þo eingu til Vegar komed / ellegar ad mæta Guds Oblijdu/ og ad hañ ſundurmerie oſſ ad þeim aa-ſiaaendum? Gud kañ ad troda Andſkotañ under Fætur hiñs miñſta Veſælings/ſem honum treyſter/og giører Verk ſiñar Kallanar i hñs Otta / aukhelldur þa ſmaa Þukana / ſem vier høfum ad beriaſt vid/

upp-

upphefium þvi vorar Radder sem adrar Bærsunur/segium Jsrael til siña Synda/og Jacob til siña Misgiørda/svo ei verde þra Bloods af oss krafest a hinum mikla Dege alls Holldz / nær hver eiñ mun hafa noog med siinar Synder/þoott ei giøre hñ sig Hluttakande i añarligû.

3. J Þridia Mata hefur Johañes med sinu Dæme kiennt oss / ad vier skulum vera Arvakrer og Kostgiæfner i Lærdoomenum / hañs Kyrkia var Eydemørken/þvi Jerusalems Mustere høfdu þr giort ad Ræningia Bæle/hañ foor i kriingum allt þad Land er laa vid Jordan/ og Predikade Skiirn Ydranareñar til Fyrergiefningar Syndaña / Luc. 1. Vt þangad foor til hñs Jerusalem og allt Gydingaland/svo sem Matthæus vottar/Cap. 3. Þetta var stoor Sookn/Brædur miin-er / fyrer eiñ Mañ / og skulum vier ecke meina / ad hañs Verk hafe einasta vered ad skiira/ þvi Lucas seger/ svo sem eg strax ámiñtest/ad hañ hafe predikad Ydranar Skiirnena/ þad skilst mier ad sie / ad hañ hafe utlagt og utlistad fyrer þeim er komu til hñs Skiirnar/ hvilikur ad være sa Lærdoomur/uppa hvern þr skiirdust/og hverneg epter honû ætte ad lifa/ þad sina þesse Ord af hañs Predikun : Giøred Ydran/ þviad Guds Rijke er nalægt / Item / Giøred verduga Avøxtu Yd-raneñe/ svo er eg viss um/ ad hañ eingañ hefur til siñar Skiirnar tek-ed/ af þeim sem hafa vered komner til Vits og Ara / sem ecke hefur vered fullnuma i þessum Lærdoome/ Nærsta Oliikur þeim af oss/sem setia vid Bord Drottens i heilagre Kvølldmaaltijd ecke einasta Vng-linga / helldur og Afgamla a Stundum / sem ecke kuña ad reyna og proofa siálfa sig/nie giøra Skil a Lijkama Drottens z añarre Fædu. Stoor var þesse Sookn Johañis/Brædur M. og gaf hñ þo øllum i riettañ Tijma hvad þeim byriade / añars munde DRottenñ ecke sagt hafa/ ad fra hañs Døgum hefde Himnarijke lided Ofrijke/ Matth. 11. Vorar Sookner eru lángtum miñe/ þo vantar þar a Stundum hvad þær Naudsynlega vidþurfa/ hier seged/ hvad vantar þar ; Eg vil hier til svara/ ecke øllum/ eñ þo mørgum / þær vantar stalldnast Sacramenten/ þo vijta Meñ / ad af þvi ber a Stundum hia sumum

hverium/

hvertü/eñ þa vantar Kostgiæfna Vndervyssun/ bæde um̄ Sacramentum og um̄ adrar Truarenar Greiner/ sm̄ eru Omissande til Saaluhiælpar. Zacharias spaaer um̄ siñ Son/ ad hañ mune giefa Guds Foolke Skilning Saaluhiælparenar til Fyrergiefningar Synda þeirra / svo eigum vier ad giøra / añars er Verked Onytt. Hvad gagnar þeim Skyrnen/ sem vier høfum veitt hana / nema vier Grandgiæfelega utskyrum fyrer þeim heñar Krapt/nær þeir dragast a Legg/Miñum þa a hvad þr hafa þar Gude lofad/ kieñü þm̄ ad endurnyia þañ Giæskurykta Naadarenar Saaltmaala Daglega med styfelldre Ydran z Endurnyiung Lyfernesens. Hvad stodar þeim Holld og Blood DRottens/ nema vier fyrer hañs Adstod Iklædum þa einu Brudkaups Klæde / ædur eñ þeir framkoma fyrer svo skielfelega Naatign / kieñum þeim ad ydrast Syndaña / Ad vita hvad þeir þar medtaka / Ad trua þvi / og ad krioota ecke framar Endurnyiung süns Skyrnar Saattmaala Vissvikande. Þetta og añad þvilykt/er ad giefa Guds Foolke Skilning Saaluhiælparenar/ og nema vier þetta giørü/þa vanhelgü vier þessa dyru Dooma/svo ad þeir verda til Fordæmingar/bæde þm̄/ sm̄ þa handtiera/ og hinü/ sm̄ vidtaka. Þu villt kañskie segia. Eg em ecke faddur med Heiløgum Anda eins og Johañes/þvi er ei Von/ ad eg svo miklu af Stad kome/ eg jaata þad/ þar heimtest og ecke svo miked af nockrum einü af oss/svo sm̄ af hønü/vier mundum og skamt komast med ad afkasta svo miklu/ samt høfü vier aller heilagañ Anda medteked / og aller høfum vier Vit og Skyn þeiged af Gude / oss hafa Forelldrar vorer til Menta sett/svo vier kyñum ødrü ad kieña. Hefde Gud fyrersied/ad til Mañaña Saaluhialpar þyrfte sier i Lage Andans Gaafur / eins og Johañes og Postularner høfdu/ þa hefde su Andans Gaafa jafnañ Samfara vorded Christneñe / Eñ heñar Meistare / sem best veit hvad þessare Byggingu hagar/ hañ vill nu laata syna Þioona nægiast med almeñelegar Natturuñar Gaafur/hver jar hañ þo jafnañ styrker med Krapte syns Anda / þar sem Astundan og Arvekne er fyrer. Seged mier/hver er sa af oss/ef hñ hefur

eiñ-

eiñ hvern kostgiæfeñ Eyrends-Reka/ ad ecke legge hañ hønum allt i Hendurnar/til ad framkvæma pad Eyrende? Vilium vier pa ælla/ad Brusiur Giæskuñar/ sem svo miøg elskade Sæluhiælp Mañaña/ ad hañ gaf siñ Son i Daudañ fyrer oss / hañ muune læta sijna Þienara vanta sijna Adstod/nær hañ sier þeirra Kostgiæfne/ eñ pad er Ervæklegt til ad vita/hversu Toomlæter ad sumer Meñ eru i þessare Idiu/ og læta sier uñ allt añad meira giefed vera / eñ giøra Guds Verk ad Niæverke. Ja/pad er aumkunarverdur Hlutur/svo Almugeñ/sem ad ecke veit Guds Riekkinde / hañ fær þau ecke ad heyra sumstadar af Fævijssum edur Hyrdulausum Ordsins Þienuruñ / fare þeir villt/ þeir verda ei Leidriettter/ Syndge þeir/ þar verdur ei adfunded/ Forherdest þeir i Synduuñ/pa verdur þo ecke þra forstockad Hiarta sundurmared med Guds Orde / hvert ad er eiñ Elldur og eiñ Hamar / seger hañ fyrer Muñ Spæmañsens/ sem ad Kletteñ i sundurmolar/Jerem. 23. Dygdeñ verdur a stundum høfud/ Løstunum hroosad/ edur þeir verda affakader/sierdeilis sieu þeir giørder oss i Vil. Mun pad ei vera hid sama og DRotteñ seger/ Ezech. 13. Foolked bygger upp eiñ Vegg af Leyr/og þeir klijna hñ med Onytu Kalke/ Vei þm heimsku Spæmøñunum/seger DRotteñ/ er gænga epter sijnum Anda/ þijner Spæmeñ eru lijker Refum a Eydemørku/O Israel/seger hañ. Gud giæfe/ad þsse Pestilentia ecke dræpe sier nidur hiæ oss/þ mæ kalla/ad þeir fylge sijnum eigeñ Anda/ er tala hvad þm i Hug kiemur/pad þeir alldrei i Ritninguñe sau/ edur iusu upp af Israels Bruñe/ hellldur þra eigeñ Drauma/og þo skamast þr sijn ecke ad seigia/DRotteñ hefur sagt pad/þo DRotteñ hafe pad alldrei talad/seger Ezechiel Spæmadur/ Cap. 22. Svo kalla og þesser Guds Ord / hvad sem þeir rugla/ ef Muñureñ alleina freider/ eins og a Skeidmæddum Heste. Refarner eru sollitner i Eydemørkuñe/ svo ræfa og nockrer Kieñendur uñ þurra Stade / og fiña ecke hvar med þr kuñe sitt edur añarra Lijf ad næra/þeir sunkia ut ur Oþørfum og Fævijssum Bookum/ pad sem eingum er til Nota/Skrøk-Søgur/Heimskulegar Samlijkingar/ z rangar

ar Vileggingar a stundum / til ad tefia af Tymañ/ svo þad verdur
ei vared/ad Meñ meiga heyra þær sumar Predikaner/af hveriũ eing-
eñ er nockru nær i synu Sæluhiaalpar Verke. O Guds Meñ/ læted
ydur þo einhvern Tyma til Hugar koma / ad foostra Hiørd DRott-
ens/ er hañ afrekad hefur med synu eigen Bloode / og yfer hveria H-
Ande hefur ydur Tilsioonar-Meñ setta / Act. 20. Pharao villde
ecke giefa Israels Sonũ Haalm edur Murstein til ad giøra þ Verk /
er hañ hafde boded þm̃/og þo heimte hañ Verked af þm̃/ Eins vird-
ast mier Lynder þeir Kieñemeñ/ er eckert hyrda um̃ Christi Arfleyfd/
sem þeim er til Vøktunar feingeñ/ þeir heimta af Foolkenu/ad þeir
lifi Christelega/ og giøre Kiærleikans Verk / eñ ecke kieña þeir þeim
Aoferd slykra Hluta/og ecke ganga þeir undañ ødrum i þvi/sem þeir
bioода/Iaa/sumer jafnvel þvynga af þeim/þad sem þeir kyñe ad giø-
ra Verk Kiærleikans med. Er þetta ad vera Christi og hñs Postu-
la Epterbreytare og Epterkomare? af hveriu vier þo stærũ oss. Læt-
ed ydur þad ecke helldur noog þykia/ Brædur myner/ þoott þier hafed
þeiged goodar Gaafur til ad kieña/edur þoott ydar Kieñingu sie hroos-
ad af Møñum / þad er ad søñu stoor Guds Astgiøf / og hañs Þien-
urum miøg svo þørf/til ad uppbyggia hñs Kyrkiu/ eñ læte Meñ sier
þad i Hug koma/er sagde fordũ hiñ goode Hyrder vid syna Læresveina/
Fagned ei yfer þvi / ad Diøflarner eru ydur undergiefner / helldur af
þvi/ad ydar Nøfn eru skrifud a Himnũ/Luc.10. Svo vil eg og segia i
vidlykũ Hlut/ þo ecke alldungis hinum sama/Fagned ecke yfer þvi/ad
Meñ hroosa ydur / þvi ydur kyñe ad henda hid sama og Herodem /
hvern Eingilleñ sloo/af þvi hñ gaf ei Gude Dyrdena/Act.12.helldur
fagned af þvi/ef Safnadʳ ydʳ leidriettast/ef þiʳ nꝫ Christelegu Dæme
z Røksamre Kieñingu leided nockurn a Guds Veg/svo ad þiʳ sieud viss-
u/ ad þr med ydur/og þier med þm̃ munud Guds Ryke erfa/Glediest
af þssu/þvi til þss erud þier setter/þar i eiga aller ydar Atburder/all-
er Sælar og Lykamans Kraptar ad reyna sig / og ecke til ad utvega
Hroos Maalsnilldar hia Møñum/þvi ei gagnade þad hinum vondu
Pharisæis/

Pharisæis/þott Christus segde/ad Men skylldu giora epter ollu þvi sem þeir koludu/og ei ad sijdur voru þeir blinder/blindra Leidsogarar/ Nræsnar/Eytur-Ormar z Nodru-Kyn/þvi kalla eg ecke þaũ ad vera hiñ besta Prest/sm̃ hefur hid mesta Alþijdu Lof af siñe Tals-Gafu/ helldur þaũ sem hefur hina bestu Tilheyrendur/og best til Himnarijkis uppfrædda/sm̃ elske Gud og Naungaũ/og vardveite sialfa sig Fleck-lausa fra Heime þessũ/ haũ les sitt Feste-Bref fyrer Himnarijke/svo opt sem haũ sier/ad hñs Tilheyrendur ganga a Guds Vege/og verka sijna Saluhialp med Ugg og Otta. O þu mikle Hyrder Saudaña/ Bid þu þiñ Himneska Fodur fyrer oss/ad bæde Kieñendur z Tilheyr-endr/mætte svo taka Vara a Salu siñe hier i Lijfe/ad vier i Lambsins Brudkaup til samans iñleidder verdũ / Þad Bænheyre hiñ Naduge Gud fyrer Sonarens Forþienustu / A M E N.

# Fioorda Suñudag epter Trinitatis.

## Gudspialled/ Luc. 6. Cap.

SEG JEsus sagde til siña Lærisveina : Vered Myskun-samer / lijka sem ydar Fader er Myskunsamur. Aung-vaũ skulud þier dæma / so ad þier dæmest eige / Fordæmed ecke/ so ad þier fordæmest eige. Fyrergiefed/og þa mun ydur fyrergiefed verda. Giefed / og þa skal ydur giefast. Gooda/ samþryckta/velskieckna og yfersliootañlega Mæling/ munu þeir giefa i ydart Skaut. Þviad med þeirre hiñe somu Mælingu hvorre þier mæled ut/ mun ydur iñ aptur mælt verda. Og haũ sagde þeim eina Epterlijking: Hvort kaũ nockur Blindur Blindaũ ad leida ? Falla þeir ecke bader i Grofena ? Lærisveinneñ er eige yfer sijnum Meist-ara/ eñ hvor hellst sem fullkomeñ er/haũ mun vera sem haũs Meist-are. Hvad sier þu Ognena i þijns Brooðurs Auga / eñ ad þeim Bialkanum sem i þijnu Auga er / giæter þu eige ? Eda hvorneñ mætte seigia Brooður þijnum: Brooder/leyf þu ad eg i burt drage Ognena ur þijnu Auga / þar ed þu sier ecke sialfur Bialkaũ i þijnu Auga? Þu Hræsnare/drag fyrst ut Bialkaũ ur þijnu Auga/og sia þu

þa ſo til/ ad þu fær utdreiged Flijsena ſ er i þijns Brooдurs Auga.

## Exordium.

DÆmed riettа Dooma/ ſeger Gud til ſijns Foolks hia Zachariam Cap. 7. Hverneg ſeger þa DRotten hier i Gudſpiallenu ? DÆMed Ei/ Svo Þier Ei DÆMder VERded / FORdæmed Ei / Svo Þier VERded Ei FORdæmder. J þeſſu ber þad ad athuga / ad þegar DRotten bijdur ſijnu Foolke ad dæma riettа Dooma/ þa er auдſied/ ad hn̄ giører Raad fyrer þm̄/ ſem mænger eru/ og hañ ár þa/ Svo giører og Frelſaren̄ hier i Gudſpiallо enu. Guds er Doomuren̄/ ſeger DRotten̄. Þad hefur jafnan vered Náttur Andſkotans/ ſijдan hañ datt ur Heidrenu/ ad apa epter Guds Naſtign/ og ſvo vill hn̄ og ſetia ſig a Doom-Stoolen̄ a ſtundū/ ſvo ſm̄ Gud ſitur a millum Gudaña i Doomunū/ Pſ. 82. ſvo er ecke trutt um̄/ ad Fianden̄ meige ſtelaſt þar in̄/ Eg vil ecke ſegia/ ad hañ gange þar Berlega/ þoott ei verde hn̄ ſiedur Lijkamlegū Augū/ ſamt meiga Men̄ þo ſia hn̄s Verk/ þegar ſvo ber vid/ þvi af Þra Avoxtū ſkulud þier þeckia þa/ ſeger Lauſnaren̄/ og þetta tekſt hm̄ epter þvi/ ſm̄ þeir eru lynder til/ ſm̄ Doomana ſitia/ og ad þvi Leite/ ſm̄ þeir hafa Gud fyrer Augum ſier/ og Oftaſt hin̄ alvallda Himens og Jardar Doomara-Doomurū er misfared eins og ødrum Mønum/ þar ſitur Moyſes a Doomſtoole/ þar ſitur ꝛ Eli/ þar ſat Salomon/ þar ſat ꝛ Achab/ þar ſat Lycurgus/ þar ſat og Pilatus/ og eru þau Dæme Oprioolande. Gud giæfe Men̄ hefdu færre af Eli / Achabs og Pilati Brædrum / en̄ hiner være fleire / þa mundum vier ecke ſvo berlega ſia þad Teikn hin̄s ſijdaſta allsheriar Dooms/ ſem Lauſnaren̄ ſeger oſſ fyrer/ hia Matthæū/ Cap. 24. ad fyrer þvi/ ad Rangſæted vex/ þa koolne Kiærleike margra/ ſvo ſm̄ Þ nu ſia ma af øllum þm̄/ ſm̄ ad þvi giæta/ en̄ ſiña hvad meſt af þm̄/ ſm̄ fyrer þvi verda. Þar eru ꝛ Doomar ymisleger. 1. Er þar Doomara Embætte/ ſem tilheyrer Kyrkiunar Þioonuſtu-Mønum/ hverium alvarlega bañad verdur/ ad ſegia hid Jlla Gott/ Eſa. 5. og ſkipad/ ad þr adgreine hid Laka fra þvi Lijtilmæta/

ad

ad ei lode þeir Frid/ hvar einges er/ til ad villa Sælernar. Þañeg dæmde og fordæmde Lausnarens Ogudlega Phariseos. 2. Er þ hiñ almeñelege Laga-Rietltur/ hver af Gude er tilsettur/ Mañkyneñu til Gooda og Vidurhallds. 3. Eru þr/ed Meñ almeñelega kalla Dag-Deoma / hverta Frelsaren̄ sier i Lage bañar hier i Evangelio/ um̄ hverja eg vil nu i þetta siñ nockud framar tala/epter þvi/sm̄ Gud giefur Naad til. Eñ þu alls Hollds Doomare/H Erra J Esu Christe / Styrk þu mig hier til med Naad þyns Anda fyrer þyna Forþienustu / A M E N.

# Vtleggingeñ.

HEsser Skadligu Dag-Doomar verda med mørgu moote/ z marg ra Orsaka vegna. 1. Fyrst þegar Meñ nidra þvi/ sm̄ Naungꝛ anum er vel giefed/og meiga ei þola/ ad þvi sie a Lopt halldeđ. Þetta Jllgrese sprettur af þre fulu Drambseme og Ofund/ er liggur i Bloodenu hiá oss Adams Sonum / sumum meir/ eñ sumum miña/ Vel sie þeim/sem giefa dreped þetta Eytur med þeckingu sijns eigen Overdugleika/ædur eñ þad blæs upp Sælena/heñe til eilijfrar Glot. unar/ sm̄ oss er þeim ed hroka sier upp/ og þyker ad einges stande sier iafnfætes/ þvi Gud mootstendur Dramblætum/ seger Ritningen/og hvar vill sa Heimvon eiga/sem hefur Konung Himnaña fyrer Ovin/ nema med hønum sem Drottens̄ steypte af Himne i eilijfar Pijslerz / vegna hiñar fyrstu Drambseme. Heyr þu mier / Mollð og Aska / þu vesæll Orma-Seckur/ er nockud añars Agiæte þijn Nidran? Ef þu ert Kostum bueñ/ a ecke Gud frialst ad giøra añañ þier jafnan/ edur fremre/ef hñ vill? Þvi hræker þu þa Gude i Andliteđ/ z smæinar hñs Mynd/sm̄ er Dygden/med þiñe saurugre z Ohlutvandre Tungu? Eñ munt þu naa þvi / sem þu epter leitar / Kiære / og ecke helldur bapa Virdingu þiñe med añars Nidran/hverre þu ella munder halld- ed hafa? Ad vissu. Ef Rafnen þegde / þa miste hañ ecke Bråd- ena a Stundum. Þegar eg heyre eiñ lasta þad sem vel er giørt / þa flijgur mier strax i Hug / hvad mun þsse Madur vilja lofad hafa/



fyrst

fyrst hañ lastar gooda Nlute? Eg giet ecke añad meint / eñ ad hañ kuñe ecke Grein Ills og Goods / edur ad hañ tale af Natre / þar hañ ecke añ Naunga sijnum Sañmælis / edur og i þridia Lage / ad hañ ligger fyrer ad hønum sie hroosad framar sier / og sie eg þa / ad hiñ er fremre / jafnvel ad sialfs hañs Doome / þoolt ecke vilie hañ Doomeñ uppsegia. Svo skierder nu hañs Mælge Virdingu hañs ad miñe Nyggiu / a hveria Lund sem þetta teked er / hvern eg ella hefde kañ skie fyrer goodañ Mañ hallded. Eingeñ leite epter þvi sm̃ hñs er / helldur epter þvi sem añars er / seger Paulus / 1. Cor. 10. Laungt eru þeir fra þvi / er vilia taka Sæmdena fra ødrũ / til ad auka sijna med / Eiñ Þioofur er vidurstyggeligur i Mañaña Augum / og verdur ei mooke þvi sagt / ad þetta er nockurskonar Þioofnadur i Guds Auglite / þvi hañ sm̃ nidrar ødrum / hañ stelur Virdinguñe fra Naunga sijnum / og er þad svo miklu argare Þioofnadur / sem Neidureñ er Fienu dyrmætare. Nañ sem lastar þad sem vel er giort / hañ er Lygare / þvi hañ seger Nluteñ ødruvijse eñ hañ er / Eñ hvad seger Syrach / Cap. 20. Betre er eiñ Þioofur eñ eiñ sijfelldur Lygare / þo munu þeir bæder Oluckuna hreppa. Nafe hver añañ sier i Virdingu Ædra / seger Paulus eñ aptur / vel giøra þeir þad / sem verda nærre þvi siuker / ef adrer eru ægiætter jafnframt þeim / þad er vel tilfunded a vora Tungu / ad Meñ giefa þvilijku Siukdooms Nafn / þvi Meñ kalla þañ Ofundsiukañ / sem plægadur er af þessum Diøfle. Eingu eru þeir betre / sem þeygia yfer þvi sem Lofs vert er / þeir ræna eins Dygdena sijnum Launũ / sem er Neidureñ / og være hun ecke sijn eigeñ Verdlaun / þa munde hun verda eins og Verkamadur sæ / er leidest ad viña Okeypis / þad er einslags Lagaleyse og Rietlar Neitun / ad vilia ecke hroosa þvi sm̃ Lofs verdt er / og ecke skilur þetta tvent ødruvijse / eñ þad ad dæma raungt / og ad neyta Riettarens / og er hverttveggia Svyvirding bæde fyrer Gude og Møñum / svo varla mæ uppa millum sia / hver Skømeñ ad hærra situr i Fiandans Rijke.

2. I Audru Lage eru þeir / sm̃ drepa ut hinar miñstu Naungans

Avirdingar/og giøra Alfallda ur Mÿ-Flugunne/ þad er Stoorglæpe ur lÿtille Yfersioon. Um þessa Raangsnunu Dooma talar Frelsarenn hier i Gudspiallenu/ þar hann seger: HVAD SJer Þu DUSTenа J ÞJns BRODurs AUga/ Enn ÞAnn BJALKann Sem J ÞJJnu AUga Er ADGJÆter ÞU EcKe. Varla er nockur Løstur kÿdare i Heimenum enn þesse/ Menn eru svo giefner fyrer ad leita upp annarra Misgiørder/ svo grandskigner i ad sia þær/ svo Mælsnialler t ad drepa þær ut/ þar vier erum þo sialfer Lÿtum hladner/ Ef vorar Hugsaner/Ord og Giørder ættu ad stikast a hinn Riettvÿsa Allsheriar Kvarda/edur hver er sa ed segia kunne: Mitt Hiarta er hreint: Verda ma ad þu siert ecke svo lagenn a þann Løst/ er þu svo lastar a ødrum/ enn elur kann skie adra verre/ og samsinner þeim/ sem eru þÿner Stallbrædur i slÿku. Þier þyker vænt um þÿna eigenn Klæke/ eins & Apiniunne um Unga sÿna/ þoott þeir sieu allra Kvikenda liootaster (ef þad ma nockud liootlt kalla/ sem Drottenn skapad hefur) og þo ecke sie annad/ þa er þetta Glæpur noogu stoor/ ad þu giører þÿns Naunga Avirding svo stoora/enn afsakar þÿna eigenn/sem kann skie er miklu stærre/ Hinn Dramblaate lÿter hinn Agiarna/ enn sig kallar hann Hugprudann/ Hinn Agiarne lastar hinn Eydslusama/ sig nefner hann Forsialann/ Hinn Eydslusame bryxlar hinum Adsiala/ enn hann vill Orlaatur heita/og svo þyker hverium af oss sinn Fugl fagur/og ecke einasta þetta/helldur þad sem vier erum sialfer hvad mest giefner fyrer/ þad drepum vier ut a ødrum/ (sem er stakt Blygdunarleyse) jafnvel a goodum Mønnum & Heidvirdum/ef þa kann eitthvad þvilÿkt ad henda/ sem vier sialfer høfum giørt ad Handverke og Daglegre Jdiu/ til þess/ad giøra þa eins svarta & oss/ & ad þra Dæme skule bera Skuggann a vora Glæpe/ Enn fæer hyrda um ad draga fyrst ut Bialkann ur sÿnu Auga/ ad þeir meige sÿdann utdraga Agnena ur sÿns Broodurs Auga. Þad er/ ad vanda og temia fyrst sialfann sig/ ad Madur sÿdann meige amminna sinn Broodur med þess meira Frelse og Avexte. Hier um talar Paulus Roksamliga/ Rom. 2. Segiande: J þvi ad

þu

þu añañ dæmer/ þa fordæmer þu sialfañ þig/ þvi þu giører hid sama sem þu dæmer/ Eñ meinar þu O Madur/ sierhver sa er dæmer þa ed þvilijkt giøra (seger hañ) og þu giører hid sama / ad þu muner uñ flyia Guds Doom? Hvert ad er samhliooda þvi sm̃ hier stendur i Gud spiallenu/ DÆMed Ecke/ Svo þJer BERDed Ecke DÆMDer/ Og er þad merkelegt/ sem Postuleñ seger hier: J þvi ad þu dæmer añañ þa fordæmer þu sialfañ þig / þad er/ med þvi ad þu giører þig ad Doomara i añars Avirdingu/ i hverre þu þo sialfur sekur ert/ þa ablar þu þier Fordæmingar / þvi Gud vill þijnar Synder dæma i Reide sinne/ fyrer þessa Hlutseme þina / þar þu fellur iñ i hañs Embætte/ sm̃ Doomureñ alleina tilheyrer/ svo sem Jacob vottar segiande/ Jac. 4. Eiñ er Log-Giafareñ / sa ed kañ ad frelsa og fortijna / eñ hver ert þu/ sm̃ añañ dæmer? Og þetta skiedur opkast i þm̃ Hlutum/ sem oss aldeilis ecke vidkoma. Eg kañ ecke ad segia / ad mier ei leyfest ad kalla þad illa giørt/ sm̃ mier er tilgiørt/ ef þad er illa giørt/ þa vil eg helldur lata Logeñ dæma mille mijn og mijns Mootstødu-Mañs/ helldur eñ leggia sialfur Doom a hañs Tilgiørd/ þvi hverke gyllder miñ Doomur mikid/ nema ad giøra mig sekañ þ Guds Doome/ svo og tek eg hañ frañ fyrer Hendur a Balldstioorneñe / hver ad er sett goodum til Forsvars/ eñ vondum til Hegningar/ eñ hvad a eg med/ ad dæma uñ þ mig ei snerter i enu minsta? Hvad-vardar mig uñ ad dæma þa sem fyrer utañ eru: seger Paulus uñ Heidingiana/ 1. Cor. 5. Syndgar noockur/ þa syndgar hañ moote Gude/ z moote sialfum sier/ moote ødrum / eñ mier ecke. Eg vil dæma hañ ad svo miklu Leite/ ad eg varest hañs Dæme/ og aminña hañ/ og Leidriettа / ef eg fæ þvi vidkomid/ þo svo/ ad eg drage fyrst ut Bialkañ ur mijnu Auga / eñ ecke vil eg utliroopa Synd hañs / og allra sijst giøra hana stærre eñ hun er / Hvar frá Gud vardveite mig / Helldur afsaka / ef hun er þañeg/ ad hun verdur afsøkud / og sa ødruvijse dæmer siñ Naunga/ hañ tekur Guds Riett fra hønum / og giører sig ad þess Herra sem hañ dæmer/ þar hañ er þo ecke nema Sampioon. Merkelega talar

Paulus

Paulus hier um̃/ segiande. Rom. 14. Hver ert þu sem fordæmer aꝺnars legañ Þioon: Hañ stendur og fellur sijnum Drottne. Jacob seger/ Cap. 2. um̃ þa sem fara i Mañvirdingar / ad þr sieu vordner vondrar Hugsana Doomarar/ eñ eckert er Mañgreinar Alit verra edr Heimsku legra eñ þ/ ad kalla sig hoskañ og heilagañ/ jafnvel þo vier aller hrøsũ i morgu/ eñ niijda sijna Brædur fyrer sømu Lyte/ sẽ vier leikũ oss ad/ eins og ødru Table/ edur kañ skie ødrum verre / velldur þad þvi/ ad Meñ giora sier svo añt um̃ ad hnijsa epter Naungans Giørdum og Ovirdingum/ ad Meñ fæ ecke Toom til ad rañsaka sijnar eigen / til hvers DRottem̃ bender hier i Gudspiallenu/ þvi ef Textans Meining er riett athugud/ þa heiter þ svo: Þu STarer a K Vistem̃/ Sem Er i Þijns BRoodurs Auga/ Eñ Þañ BJAlkañ/ Sem i Þijnu Auga Er/ Huglæider Þu Ecke. Þad er/ Oss verdur svo Starsynt a þad/ sẽ vier lioott siaũ a vorũ Naunga/ og høfum svo miked Omak fyrer ad giora þad eñ þa lioottara a stundum/ ad oss kiemur ecke i Hug ad eins/ad vier sieum i hinu sama vallder/ svo lengt er fra þvi/ad vier rañsokum vorn Lifnad/ edur leytũ i Fylsnũ vors Hiarta epter þvi/ sẽ þar kyñe foolged ad vera/ og fyrer þvi vier horfũ riett æfram/ þa siæum vier ecke Skreppuna/ sẽ a Bakenu hanger (svo sẽ i hinũ Griska Ordshætte seger:) velldur þessu hin bølvada sialfs Elska/ er liggur i voru spilltu Bloode/ Og þesse Grein af Dag-Doomunum/ er nu þess skadlegre/ sem hun er almeñare / og varla fyrer nockra Synd halldeñ Maña a medal. Meñ koma samañ til svodañ Dooma/ svo sẽ til añars Giestabods/ og i sialfũ Giestabodunum hygg eg ad þesse Riettur eñ smacke hvad best a stundũ/ Eñ þad er ad Ottast fyrer/ ad Satan hafe tilbued þm̃ eiñ Riett i Myrkra Salnum/ er skiemta sier ad þssu/ þad er/ad þeir ete sijnar Tungur ut af Ofraun/ Apoc. 16. sem þær brukad hafa til sliſera rangsnueña Dooma / nema þeir þecke Synd sijna/ Yðrest hennar/ og læte af henne / a medañ eñ þa er Tijme til ad dæma sialfañ sig. Hlijdum þvi Raustu Jacobs/ er hñ seger/ Jac. 4. Taled ecke hver a moote ødrum/ Sa ed talar a moote sijnũ Broodur/

og sa ed fordæmer Broodur siñ/hñ talar a mooti Løgmalenu/og fordæmer Løgmaled/eñ ef þu fordæmer Løgmaled/ þa ert þu ecke Løgmalsins Geymare/ helldur Doomare.

3. J þisse þridiu Rød eru þeir/sm lasta og ukhroopa þa Glæpe/sm bæde eru Openberer/ og svo Hroopleger/ ad þeirra Liootleik giefur ad sønu eingeñ affsakad/og eingeñ Heidvirdur Madur vill þm hroosa/er slykt adhafast/ eñ þad giora sumer ecke af þvi / ad þeir hafe svoddañ Leste/edur til ad lagfæra þañ/ sem ad þeim fundeñ verdur/edur ødrum til Viðvørunar/helldur þss vegna/ad eitt Jllt Skap hefur Gaman og Jndæle af ad lasta/og fagnar hverre Orsøk/er hñ kañ ad fa þar til/ Svo langt er fra þvi/ad hñ Mañeñ elske edur Leidrietta vilie/edur og i þridia Lage/ad hñ med þess Fordæmingu/ sm illa breyter/vill smijda sialfum sier nockurskonar Agiæftis edur Afbrygdis Mynd i añarra þaunkum/svo hñ giefe sagt : Eg em ecke svo sem þesse Tollheimtu Madur/ Luc. 18. Svo langt er hañ fra þvi/ ad bera miked af þeim/ sem hañ dæmer uñ/ þvi hañ/ sem þarf añarra Saurenda med til ad fegra sig/hñ ma ecke vera miøg Biartur sialfur. Þu Gudlaus Madur/hafer þu Gaman af ad lasta Avirdingar þins Naunga/ þo þær stoorar sieu/hverneg ert þu þa betre eñ hañ ? Þad hefur og Andskoteñ/og er hñ þo verre eñ hiñ argaste Syndare/ Sa sm drygt hefur eitt Skap/ hañ kañ ad ydrast / þvi mattugur er Gud ad reisa hañ/ seger Paulus/ Rom. 14. Þad sie eg af Dæme Manassis/Davids/Peturs/ hinar Bersyndugu/ z Heorkonuñar/er DRotteñ afleyste ꝛ Musterenu. Eñ hverneg villt þu/Satans Eingill/umskyia Guds Reide og Fyrer dæminguna/þar þu hefur Skiemtun af añarra Løstu/þoott ei drygeꝛ þu sialfur þa? Hver verdur svo Hneixladur/ ad eg stikne ecke ? seger Paulus/þad sagde hañ þess vegna/ ad hañ hafade Lestena/eñ elskade Meñena/ Eñ hver verdur svo Broflegur / ad þu fagner ecke/þu eltir Flugu Naktursins og Ofundareñar a Þreck añarra/ og geingur þañeg i Lid med Flugna Høfdingiañ Belsebub / og sver hønu Trunad / eñ skytst undañ Merke þins Frelsara/ i hvers Nollde Gud fordæmde þy-

ngd

na Synd/sem Paulus voktar Rom. 8. Med þvi ad þu fordæmer þin Brodur / hvern Gud hefur skipad þier ad aminna og Leidriettã / en alldrei fieck han þier nockurn svoddan Doom edur Vallð yfer hønũ. Ja / þar eru þeir til/ er svo rijkt Umbod hafa teked af Fiandanum/ ad þeir locka Manngan fyrst til ad syndga/ad þeir sijdan hafa meige þad þeir kuñe ad lasta og dæma um. Þesse er Diøfulsins Atferd/svo giørde han i Ondverdu vid vora Moodur Evu / en sijdan hefur han ei lated af ad brixla Guds Hjerflockum/og asaka þa/svo klagade hn̄ Job fyrer Gude / svo stood han til hægre Handar Josuæ hinū Ædsta Preste/til ad mootstanda hønũ/Zach. 3. Og þetta sparar han ecke en nu i Dag / ad utriettã fyrer sijna Umbods-Men / Vantruarenar Børn/J hveriium han kræptugur er/en Gud straffe þig Satan/han lifer en nu / sem Babilons Konung vog a Vigt / Dan. 5. Mattugur er han en i Dag/ad þrijfa sijna Branda ut af hetiar Ellde/eins og Josuam/en troda þig under Fætur vorar/Hunduren þin/z ad stockva þijnum Dalltar Flocke: Svo er nu þesse rangsnuna Dooma Adferd ein Satans Jdia/og þeir ed sier temia hana/ meiga þar um visser vera/ad hn̄ gielldur þm̄ i Skilegyre/ þad er med eilijfum Brixlū og eilijfre Smaan/ nema þeir gange ur Þienustuñe a medan þar segest en þa J Dag / þvi an ad hefur han ecke sijnum Møñum i Maala ad giefa. Fleire eru ad søñu Greiner þessara Dag-Dooma / en eg vil hier med kyrt lata i þetta Sin. En hvad skulu Men þa hier til segia? Eiga Men alla ad Josnu ad leggia/og eckert um þ hyrda/hverneg Manngã en flæckar sier? Fiærre sie þvi. DRotten JEsus giefur oss hier i Evangelio hin skijrustu Log/epter hveriium Manngan a og maa ad saklausu dæma/ segiande: Þu HRÆSNare/DRag FYrst Ut BJalkan Ur Þijnu Auga / Og Þa Munt Þu SJaa Til / Ad UTdraga FUisen ur Þijns BRODurs Auga. Sem villde han sagt hafa: Medan Kvisturen er i þijnu Auga/ þa ert þu ecke svo Skarpsyn/ ad þu gieter sied hvert þad er Biaalke edur ei / sem er i Auga Broodur Þijns. Ecke bañar han / ja / han bijdur ad Madur skule atelia sin

 Broodur/

Broodur/þegar hañ syndgar/ og afkelia hañ þeim Løstũ/sem hañ er giarn a / og kañ skie þecker ei sialfur / edur hyggur ecke svo liooka ad vera/þvi vier fyrergiefum sialfum oss jafnañ meira eñ ødrum/ og þvi er þad Velgiørningur / og Gude þægt Verk / ad vanda um vid siñ Broodur i slyku / eñ þo svo / ad Doomureñ kyrie fyrst a voru eigen Nuse/ og þvi seger hañ: DRag Fyrst uk Bialkañ ur þynu Auga. Hvad mun eitt sem veitur er i einhverju Leidriel kast vid þ/þott eiñ Glæ paa Madur deile a hñ? Man hañ ecke langtũ helldur giefa honũ Orsøk til/ ad brixla sier um slynar eigen Skamer/ hiñ Neil-Fælle spotte hiñ skacka/og.sa sẽ hyggtur er/Blaamañeñ/seger hid Latinska Sk.. lld. Nid sama er ad segia um þañ/sẽ ødrũ vill segia til Glæpa siña/þott eingeñ af oss sie Neilagur/ og þar vante miked a/þa skal hañ ad søñu Raadsviñare vera/sẽ añañ vill aamiña/helldur eñ hiñ/edur ad miñska Koste ecke i þeim Leske fundeñ/ sem hañ ækelur um/ añars mun hañ bradlega heyra: Læknar/hialpa sialfũ þier/og Paulus seger honum beiskañ Sañleika/ Rom. 2. Þu kieñer ødrum/ seger hañ/ þu predikar/ad ei skule stela/og þu stelur/ þu seger/ ei skule Hoordoom drygia/ og þu drygger Hoor/ þu hefur Andstygd a Skur-Godũ/ eñ stelur helgum Doomum/þu hroosar þier af Løgmaalenu/eñ vanvirder Gud med Løgmaalsins Yfertrodslu. Af þessu siaũ vier/hverssu Omissande þad er / ad vanda sialfañ sig / fyrer þañ sem vid añañ vill umvanda / og giører hañ med þvi svo Nluke gooda/sem er, ad hañ vardveiter sig Ostraffanligañ / og aavinnur Gude eina Saal til Nimnarykis / hverju eingeñ er þægare Foorn hñ/og ei þoolt eiñ bikade allar slynar Eigur nidur fyrer Fæteka / 1. Cor. 13. Svo Na.. synleger og Gude þeder eru nu svoddañ Doomar. Og hvad seger Løgmaaled/ Levit. 19. Þu skallt ecke vera eitt Last-Muñur/ eda Baktalare medal þyns Foolks/ og ei helldur skallt þu hata þiñ Broodr r þynu Niarta/helldur skallt aakelia þiñ Broodur / ad þu berer ecke Skulld hañs vegna. Nier slyneſt nier ad hñ/sẽ rañsakar Nyrun/kalle þad ad hata siñ Broodur i þynu Niarta / ad segia honum ecke til Vamña siña / ef Madur sier

þa/

þa/og ad hver eiñ giøre sig Hluttakande i þeirre Synd/er hañ sier ad syrgder a Naungañ / eñ vill þo ecke vara hañ vid. Þessa bid eg þig giæte sem giøra eiñ nærre þvi ad Gude/ medañ hañ heyrer til/eñ tala um̃ hañ allar Skam̃er/ jafnvel liugande/ nær hañ snyr vid Bakenu / eñ hverneg sem þvi er vared / þa siaum vier hversu vel ad þesse Logmaals Grein kiemur saman vid hid algiørda Nyia Testamentesens Logmaal/ þvi hid fyrra/ sem er Lastmælge og Ohroodur/ þad bañar DRottenn hier i Gudspiallenu med þessum Ordū: FORdæmed Ecke/ Svo ÞIer VERDed Ecke FORDÆMDER / eñ hid sïdara/ þar hañ seger: DRag SIIDan RVISTen Vt Vr ÞIIns BROTurs AVga. Frelsarenn giefur oss eitt Bodord/ Matth. 18. segiande: Ef þiñ Brooder syndgar a moote þier/þa far og ávit hañ millum þyn og hañs / ef þiñ Brooder heyrer þier / þa hefur þu ávuñed þiñ Broodur. Ef nu DRottenn byodur ad Meñ skule svo giøra/ nær eiñ brytur ødrum a moote/hvad miklu helldur muu hañ vilia þad skule skie til ad Leidrietta þañ sem fer villur Vega / og oss giører þo eckert a moote i þvi sm̃ hañ syndgar/þad er svo miklu meira Kiærleiks Verk øllum ødrum Kiærleiks Verkum / sem ad Sálenn med Guds Sonar Bloode Endurkeypt er øllu ødru dyrmætare. Eina Varæygdarseme hefe eg a ad minnast/ ádur eñ eg skilst vid þetta Mál/ sem er/ad hvad hellst sm̃ vier i þessu giørū/ þa framkome svoddañ Doomar af Elskuñe til Naungans Velferdar / og ad þeir bere hana epter sier. Dæmum og ecke helldur epter Alþydu Roome / edur um̃ þad sem vier ei skyniū/ helldur um̃ þa Hlute sm̃ oss alþeckter eru/og vier høfum Vitzmune á. Margur fer villt i þessu/Sumer ætla eiñ/ af þvi þeir vilia taka sier til nockurskonar Valld yfer hønū/ og syna þar med Skoormensku syna / þad ablar opt Forsmaanar og Athlæturs alleina/nockrer eru beisklundader og hardmællter/jafnvel þoott þeir vilie vel / Eñ þad skilur ecke hiñ / sem vid á ad taka / Meñ verda ad fara med eiñ villtañ Syndara/ þañ sem ecke er forherdtur i Vondskuñe/eins og med hrátt Egg/ sierdeilis þa sem Luckan hossar i Verølldunne/

olldunne/erke Menn fra illt Skap med Beryrdum/ þa verda þr eins og Hus þad er hrynur/ad þad brotnar sialft/ enn brytur i sundur allt þad sem under þvi verdur/þetta vil eg þeim sagt hafa/sem Gud hefur ecke sier i Lage umboded ad segia Jacob til sinna Synda/ og Israel til sinna Misgiorda / Hiner sem Guds Umbod er tiltruad / þeir hafa Frelse til ad Straffa / Ogna og Aminna / allra helst hina Þverbrotnu / og þegar Illskan og Ogudligt Athæfe tekur til ad Drottna i Landenu / (og þo vill Paulus ad Guds Vandlæte skule vera med Skynseme/) Rom. 12. þvi þeir giora slykt i Guds Stad / enn ecke under sinne Persoonu/og true eg ad eingenn sie svo Dærligur/ad hann þyckest vid Guds Ord/ þoott þad være frambored af einum aumasta Vesæling / nema sa/sem villde Eingel fyrer Prest hafa/ og giøre einn DRottens Mad ur þad ecke/ þa mun hann brædlega heyra med Jeremia/Þu skallt ecke hrædast fyrer þeirra Auglite / Ella mun eg Sundurmeria þig fyrer Augum þra/ og mun eg ollu helldur kioosa/ ad sia Skælken ygla sig/ enn ad Guds Reide forlyne mier ad honum æsimanda. Edur hvad seger Paulus/Gal. 1. Hefda eg hyngad til Monnum þocknast/þa være eg ecke Christi Þienare / Enn hinum ødrum / sem ecke hafa neinu þvilyku ad skipta vid annan/ þeim vil eg giefa þad sama Rad/ er gaf fordum St. Pall þeim i Galatia/Cap. 6. segiande: Brædur/ef nockur Madur verdur yfersttgenn af einhverre Nrøsun/þier sem Andliger erud / Leidrietted þann sama med hoogværum Anda / giegne eins Veralldar Sonur þvi med Hofmood og Forse/ svo sem þra er Venia til/ og sege eins og hinn Hebreske vid Moysen/ Exod. 2. Hver hefur sett þig Doomara i millum ockar? þa vardar þad litlu/eg hefe samt frelsad Sælu mijna / enn hanns Blood er yfer hanns Hofde / er ei villde þola Heilsusamliga Aminning / Ezech. 33. Svo Hugleided nu þetta / Christner Menn/og læted ydur Mal mitt i Eyrun loda/ aller erum vier syndugar/og eingenn sa ed Gott giøre/ og ecke einn/lærum þvi Doomenn byriast fyrst a sialfum oss/ og munum vier sijdur adra dæma/ sie þad Ender vorrar Idiu a Kvolldum/og stondum upp til þess sama a Morgna/

na/Doomarenn stendur fyrer Dyrunum/hver mun standast fyrer hanns Doome/ef hnn vill i Doom ganga vid prœla sijna/enn hann vill alla pa dœma i Brœde sijne/er sinn Broodur dœma/ þvi seger hnn: DÆMED EKKE SVO ÞIER EKKE VERDED DÆMDER / Annadhvert vill Gud dœma pa/er vier kokum oss Dooms-Valld yfer/ ellegar hann vill pa ecke dœma/ Vilie hnn dœma nockurn/pa gyllder vor Doom: eckert/nema til ad fordœma siælfa oss/ þvi hnns er Domurenn/vil ie hnn ecke dœma/ pa er þ hrædilegt ad vilja dœma þann/sm Gud helldur saklausann/og hm/er þ giør/er Fordœmingenn svo vijs/s hinn er Myrkunen. Athugnn þtta/enn gleymm þo ecke ad æmiñast innbyrdis med hoogværum Anda/ til Leidrietttingar og Vppbyggingar / og Samvilstum vorum til Frelsunar/ad ei giørum vier oss Hluttakara i annarligum Syndum/edur høfum Samfielag med Ofrioo sømum Verkum Myrkrana. Enn þu Stoore Allsheriar Doomare/ þu sem dœmer Verolldena med Riettvijse/þu sm alleina munt Riettlætur fundenn verda/nær þu dœmest/ Gief þu ad vier svo dœmum siælfa oss/ ad vier ecke verdum af þier Fordœmder/helldur igengum fra Daudanum til Lijffins/ Bænheyr pad/Myskunsame Gud/fyrer þijns Sonar alls Hollds Doomara Forþienustu/ AMEN.

## A Vitiunar Dag Mariæ.

Gudspialled/ Luc. 1. Cap.

A Þeim Døgum / Stood Maria upp / og foor med Flijte til Fiallbygda i Borgena Juda / Inngieck i Hus Zachariæ / og heilsade Elizabeth. Og pad skiede so / pa er Elizabeth heyrde Heilsun Mariu / ad Barned spratt upp i hennar Kvide. Og Elizabeth uppfylltest af Heilagum Anda / kallade hætre Roddu/ og sagde: Blessud ertu a medal Kvenna / og Blessadur er Avøxtur Kvidar þijns. Og hvadann kiemur mier þetta / ad Mooder DRottens mijns kiemur til mijn ? Sia þu / pa er Rodd þinnar Kvedju kom mier til Eyrna/ spratt Barned upp af Fognude i mijnum Kvide. Sæl er hun sem trude / þviad pad mun fullkomnast

nast hvad heñe var sagt af DRottne. Maria sagde: Mijn Aund miklar DRottteñ. Og miñ Ande gladdest i Gude / Heilsugiafara mijnum. Þviad hañ leit a Lægiug Ambattar siñar Sina / af þvi munu mig hiedañ af allar Ætter sæla kalla. Þviad hañ giørde vid mig mikla Hlute / sa sem Mattugur er / og hañs Nafn er Heilagt. Og hañs Myskunseme varer fra eitnre Kynslood / til añarar / yfer øllum þeim sem hañ Ottast. Hañ framde Magt med sijnum Arme. Sundurdreifde hañ Dramblatum i þeirra Hiartans Hugan. Volldugа setté hañ af Stoole / og upphoof Litelata. Hungrada fyllte hañ Gædum / og hinum Rijku slepte hañ Orbirgum. Hañ Endurminntest Myskunar siñar / og medtook siñ Þioon Israel. So sem hañ talade til Fedra vorra / Abrahams og hañs Afkvæmis ad Eilijfu. Og Maria var hiaa heñe so nær sem um þria Manude / og foor sijdañ aptur til sijns Heimkyñis.

## Exordium.

ÞAD var Sidur a Døgum Gamla Testamentesins medal Guds Foolks / ad þegar hñ hafde giørt eitthvert merkelegt Dasemdar Verk a medal þra / þa prijsudu þeir hñ med Lofsaungū / til þess ad Epterkomendurner kyñu med þm somu ad tigna hñs Dijrdarfulla Nafn / þegar þeir minntust a svoddan Guds Stoormerke. Þegar Moyses hafde leidt allañ Israel i giegnū Hafed Rauda þurrū Footum / eñ dreckt Pharaone z øllu hñs Lide þar i / þa prijsade allur Israel Gud med Nyium Lofsaung / og Maria Spakona Syster Aaronis took sier Bumbu i Hond / og allar Konurnar geingu ut epter heñe med Bumbum og Hlioood-Pijpum / og hun saung fyrer þeim: Synged Lof DRottne þvi hñ hefur stoorlega miklad sig / Hestenū og Riddaranum hefur hñ i Siooeñ nidurkastad / Exod. 15. Stoort var þetta Furdu-Verk DRottens / er hñ hier giørde vid Israel / þo er þad miklu meira / sm̄ hin blessada Mey og Mooder ad Christe Jungfru Maria prijsar hier i þessu heilaga Evangelio / med þeim Dyrdlega Lofsaung / er vier strax heyrdū i Gudspiallenu. Moyses leidde Israel ut af Egypta-

lands

lands Præsdoome: Guds Sonur hefur oss af Syndarenar og Dios-ulsens Prældoome utleyst. Gud steypte Pharaone og hans Her-Mönum ofan i Siooen: Eñ JEsus hefur hiñ sterka Hervopnada Diøful afklædt siñe Hardneskiu / og troded hañ under siña Barna Fætur. Siooreñ klaufst i sundur þegar Jsrael foor af Egypto: Eñ i Hollderkiu Guds Sonar eru Nœmen og Jørd samteingd/og öllū Guds Børnum i hønum tilbueñ eiñ nyr og lifande Vegur / ecke iñ i Canaan/ helldur til Himnarykis / a þad Land lifande Maña / hvar ad er Gnoogt Fagnadarens og gledelegt Lyferne til Fødursins hægre Handar. Anna Elkanæ Nuss-Fru saung Gude eiñ Packlætis Saung / fyrer þañ Son / er hun hafde feinged med Bæn af Gude: Eñ Guds Mooder prysar Nafn ens Allra Hæsta / fyrer þañ Son / er hverke hun nie nockur syndugra Maña kuñe um̄ ad bidia. Lea Jacobs Nuss-Fru sagde fordum / er Silpha Ol hene Asser: Nu munu allar Konur mig sæla kalla / Eñ Maria seger hier med øllu metra Riette: HJEDañ Af Munu Mig ALLar ÆTTer Sæla KAlla / þvi hun bar þañ i synum Kvide / i hverium allar Ættkvysler Jardar blessadar eru. Og fyrer þvi / Brædur myner / ad vier høfum eiñeg af hañs Fyllingu medteked / þa lætū oss nu fagna med Moodur DRottens / og skoda a þessu Stundarkorne hvad ægiætt þad sie / ad mikla hañ / og ad gledia sig i Gude synum Heilsugiafara. Hver Ord eg vil nu alleina Hugleida i þetta Siñ. Styrk oss hier til / O þu Bruñ ur alls Fridar z Fagnadar / mz Nааd þiñar Giæsku i Jesu Nafne / Am̄

## Utleggingeñ.

Ordeñ og Vegsemdeñ er svo stoor Hlutur / ad flester gyrnast hana framar ødrum Hlutum / Jafnvel þeir / sem eckert Lofsverdt viña / þr vilia þo læta Tigna sig / og svo eř Mañeskiañ giefeñ fyrer Heidrenum / ad sumer tapa hinum riettu Heidre / til ad utvega sier fængtt Hroos / eñ sumer vilia læta sier hroosa / jafnvel af Odygd-unum / Svo er þo Ærugyrndeñ ryk i vorre Molld og Osku / Eñ eingeñ af øllum þm̄ / er epter Vegsemdeñe kieppast / er þo verdur heñar fyrer

 sialfañ

sialfan sig / ef Mest skulu Sanleikan tala. Hier her Dyrdeni og Neidurenn/seger Spamadurenn under allra Manna Persoonu/ ad eingin frænskelon/ en oss her Blygdan vors Andlitis/ Pad er ad segia skylldt/ ad hroosa Dygdum og Mannkostum/en eingenn a po sialfum sier i pvi Verzsemdar ad leita/helldur Fodur Lioosanna/fra hverium ad kiemur oll good og oll fullkomenn Giof/ Jac. 1. Eingenn er meira Lofs verdur/en einn goodur Konungur/sa ed Ottast Gud/og vel stioornar sijnum Londum og Rijkium/ enn allra hellst Guds Kyrkiu/ umm hann maa eg segia pad/ sem Paall sagde fordum umm pa Olldungana/sem vel forstoodu/adur enn Guds Sofnuder hofdu Christna Veralldar Hofdingia / ad peir sieu tvofallds Neidurs verduger/ enn po fellst eg a pad/ er sagde hinn gamle Tobias: Leynda Dooma Konungsins er gott ad dylia/ enn Guds Verk ad byrka z saka/er heidarlegt/Tob. 12. Konunganna Raad verdr ad dylia/pvi jafnvel pott peir sieu ollum odrum Monnum ædre/pa eiga peir Jafningia adra Konunga sijna Lijka / Enn Konungur Konunganna a eingann sier jafnann/og parf pvi ecke ad dylia pad neinum hvad hann ætlar ad giora/ svo hann vill segia til hinnar mestu Heims Magtar/pad sem hann sagde fordum til sijns Foolks: Zach. 1. Pau Ord og Setningar / er eg umbaud Pienurum mijnum Spamonnunum/hafa pau ecke naad ydar Forfedrum/svo ad pegar peir aptur sneru/sogdu peir/svo sem DROttenn hugsade ad giora oss epter vorum Vegum / og epter vorum Athofnum/ svo hefur hann giort. Hvern skylldum vier pa helldur prijsa enn hann/er svo maattugur er og svo alvalldur/ ad hann situr i Himnenum og gioret hvad hann vill/ Ps. 115. Pvi hroosar Mooder DROttens hier i Guds spiallenu/ segiande: HAnn GJorde VJD Mig MJkla HLute/sem Ad MAATtugur Er. J hveriu giorde hann pad? J pvi/ AD HAnn LEtt A LÆGing AMbattar SJnar. Pad pyker ecke mijked/ ad giora miked af miklu: Pad er et ad undra/ poott sa giete bygt morg Hus/sem a marga Skooga/ po hann brioote morg Lond under sig/sem morgum hefur a ad skipa/enn pad maa Guddoomlegt pykia/svo sem pad og er/ ad giora allt af eingu/svo sem Gud giorde i Ondverdu Skopunar/enn

poott

þott þ sie eckert lijted/ſm̄ ad hn̄ giører/þa var þad þo lijted/ſvo ſtoort ſm̄ þad er/hiæ þvi/ſem Maria prijſar Gud fyrer i þeſſum Loffſaung/ þad er/ ad Gud vard Madur/ og fyrer þvi ad hinum Alvallda hafde þocknaſt/ad læka þ ſkie i heñar Kvide/ ſm̄ var ein um̄komulaus Skulka/þa prijſar hun Gud med þeſſare Saung-Vijſu: HAñ GJørde Vid Mig MJKla HLute/Sem Ad Mæktugur Er: þeſſ hefur allt ſyndugt Mañkyn noted: þad var verra eñ eckert/epter þad Madureñ hrapade i Afgruñ Fordæmingareñar / þvi betra var alldrei fæddur ad vera/eñ Eilijflega ad kveliaſt. Eñ hañ miñteſt ſiñar miklu Myſkunſemdar/og i ſijnum diupu Myſkunar Ydrum viliade hn̄ vor/uppruñeñ af Nædum.þeſſu er verdt ad hroosa fram̄ yfer allar Aſgiafer Drott ens / Ja / þoott ad allar Eingla og Mañа Tungur ſieu ſkylldar ad vegſama þeña Omælañliga Velgiørning DRottens / þa er þ oſſ þo ſkylldugt framar mørgum ødrum/ hverra Fedur ad voru Myrkur/ eñ vier þeirra Syner erum vordner Lioos i DRottne/Eph. 5. Aller þeir ſem ganga vilia eins og Lioosſens Børnum hæfer. Jomfrueñ ſyngur hier i Gudſpiallenu: HAñs MYSKunſeme VARer FRæ EJñe KYNſlood Til Añarar / YFer Øllum þEim / Sem Hañ Ottaſt. þad mætte Jſrael jæta/ er hañs Guddoomlega Trufeſte reynt hafde a Fedrum ſijnum/allt fræ Heimſins Skøpun/allt til þeſſ JEſus kall adiſt JEſus / og ſvo æ ſijdañ / ecke einaſta yfer Abrahams Sonum epter Holldenu/helldur yfer øllū þm̄/ſm̄ nu kallaſt hiñ Andlege Jſrael/ hveria Gud hefur Abraham af Steinū uppvaked/ þad er/ af þm̄/ ſem dyrkudu Stocka og Steina/og voru þm̄ ſiælfer lijker/ſem David vottar/ Pſ. 115. Oſſ/ ſem ad ei vorum hañs Foolk/ eñ hañ hefur þa kallad ſvo ſm̄ ſitt/hverier ecke eiga Kyn ſitt ad rekia til Jſraels. O hverſu meigū vier glader underkaka med hiñe ſælu Guds Moodur/þar hañ hefur oſſ ſamañſafnad af Auſtre og Veſtre/ eñ Rijkeſins Syner eru utrekner i hin ytſtu Myrkur/ſvo ad vier jæta meigū/ad þad hafe a oſſ ſañaſt/ ſem David ſeger um̄ Gud/ Pſalm. 103. Ad hñs Myſkunſeme vare ecke einaſta fra eiñe Kynſlood til añarar / ſvo ſem Guds

Manna/helldur hans/sem er Jehova vort Riettlæte/ Christus/en hans Riettlæte mä eingenn nä fyrer utan þad / ad hann sie vid sinn Broodur sättur i sijnu Hiarta/ad minnsta Koste/og vilie ofgiørt hafa þ afgiørt var. Nu er eingenn heilvita Madur sä/ ad ef hann hefur misgiørt vid nockurn/ad hann ecke helldur leite Sätta til hans/helldur enn ad mæta fyrer Doomarenum/hver ed auk þegnsens Riettar/ feller ä hann Kongsins Sok: sierdeilis þar Konungarner hafa epterlated slijkar Sätter/ nær Mälann er svo hättad/ ad ecke snerter Guds Æru/ nie Tign þra. Nu hygg eg su sie Meining DRottens i þessare Grein / þad sem Framsyne þyker i Verallds legum Mälum/þvi skyllde þad ei þykia i Efne Sälu hiälpar ydar: Frä Veralldlegum Doome mä komast ä einhvern Hätt/Einhver kann ad gänga i Borgun fyrer mig/mier kann Arfur til ad falla/svo eg gete loked Skulld mijna/ Viner og Näungar giøra Fridstillt mitt Mootstedumann/ Enn frä Guds Doome eingann vegenn / nema eg verde sättur vid minn Mootstødumann/ ä medann eg er enn þa a Vege med hønum/ þad er/ ä medann eg life/ ädur enn eg kiem fyrer hinn stränga Allsheriar Doom / og verd i Myrkvastofu kastadur/ hvadann eg mun ecke utfara/ þangad til eg hefe borgad hinn sijdarsta Pening/ Þad er alldrei/ þvi ur Helvijte er eingenn Endurlausn. Þar fyrer er einsætt ad sätt kast vid Näungann medann Tijmenn er/sierdeilis þar eg veit ecke hvad mijked er epter Vegarens / Gud rædur mijnum sijdarsta Natur-Stad / og ecke siälfur eg / Og hier af hygg eg þad audsært/ad ei tale Frelsarenn i þessum Stad um Veralldlegann Riett. Veit eg ad DRotten seger i þessum sama Capitula. Ef nockur vill vid þig Løg þreyta/ og þijna Yferhøfn af þier taka/slät hønum og þar kyrtel epter. Eg vik nu ei fär mier þad til Orda/ad marger Lærder Menn leggia þetta svo ut. Vilie nockur Kieppa vid þig Um Yferhøfn þijna. Þad er / taka hana af þier med Ofbellde/Eg vil läta hitt standa/ samt hefur þo DRotten ecke i þessum Ordum Laga-Rietten fyrerboded/þad var ecke hans ad banna Mønnum Løg og Riett/sem ad er Høfundur Riettar og Laga/hvers ad er Doomurenn/

ureñ/hver og er medal Doomaraña i Doomunū/ad Vikne Josaphats Konungs/2. Cron. 19. helldur þeirra sīñ neila Moñum riettra Laga/ Tradka Mœlum Maña med Flækium og Rangsleitne/ Spilla Lög-legum Viknum og Stefnū ad Raunalausu/hveria DRotteñ vill sÿdañ dæma. Eñ eg vil aptur taka til hiñs fyrra Mæls. Eingū bañ ar DRotteñ i þessare Grein ad beidast Riettar sÿns : þad er alkuñ-ugt / ad Frelsareñ talar i Ordskvidum og Epterlÿkingum prœlega i Kieñingum sÿnum/Hañ samlÿker Christnena Vÿngarde/Akre/Brud kaupe / þo er Christneñ hverke Vÿngardur / Akur nie Brudkaup. Hañ kallar Herodem Ref/munde hū þar fyrer Refur vera ? þa Johañ em og Jacobum þrumu Syne/mundu þr þa ecke vera Zebedœi Syn-er ? Hañ seger ad hægra sie Vlfalldanum ad gœnga i giegnū Nœlar-Augad/helldur eñ rÿkum Mañe iñ i Himnarÿke / Matth. 19. Nu er þad Omögulegt/ H var munu þa Abraham / Isaac og Jacob vera ? J þessum sama Capitula Matthœi seger hañ : Ef þÿn Hønd edur Footur hneixlar þig/ þa snÿd þau af/og snara þeim frœ þier/ Mun hū þa vilia ad Meñ skule meida sig edur vana eins og Baals Prestar? og ecke miklu helldur ad þeir skule Krossfesta sitt Holld/ og deyda sÿna Jardnesku Limu/ svo sem Paulus ad Orde kiemst / Col. 3. Hañ seger og i sama Capitula : Ef nockur slær þig a þÿna hægre Kyñ / þa snu ad hønum hiñe añare / Eñ ef hañ slær a hina vinstre fyrst / þa hefur þu ecke adra vinstre Kyñ ad biooda/seger Augustinus/ og Lucas getur hverke uñ hægre nie vinstre Kyñ / þvi meiga Meñ ecke alltÿd hœnga i Ordum Ritningareñar/helldur leita ad Meiningūñe/hver ad i þessum Ordum er eingeñ önnur eñ su/ad Meñ ei skulu hefna siælfer sÿn/helldur lÿda Oriettiñ med Poleñmæde/og Naturslaust/þad vil eg satt giøra med Frelsarans eigeñ Dæme/hver þegar hū var Kyñ-Hest sleigeñ/ Joh. 18. þa baud hū ecke hina adra Kyñ/ helldur ækallde med Hoogværd þañ er hū sloo/ Ei helldur St. Pœll/nær Prestahøfdingeñ baud ad slæ hañ fyrer Doome/ helldur beitte hañ Løgum fyrer sig/ og sagde; Gud straffe þig þu forfœgade Veggur/þu situr og dæmer mig epter

epter Logunum/ og byd᷑ur ad slaa mig a moote Logmalenu/ Act. 23.
Sama vil eg nu segia um̃ pad/ ad lata peim sin̄ Kyrtil epter/ er vill
prætta vid nockurn um̃ hu̇s yferhøfn/ peirra Orda er eingen̄ Mein̄
ing ønnur en̄ su/ ad min̄e Hyggiu/ ad nær Madur lijdur nockurn Oriett/
skule han̄ ecke hefna sijn sialfur/ helldur skule vera svo Skape farenn/
ad han̄ sie buen̄ til ad pola annan̄ stærre/ Reide og Nattursiaust/ ef han̄
nær ecke Riettte hia Vallsstioorneñe/ pviad af Sialfshefndeñe kiem̄
ur Tijdum stærre Olucka. Elldurenn verdur ecke med Ellde slocktur/
helldur med Vatne/ svo er pad eingen̄ Lækning Oriettarens/ ad gialld͛
Illu Illt/ helldur ad leita Valldstiettareñar/ hverja Gud hefur sett
hinū Froomu til Forsvars/ en̄ Ranglatū til Hegningar/ en̄ po Reide
laust/ pvi Madur a ad snua Vinganū i Hiartanu/ og ecke a Nøsd͛
enu. Fyrer pvi bañar Frelsaren̄ i pssare Grein/ Ecke Loglegan̄ Riett
argang/ helldur en̄ Paulus poott han̄ sege/ 1. Cor. 6. Vogar nockur
af ydur/ sa ed a Sok vid einhvern/ ad eiga Doom under Ranglatū/
og ecke under Heilogum/ ad so nu er Brestur hia ydur / ad pier hafed
Dooma medal ydar/ pvi lijded pier ecke helldur Oriettenn/ pvi take pier
ei helldur Skada? Ecke bañar Paulus hier Riettargangen̄ / helld͛
ur ad eiga Sok fyrer Ranglatum / (svo kallar han̄ Heidingia / en̄
Heilaga nefner han̄ hier Christna Men̄ / eins og vijdar) svo vill han̄
pa ecke allan̄ Riettargang bannad hafa / helldur ad eiga Maal fyrer
Heidingium/ hvar fyrer? Svo ad eingum græfu peir neina Hneixlan/
ad Pioonustugiørden̄ ei løstud yrde / 2. Cor. 6. og peirra Hoogværd
kun̄ug øllum Mønnum/ Phil. 4. Enn Vitne til pess/ ad hn̄ ecke villde
hafa Riettargangen̄ afmadan̄/ er pad/ ad hn̄ ei bañar/ ad eigast Log
vid fyrer Christnū/ og sijnest lata þ epter/ ef vid parf/ par han̄ seger.
Er eingen̄ sa a medal ydar sem Vited hefur / sa ed kun̄e ad dæma
millū Bradra sin̄a? Og þ pvi / ad Christner høfdu pa eckert Valld
til ad dæma Opinberlega um̃ Verelldar Maal/ pa sijnest/ ad hn̄ vilie
ad þr nefne Men̄ af sialfum sier/ til ad dæma Maal sijn / helldur en̄
ad bera pau under Vantrugda/ edur pola Oriettenn ella/ helldur en̄ ad
giora

giøra Þrækur sÿnar Auglioosar þeim/ er høfudu Christeñdoomeñ/æ
løgdu þeim allt til Lÿta/ er þa Tru og Þioonustu teked høfdu/ og svo
sem Frelsareñ seger hier i Gudspiallenu. NEma YDar RJETT-
LÆTE YFERgnæfe MEir Eñ HJña SKRJPTlærdu Og
PHARJsæaña/ Þa KUNNed ÞJer Ecke Jñ Ad GANga J
GUds RJJKE. Svo vill og Pall/ ad hiner Christnu skÿna
skule svo sem Lioos a mille Rangsnueñar Heidingiaña Kynsloodar.
Þesse same Guds Madur seger i ødrum Stad: Læted ei sigrast af
hinu Jlla/ helldur yfervinned hid Jlla med Goodu/ Rom. 12. Eñ
hver vogar ad kalla Skipan hiñs Almættuga vonda? Edur er Vallds-
stioornen ecke af Gude sett? Er hun nockud svo sem añad Bylæte iñ-
sett i Christs Kyrkiu/ til Prydes alleina? Lângt er fra þvi/ helldur
til ad skipa Riettlendū Maña/ fyrer þvi kalla eg hañ sigra hid Vonda
med Goodu/ sem nær Riette sÿnum fyrer Løglegum Doome/ eñ þoler
an Naturs og Møglunar/ þoott af þvi here. DRotteñ seger i
Løgmælenu/ Exod. 21. Auga fyrer Auga/ Toñ fyrer Toñ/ þar
fyrer hefur hñ þo ecke leift þm̃ er Augad miste/ ad stÿnga ut Augad
a honum er stack/ ecke helldur hefur hañ teked Sverded af Doom-
aranum/ þoott hañ bañe þad Þegnenum. Eckert nÿtt Løgmæl
hefur Christur sett i þessum Greinū/ þvi Sialfshefndeñ er og bøñud
i Løgmælenu/ sa sem sagde Doomaranum/ Levt. 19. Þitt Auga skal
ecke þyrma honum/ Lÿf fyrer Lÿf/ Auga fyrer Auga/ Toñ fyrer
Toñ/ Hond fyrer Hond/ Foot fyrer Foot: Hañ hefur og sagt hver-
jum einum þar fyrer utañ/ Lev. 19. Þu skallt ecke sækia epter Hefnd-
eñe/ og ecke vera Miñugur Oriettarens. Hañ ed seger i greindum
Capitula Devt. um̃ hiñ falska Vott: Þier skulud alldeilis giøra
honum svo sem hañ leitadest vid ad giøra sÿnum Broodur: Hiñ same
hefur talad fyrer Muñ Salomonis/ Prov. 20. Þesse Ord/ um̃ alla
þa sem ecke hafa Guds Vm̃bod i Doomara Sæte: Þu skallt ecke
segia/ Eg skal Endurgiallda Jllt/ bijd epter DRottne/ hañ mun
frelsa þig. Þessu er Pall samþyckur er hañ seger/ Rom. 12. Þier
eiged

eiged ecke ad hefna sialfer ydar / þvi skrifad er / Mijn er Hefndeñ / eg vil Endurgialda : Eñ þegar Valldstiettefi hegner vondra Verka a þeim sm̃ giørt hefur a añars Hluk / þa frelsar Gud hiñ Saklausa / þvi hun er hñs Þienare til Hegningar / þeim er Jllt adhafast / Rom. 13. Hvervetna þar sm̃ hiñ Stoore Allsheriar Doomare hefur Valld stioornefie Riettefi i Hendur feinged / þar hefur hañ med þad sama leift sierhverium / sem vanhalldeñ er / ad sækia Rett siñ fyrer heñe / þvi hun ber ecke Sverded forgiefens / seger Paulus: Og Petur byodur ad Meñ sieu undergiefner Stioornendunum / svo sem þeim af Koungenum eru sender / til Straffs hinum Glæpafullu / eñ til Lofs hinum sem Gott adhafast / 1. Pet. 2. Mun nu ecke þessa vid þurfa / Christner Meñ ? Edur er Veroldeñ svo Einfølt / ad ecke fiñest i heñe bæde Svart og Hvijtt? Svo heilog / ad ei fiñest bæde Vonder z Gooder? Þvi er einsætt fyrer þa sm̃ Rangindeñ þola / ad leita Forsvars hia Valld stiettefie / Edur munde ecke Paulus leita Lids i Logunum / þegar Lysias villde hafa tefst honum / Act. 22. Munde hañ ecke skioota sier under Keysarans Doom / þegar hañ Ottadest Ofbellde Gydinga / Eg þore framar ad tala / þad er ecke Gude þægt / og gagnar ecke til hñs Dijrdar / ad Meñ alltijd giefe Riett siñ epter / þvi þ giører Ohluk vanda Meñ optast þess verre og æsælnare / svo ad þ maa skinast / ad sa eble Jllsku þeirra / sem lætur Hlut siñ fyrer þm̃ / ef hñ maa naa honum med Logum og Riette / Sa sem vill taka fra mier Æru mijna og gott Mañord / mun þad Gude a moote / ad eg forsvare mig Loglega fyrer Averstre hñs? Hañ lygur uppa mig Lytñ og Skomñ / sem eg alldeilis ecke er valldur af / Mun mier ei Leifelegt ad bera Hond fyrer H ofud mitt / þar svo æstendur / Einhver ræner mig Fiarhlutñ mijnñ / Odolñ og Arfa-Gotse / edur odru þvi / sem eg er vel ad komeñ / og þad añad hvert med Ofryke / edur Yfervarpe Laga og Rettinda / svo eg lijd Skort a Forsorgun miñe / og þeirra sm̃ mier eru Vandabundner / Konu / Barna og Hiua / hefe ecke þad eg meige Fatækum giefa / og biarga Naudstoddum med / eñ hñ brukar Fe mitt til Ohoofs og Ofmetnadar / þvi svo

ſvo giøra þr opkaſt/er lata Þienara ſijna ſtockva yfer hvern Þroſk-ulld/til ad fylla Hus Drottna ſiña med Rane og Svikum/ Zoph. 1. Mun Gud bafia mier ad veria mitt med Løgum a moote ſlijkum Ofſtopa? Fiærre ſie þvi/añars hefde hñ ecke gyrdt i kriijngū Frelſe mitt/ og Figur mijnar med Lagaña Mur ; Ecke ſie eg ad Ritningeñ legge þad Nabot til Lijta/þott hñ neitade Achab um ſiñ Vijngard/Eñ ſa gioter hid ſama/ſm ver ſitt med riettū Løgū. Gud hefur boded mier/ ad eg ſkule elſka miñ Naunga ſem ſialfañ mig/ eñ ecke framar. Oſt-ande være/ad Meñ giæfu þad vel halloed/þad heyrer Gude einum til/ ad elſka hañ framar øllum Hlutum/ og jafnvel Lijfenu/ þad a og ad giøra vid Brædurnar/ſeger Johañes/hañs vegna/ 1. Joh. 3. Eñ ſu Elſka er i þvi foolgeñ/ ad hialpa hønum og forſvara fyrer Omilld-um Møñum/ eñ ecke i þvi/ ad lata Skalkeñ ræna ſig og Feflekta/ ef eg ma Lagaña niootа/ þad er eingu betra/ eñ ad forſma Guds Gaf-ur/er hñ veiter mier til Vpphelldis/eñ eg vil þær ecke nyta. Eg veit og/ad eg er ſkylldugur ad ſtyrkia Maal Eckiuñar og hins Fodurlauſa/ mun eg þa ei meiga ganga i Rett fyrer þau/kuñe þm þar med Hoolp-ed ad vera / ef mier þad Løgeñ leifa ? Af øllu þeſſu hygg eg nu aud-ſært vera/ad þ ecke einaſta er Leifelegt/helldur og gott Verk a Stund-um/ad leita Laga og Rettar a moote Araſum vondra Mañа/ Eñ þ a ad ſkie med allre Hoogværd/ an Naturs og Reide/ ſvo ſem adur er ſagt/þvi hñ ſm Retteñ ſett hefur/hñ hefur og ſagt ; Elſked Ovine ydar/Matth. 5. og nær þad ecke ſijdur til Rettargangſins/helldur eñ til hvers añars Vidſkiptis vors/ og Vmgeingnis i Heimenum. Sa ſem elſkar Ovin ſiñ/hañ elſkar ſialfañ ſig/þvi under eins og hañ fyr-ergiefur ſijnum Broodur hañs Misgiørder/ þa auglijſer hañ ſig þar med ad vera Barn ſijns Fodur/ſm a Himnum er/hañ tekur under eins Aflaat og Kvittun af Gude fyrer ſijnar eigeñ Synder / ef hañ gioter þad af Hiarta/Marc. 11. ORotteñ hefur ecke bañad ſialfañ Hlut-eñ / helldur ranga Afferd Hlutarens / þad er/ ad bruka Retteñ til ad hefna ſijn/eñ ecke til ad na Rette ſijnum/ad bera Fe i Dooma/ad ut-

vega

vega følsk Vitne / ad bruka Laga-Krooka / og adskilianlega Rangs-Leitne/ Ad erta upp illt Skap med Bryxlum og Skut-Yrdum/ jafnvel i riettu Maale/ til þess/ad fa meire Nefnd yfer sijnu Moolstødu-Mañe/ eñ hañ i fyrstu hafde tilunned/ allt svoddañ er af hinum vonda/ þad hefur Gud og alldrei leift i neinum Rietlargange ad bruka / helldur streingelega bañad / eñ allra helst ad hakast vid siñ Moolstødu-Mañ/og sa þ giører/hñ verdur eins sekur fyrer Gude/svo sem hiñ/ þoott alldrei eige hñ svo gott Maal/ og hvad hefe eg þa gott af þvi/ad eg spille Myskun Guds yfer mier/til ad hakast vid hañ/er vid mig afgiørde/ þvi Gud kañ ad myskuna hønu / ef hñ ydrast/ eñ eg a eingrar Vægdar Von/ svo leinge sm̃ eg el Natur til hñs. DRotteñ seger og ad søñu hier i Gudspiallenu/ad sa sem hefur giørt a añars Hlut/ hñ skule sættast vid Broodur siñ/ adur hñ offrar Gafu sijna/ Eñ um̃ hiñ sm̃ misgiørt er vid/seger hañ med slijka Moote/Marc. 11. Og þegar þier standed buner til ad bidiast fyrer(þad er ad offra Gude Bæn siñe) þa tilgiefed / ef þier hafed nockud a moote einhverium/ svo ad ydar Fader/ sem a Nimnum er / Forlaate ydur ydar Misgiørder/ Skyllda eg þa bera Natur til hañs/sem eg a Maalstad vid/ þoott alldrei ætte eg um̃ svo fast ad binda/þad være ærs Mañs Ædel og ecke þss/sm̃ heilvita er i sijnu Christeñdoome/þar eg a Daglega ad bidia þssa Bæn: FYRGRgief Oss VORar Skullder/ SVo Sem VIer FYRergiefum VOrum Skulldunautum / og veit / ad eg ecke fæ Kvittun Synda miña / a medañ eg hondla ecke Reidelaust vid miñ Naunga/hvert þad er i Rettargange/edur utañ Rettargangs: Þad er og vyst/ ad vor beste Rettur/er eingeñ Rettur fyrer Gude/ ef hñ vill dæma epter sijnu Riettlæte/ svo seger Job/ Cap. 9. Eg veit vel/ ad eingeñ Mañeskia kañ Rietklaat ad standast fyrer Gude/og þvi skyllda eg þa hafa Ovin miñ/fyrst hñ hefur skipad mier ad elska hañ/sem a svo mikil Raad a mier/ad hñ getur Fordæmt mig/ nær hñ vill. Þess er og ad giæta / ad ecke hlaupe Meñ til Doomarans um̃ hvern Niegooma/þad kieñer Agyrne og Orooa/ad vilia þratta um̃ Smaamune/

og sæmer ecke þm̃/ sm̃ vill lata sig Hugprudañ kalla/ auk helldur Rett Christnum Mañe/ hveriumm ad byriar ad vera Liufum en ad satkost / jafnvel med nockrum Skada sijnum / helldur eñ ad draga siñ Moot-Part fyrer Doomarañ/ hønum til meire Skada/ og Hneisu þrar/ er hiñ hefur ecke Gagn af/ þoott ei hafe Meñ alltijd halldeñ Hlut/ sierdeilis ef ad kieppa er um̃ þa Hlute/ sem Lijfs Næringu ei vidvijkia/ hveria Paulus sijnest ei vilia hafa under Doom Heidingiañá/ 1. Cor. 6. Einkum þar Frelsareñ hefur bañad oss ad syrgia fyrer heste/ Luc. 21. og brukar þad sama Ord i þeim Stad / sem Postuleñ hier / og þvi aminner hañ alla Christna Meñ med þessum Ordum/ Col. 3. Iklædest svo sem Utvalder Guds Heilager og Elskanleger Hiartgrooeñe M/skunseme / Lijtelæte/ Hoogværdeñe/ Þolenmædeñe/ umberande hver añañ / og fyrergiefande hver ødrum / Ef nockur hefur a moote einhverium Akæru / svo sem Christur hefur ydur fyrergiefed / svo giøred og þier. Gud giefe øllum sijnum Børnum þetta Hiartalag ad stunda/ og þvi fast ad hallda/ þar til vier komũ fyrer hiñ Stoora Allsheriar Doom/ hvar vorer størstu Oviner/ Synd/ Daude/ Diøfull og Helvijte skulu oss eckert Mein giøra/ auk helldur nockur Veralld' Magt/ þvi hvørt vill føra Kiæru-Maal i giegn Utvølldum Guds/ þar Gud er sa sem Riettlæter/ Christur er sa sem Deyeñ er/ ja/ eñ framar Uppriseñ/ hvor og er a hægre Hønd Gude/ hvør og er Medalgangare þ oss/ Rom. 8. Þessa Hlutskiptes uñ þu oss ad niooka eilijfe Konungur Dyrdareñar/ þ hñs Forþienustu/ sm̃ er allz Heims Doomare/ JEsus Christus/ Amen.

## Siøunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Marc. 8. Cap.

I Þeim Døgum. Þa þar vareñ margt Foolk komed samañ/ og hafde ecke til Matar. Kallade JEsus sijna Læresveina til sijn / og sagde til þeirra : Mig aumkar yfer Foolked/ þviad i þria Daga hafa þeir hia mier vered/ og eckert til Matar haft. Og ef eg læt þa fastande heim til sijn fara/

þa

þa vanmegnast þeir a Leidene. Þviad sumer voru laangt ad komner. Og hañs Læresveinar svorudu honum : Hvadañ faaum vier þau Braud/ hier a Eydemørku/ so ad vier faaum þaa mettad ? Og hañ spurde þa ad. Hvørsu mørg Braud hafed þier ? Þeir søgdu honum Sio. Og hañ skipade Foolkenu nidur ad setiast a Jørdena. Og took þau Sio Braudeñ/ þackade/ braut / og fieck sijnum Læresvein-um/ ad þeir legdu þau fram. Og þeir lögdu þau fram fyrer Foolk-ed. Þeir høfdu og faaeina Smaafiska / og þa hina sømu blessade hañ/og baud fram ad leggia. Eñ þeir neyttu/ og urdu metter. Og þeir tooku upp þad yfer var/sio Karfer med Afgangs Leyfar. Eñ þr sm̃ neyttt høfdu/voru naer fiorar Þusunder/ ꝛ hñ liet þa i burt fara.

## Exordium.

MADVRENN mun ecke lifa af einusamañ Braude / helldur af sierhveriu Orde / sem fram̃geingur af Guds Muñe / sagde Moyses vid Jsrael fordũ/ Devt. 8. Þessũ sømu Ordũ kastade Frelsareñ Andskotanum i Naser/þegar hñ freistade hñs/til ad giøra Steina ad Braudum/ Matth. 4. Þau eru og søñ/ svo sem aller ad-rer Guds Vitnesburder/þvi þ maa ei Lijf kalla/sm̃ er aan Guds Orda/ jafnvel þoott eiñ hafe Holld og Hamsa / og lijte noogir saellega ut. Christi Ord eru Lijf og Ande / og aan þra er Madureñ eins og Paall seger um̃ Eckiuna/ þa i Gyrndũ lifer/hañ er lifande daudur/ þo hef-ur Gud gefed Mañenum Faeduna/svo sm̃ añad Medal/til ad lifa af/ Þar fyrer stendur hier : Ecke af einusamañ Braude. Vitanlegt er þad/ ad Gude er ecke um̃ Megn ad hallda Lijkømum vorum vid aan Matar og Dryckiar/þad sijna oss Dæme Moysis/Dæme Eliæ/Lausn-arans/er føstudu i heila 40. Daga/og maa skiliast/ ad þeir Moyses og Elias hafe vered DRottens Fyrermyndan i þessu/og þvi skyllde hañ ecke kuña ad ala Mañeñ aan Faedslunar / sem ad i Eydemørku sadde 5000. Mañs med Fim̃ Bygg-Braudum og Tveim Fiskum/ Joh. 6. Og i þessa Dags H. Evangelio heyrum vier/ad hañs mikla Almaett-is Hønd mettar 4000. med eins litlum Koste. Vt af þvi fyrsta

Kraptaverkenu hefe eg nockud ádr talad i þessare Book/ um̃ þ/ hverneg vier i Guds Otta eigum ad leita Næringar vorrar/ hvad eg Oska ad fiñe goodañ Stad i Hiørtũ þra sem lesa edur heyra. Eñ nu vil eg ut af þessu H. Gudspialle alleina þar um̃ tala/ hvad oss eige ad styrk ia i Truñe til ad treysta Gude / og varpa allre vorre Ahyggiu uppa hañ/ nær oss vantar þessarar Veralldar Mune.

Hiálpa oss til þessa/ DRottenñ miñ / Fyrer þitt Dyra Nafn og Sonarens Forþienustu/ A M E N.

## Utleggingeñ.

HAD er Grátlegt til ad vita/ hversu ad Nockura Mañsins epter Spillinguna er Tøg til ad treysta Gude / þegar þad er ecke fyrer Augunum sem eta skal. Moyses sloo a Kletteñ i Horeb/ og þar flaut Vatn ut af / svo ad allur Jsrael drack/ Exod. 17. Eñ er Gud baud hønum i Eydemørku Zin ad giøra hid sama i añad Siñ / þa efadest hañ/ og sloo Tvisvar a Biarged/ Num. 20. Nañ sa Dagelega/ ad Gud fædde þa med Manna af Himnum ofañ/ Eñ er Foolked møglade/ og beidde um̃ Kiøt/ eñ hañ bar þad fyrer Gud/ sem hiet ad gefa þeim Kiøt ad eta allt til Leidenda/ þa var þo ecke Trueñ sterkare hiá siálfum Moyse/ eñ svo/ ad hañ sagde/ Num. 11. Þetta Foolk er Sex Hundrud Þusund Mañs/ og þu seger/ eg skal gefa þeim Kiøt/ svo þr ete i heilañ Mánud. Læresveinarner høfdu sied þad mikla Kraptaverk / er JEsus hafde giørt skom̃u ádur eñ þesse Jarteikn skiede/ nærre þvi i þessum sama Stad / Er hañ sadde 5000. Mañs med Fim̃ Bygg-Braudum og Tveim Fiskum/ Joh. 6. Þa talde Philippus Tormerke a Spurningu DRottens / og sagde : Braud fyrer 200. Peninga næger þeim ecke / Eñ hier foor ecke betur / nema midur være. HVADañ FAum VJer Þau BRaud HJer A EYde-MOrku/ Ad VJer FAum Þa MEttad. Og epter þad þeir høfdu sied bæde þesse Krapta-Verk/ og mørg oñur fleire/ þa ætludu þeir hañ munde Braude-Þurfe vera/ er hañ took þeim Vara fyrer Sur-Deige Herodis og Phariseañа a Skipenu/ svo sem lesa má i þessũ sama

sama 8. Cap. Marci. Af hverium og rada mã/ ad þ hafe skied strax epter þessa dyrlegu Jarteikn. Gud betre/ ad þad hender oss a Stundũ Christna Mañ/ sẽ Lausnareñ seger uñ Heidingiana/ Matth. 6. Hvad eigũ vier ad eta? Eda hvad eigum vier ad drecka? Edur hveriu eigũ vier ad klædast? Eñ þar til verdur ei betur svarad / eñ sialfur hañ svarad hefur. Er ecke Lijfed meir eñ Fædslañ/ og Lijkameñ meir eñ Klædnadureñ? Seg þu mier/ Guds Barn/ skoop hañ þig ecke Dasamlega i Moodurlijfe? Gaf hñ þier ecke Saal og Lijkama? Endurleyste hñ þig ecke med sijns Sonar dijra Bloode? Hefur hñ ecke Endurgieted þig daudañ i Syndunũ? Hefur hñ ecke foostrad þig med sijnu H. Orde? Hefur hñ ecke aled þig a sijns Sonar Holld og Bloode? Helldur hñ ecke ollu þessu vid Magt eñ nu dasamlega/ og undrunarlega a Stundum? Eg vil taka til þess sem dijrast og dasamlegast er. Hafe hañ giefed oss Soneñ / þvi mun hañ þa ecke giefa oss alla Hlute med honũ? Og ef hñ giefur oss alla Hlute/ þa giefur hañ oss eiñig Forsorgun Lijkamaña. Hafe hañ aled Dñ fyrer oss / bæde i Moodurlijfe/ og allt upp þadañ/ i Andlegañ og Lijkamlegañ Mata/ mun hñ þa Onyta sitt eiged Verk? Nema ad Mañeskiañ giorde Guds Almætte Banmattugt a sier med Truarleysuñe/ eins z Læresveinarner/ er þeir gaatu ecke læknad hiñ Tunglsiuka. Þu seger/ Eg fiñ opt Brest a Atvinũ miñe: Hungur z Dyrtijd meiga Mañ Stundum þola/ hvad velldur þvi? Spyr Ezechiel ad/ hañ mun svara þier Ordum DRottens. Ef eitt Land syndgar miøg a moote mier/ þa vil eg utrietta mijna Hond yfer þ sama/ z i burt svipta Brauds-Nægtunũ/ og eg vil senda þangad Hallære/ og upprickia þar iñe bæde Møñum og Fenade/ Ezech. 14. Mun þad nockud raska Sañsøgle DRottens/ þoott Mañ giøre sig hñs Orlætes Overduga: Þegar ad allra Handa Lester og Klæker/ Guds Ords Forøgtun/ Vanbrukun hñs Helgidaga/ Rangslæte/ Meinsære/ Lygar/ Þioofnadur/ Agyrne/ Drambseme/ Ofbelldi/ Agg/ Reide/ Þræta/ Svik/ og Vnderferle/ og añad þessu lijkt/ Þegar allt þetta geingur Fiollunũ hærra i Landenu/ er þa

ad

ad furda/ þoott han apturlyke sine millðu Hønd a stundū? Eda seger ecke Paulus / ad fyrer þess-hattar Glæpe kome Guds Reide yfer Børn Vantruarekar/ Col. 3. Hver vill þa skylda han til/ad hn̄ skule Nadugur vera? Leitin̄ þvi Drottens a medan hn̄ er ad finna/ køllū a hn̄ a medan hn̄ er nalægur/ Sa hin̄ Ogudlege læte af sijnū Vege/ og Illvirken̄ af sine Nyxan / og snue sier til Drottens / þa mun han myskuna hønum/og til Guds vors/þviad i hia hønum er mikil Fyrergiefning/ Esa. 55. Eg skal endurgiallda ydur þau Aren̄/ sem Gras-Noppan̄/ Kals-Ormuren̄/ Tre-Madkuren̄ og Gras-Madkuren̄ hafa fra ydr teked/seger Drotten̄/ Ioel. 2. O min̄ Gud/hver hefr þier nockurn Tijma giefed? Hver hefur þier lanad/ þ þu skyllder hønū endurgiallda? Pad meigum vier jata i þessu fatæka Lande / ad hafe Gud einhveriu Sine straffad Synder vorar med Oaran nockurre / þa hefur han̄s Millde oss þad endurgollded med mikille Ar-Giæsku/bæde til Sioos og Lands. En̄ hvad fylger a epter hia Spamanenū i sama Capitula? Nær þier eted Oaflatanlega/og erud metter/ þa munud þier lofa Nafn DRottens Guds ydar/ En̄ sia nū til/hvert Fader Minsk unsemdan̄a mune ecke hafa funded Skort a þssu hia mørgū af oss/og hvert þ mune ecke miklu helldur eiga heima hia sumū/ er stendur hia Hoseam/ Cap. 13. Under eins og þeir metter urdu/þa er Hiarta þra upphafed/ og hafa gleymt mier. Einhver vill segia: Eg fin̄ ecke þessa Glæpe hia mier / Eg Ottast Gud og Elska / svo sem mier er møgulegt/og giøre hønū þacker/ samt ma eg og mijner þola Hungur og Þorsta/Kulda og Klædleyse. Heyr mier um̄ Stund/Barn mitt, Muntu vera sa einaste af Guds Børnū/sem̄ hn̄ leggur þvilijkt uppa? Mattu ecke þr Abraham / Isaac og Jacob verda Landflootta fyrer Hungurs Saker? Gen. 12. 26. og 46. Matte ecke Elias fasta i 40. Daga? 1. Reg. 19. Hvad margt seger Pall hafa matt Illt þola fyrer Evangelium? En̄ þetta mattu þeir lijda til þess/ad þeir vissu hvad þeir væru/sem er syndugar Manneskiur/hvar þeir væru/þad er i Heimenum/ J Utlegdene / og ecke i Fødurlandenu/ hvernen̄ þeir vera skylldu/

skylldu/ sem er stoduger i Trune/ Polesmooder i Normungene/ og glad" er i Vonene/ Sama giører han vid þig/ þvi ecke er hia honū Mañe greinar Alit/ Act. 10. Þykest þu nu betre en svo/ ad þier sie fullgott ad hafa lijkan Kost med þessum Guds Koppum / þvi angrar sig þa Sala þijn/ og þvi er hun Orooleg i þier? Vona þu a DRottenn/ þvi þu munt en nu prijsa hn/ Psalm. 42. Edur villtu ecke helldur hafa Þvingan med Guds Foolke/ eins og Moyses/ helldur en lifa i allskins Sælu med Heimenum/ og fyrerfarast med honum? Hversu betra er þier / ad þu gyrnest ad sediast af Molum þeim / er detta af Bordum hins Rijka hier i Heimenum / en ad þig lange epter einum Vatns" Dropa af Fingre Lazari/ i Helvijte og Kvolunum? Og hvad veistu/ hversu leinge DRotten vill lata þenna þinn Skort vara / Hann er einn stoor Konungur / Ecke er han leingur Rijkann en Fatækan ad giøra. Jacob foor med einn Staf ut af sijns Foodurs Huse / Gen. 32. En hvad miken Fiølda Nauta og Sauda / Geita/ Asna/ Þræla og Am" bætta kom hn heim aptur med. Dæme þessa Foolks ma furdanlegt þykia nu a þessare køllðu og Vantruudu Olld / þeir fylgdu Christo epter a Eydemørku/ til ad heyra Kienningar hans/ jafnvel Heidingiar af Tyro og Sidon/ og eckert tooku þeir med sier ad neyta/ svo sem sia ma af Evangelio: Einhver mun segia/ ad þeir hafe ei buest vid svo længre Dvøl i Mørkene / þo fannst eingenn sem aptursnere/ svo Menn vite/ og ad vijsu voru hier 4000. Mans/ sem neyttu/ þad ma sijnast/ ad DRottens Ord hafe svo vel smackast þm i Hiartanu / ad þr hafe ei funded til Hungursins i Maganum / og valla gietur þad ødruvijse vered/ en ad þeir hafe treyst þvi / ad JEsus munde a einhvern Hatt sia þeim Farborda/ þar til hefur ann Efa hialpad hid fyrra Krapta Verked/ sem en þa hefur øllum i ferskū Minne vered/ En i þvi gietur Johannes ecke um Tijmaleingdena / Hier af kalla eg þad satt / er David seger/ Ps. 32. Augu DRottens lijta til þra sem han elska og vona a hns Giæsku/ og þo finnast þeir/ æ þvi verr/ a medal Christenna Manna / sem vidlijkt eru lynder og Nøfuds-Madurenn i Samaria / er

S sagde:

ſagde: Þo ad DRottenn giøre Glugga a Himenenn/ Þa kann þetta ecke ad ſkie/ 2. Reg. 7. Afiars mundu Menn bijda epter DRottne / enn ecke hlaupa til ad Ræna / Stela / Liuga / Svijkia / Hripſa Braudeð ut af Naungans Muñe / og bruka adſkilianlega Rangſleitne i Kaupum og Sølum / og aðarre Vidhøndlan. MJG AUMkar Yfer FOLKeð / ſeger DRottenn : ÞVi J ÞRia DAga HAfa ÞEir HJa MJer VERed/ Og Ecke TJl MATar HAft. Margur faſtar ſkemur / aadur hann verdur Opoleñmoodur. MJg AUMkar YFer FOLKeð / ſeger hiñ Eilijfa Giæſka / hañs Myſkunar Ydur komuſt vid i hønum / ſvo ſem i Høfud-Sprokenu ſtendur / ſvo hann hlaut þm Naudugur ad vera: Þad ſeger ecke hier/ ad þr hafe kvartad um Hungur/ hann viſſe vel/ad þr høfdu þeſſa Þorf: Enn ſeged mier nu / Børn mijn / Munu Ydur hañs Myſkunar umbreytt vera ? Mun hin rijka Orlætis Hønd ſtutt vordeñ? Fiærre ſie þvi/ſamt er Gud og hann hefur vered/ Enn ef vier vilium ſømu Medaumkunar niooka/ þa lærum Tvent hier af: Eitt af Foolkenu/ Añad af Lauſnaronū. Af Folkenu/ ad heyra Guds Ord liuflega / meta þad øllu Tijmaſelegu framar/og ad treyſta Gude/ og þacka hønum midt i Skortenum og Orbyrgdeñe. Af Frelſaranum/ad ſiaa Aumur a hinum Volada og Naudþurftuga / Ad brioota Hungrudū vort Braud/Ecke af Fordillo / edur ad utvega oſſ Nafn þar med / ſvo ſem Hræſnarar þeir ed giøra Olmuſur ſijnar fyrer Møñum/ helldur af Truñe/ af Chriſtelegre Medaumkan / af Elſkuñe til Guds og Naungans. Breyte nu nockur þañveg/ad hñ heyrer Guds Ord/og vardveiter þad/ treyſter Gude i øllum ſijnū Vandrædum/ og leitar Næringar ſiñar i Guds Otta / þa vil eg þad ſegia / ad fyrr munu Einglarner færa hønum Braud af Himnum ofan/fyrr munu Hrafnarner bera hønū Fædſlu/ fyrr munu Steinar ad Braudū verda/ og Fiſkarner flytia hønū Gull og Silfur i Muñenum / jaa/ Chriſtur man fyrr afneita ſialfum ſier/ hvad Paulus kallar Omøgulegt / helldur enn ad hann læte Saal hiñs Riettlaata Hungur þola / Prov. 10. Nema hann vilie reyna hann þar

med/

med/og sære hønum þad fyrer einhveriu Goodu verda. Min Matur og Dryckur er/ ad giøra hans Vilia/ er mig sende/ sagde Frelsarenn/ Joh. 4. Enn ef þad er hans Vilie / ad þu lijder umm Nrijd Skort a Næringu þinne/ þa vert eins lyndur og þinn Lausnare var/ og ætla þig ecke yfergiefenn/ þoott þu meger ad Guds Vilia nockud Jllt lijda / er vier svo køllum/ Enn þad er alldrei Jllt/ sem Gott af sier gefur. Ecke verda Viijn-Berenn samanlesenn af Þyrnunum edur Fijkiurnar af Þistlunum/ Luc. 6. Giært ad Dæmum Heilagra. Hversu særlega klagar Job i sijnum Mann-Raunum/ er hann seger/ Job. 30. Þu ert vordenn hardudigur a moote mier/ epter Styrkleika Handar þinnar brukar þu grimmt Natur i gegn mier. Munde Gud þar fyrer hafa yfergefed hann? Stærre var þvi/ hinn Fertugaste og Fyrste Capitule sømu Bookar hann ber þar umm liooslast Vitne/og siælfur Guds Madur jatar Veikleika sinn og Fævitsku i þvi/ad þeckia Guds Raad/nær hann Endurvitkadest/ og kom til siælfs sijns aptur/med þessum Ordum/ Job. 42. Eg Auglijse ad eg skilda þad ecke/þad var furdanlega hætt fyrer ofann mig/svo eg gat ecke þeckt þad/þvi ydrar mig i Molld og Ösku. Eins var David lyndur/þvi seger hann/ Ps. 77. Mun DRottenn þa Eilijflega burtkasta/og einga Naad framar audsyna? Enn nockru þar epter vegsamar hann Gud med Fagnade/segiande: Ps. 103. Hann hefur frelsad mitt Lijf ut af Fordiørfuneñe / og mig med Naad og Myskunsemie Coronad/Þvi skyllde eingenn ørvænta umm Guds Vinættu/þoott ei leike allt i Lynde/ þar vier siaum hier/ ad hans bestu Viner hafa mætt þvilijkt reyna. Edur meined þier/Christner Menn/ad Faderenn hafe minna elskad sinn Son/þegar hann hroopade a Krossenum: Gud minn/ Gud minn/þvi hefur þu yfergiefed mig? helldur enn þegar Christur stood a Jordanar Bockum/og Røddenn af Himne sagde: Þesse er minn Elskulegur Son ur i hverium mier Velþocknast/ Matth. 3. Nei/Brædur minner/þa hafde hann i hønum hvad mesta Velþocknan sijna / er hann a Gælganum hieck/þvi fyrer hans Dauda erum vier vid Gud forlijkter/seger Paulus/Rom. 5. Fyrer hans særu Kvøl og bitrann Dauda hefur hann elskad

oss i sijnum Elskulega / Eph. 1. Gud hafde Velþocknan a sijnum
Syne fra Upphafe Vega sina/ og i øllum Christo fra hinu fyrsta.
Augnablike Getnadarens fyrer Einingu Guddooms og Mañdooms.
Eñ fyrer Christi Dauda a øllum þeim sem a hñs Nafn trua/hver-
ium hañ hefur og Magt giefed Guds Børnum ad verda/ seger Joh.
Cap. 1. Og fyrst hañ hefur nu þañveg yfergiefed hañ um Stundar-
saker/Eñ sijdañ aptur med Dyrd og Heidre Coronad/ Vilied þier þa
læra ydur þad undra/þoott hañ breyte med sama Hætte vid ydur/sem
i hønum/og fyrer hañ erud Arfleidder til eilijfs Lijfs ? Nei/Christner
Meñ/ecke þoott ad Mootlæted og Skortureñ ætte ad vara alla Æfe
vora; Þvi hun er svo lijted ad reikna hia Eilijfdeñe/og þad vær lijdum
hier ad Guds Vilia/þad verdur oss Endurgollded med Omælanlegrar
Dyrdar eilijfre Þijngd / 2. Cor. 4. Mootlætingar þessarra Tijma
eru ei verdar þeirrar Vegsemdar / sem vid oss mun framkoma i eilijfu
Lijfe. Þad er vijst / ad hiñ Naaduge Gud speñer alldrei sijn Børn
fyrer sijns Sonar Ok/nema til þess/ad þau drage þ a þa Leid/sm til
Himnarijkes liggur/ þess meiga og øll hans Børn fullørugg vera/ ad
añadhvert burttekur hañ Mootlæted/ edur linar þvi / edur giefur oss
Krapta til ad bera þad/þvi hñ er Trur og freistar einkis yfer Megn
fram/ 1.Cor.10. Seged mier/Er hañ þa Amæles verdur fyrer þad/
ad hañ snijr eilijfre Fyrerdæmingu i Tijmanlegañ Krossburd / til ad
afreka oss Eilijfa Glede ? Eiñ Fader sender Son siñ i eitt framande
Land/Ein Mooder lætur Barn sitt i Skoola/til ad lijda Illt/svo þad
verde ad Mañe/ Munu þau þar fyrer hafa gleymt þm ? Kañ nockud
Moodureñ ad gleyma Barne sijnu/ Avexte sijns Kvidar ? Og þo þær
gleyme / þa skal eg samt þier ecke gleyma / seger Afgruñ Miskunar-
eñar/ hia Esajam. Cap. 49. Gull-Smidureñ kastar Mælmenum i
Elldeñ/ so hañ hreinsadur verde/ og giører þar af sijdañ hinar kostu-
legustu Gersemar/Svo breyter Gud vid sijn Børn/hñ siiur og bræder/
og Sylfred hreinsar/og hrein giører Børn Levi/ Mal. 3. Þad er hitt
Andlega Kieñemañskap/ so ad Reynsla Truar vorrar miklu dijrmæt-
are

are fundeñ verde Gullsens Reynslu/ hvert ed forgeingur/ og verdur þo med Elldenũ reynt/til Lofs og Dyrdar ♯ Heidurs/nær JEsus Christ us Openberast/ 1. Pet. 1. þetta er nu svo kalad til Huggunar þeim/ er lijda Skort á Atvinnu sine / og meina sig þar fyrer vera af Gude yfergiefna/ vegna Synda sina og Overdugleika. Eñ þar eru nockrer/sem ecke eru annægder þar med/ad þeir hafa þad þeir skulu eta og drecka/og ♯ ad þeir meiga klædast med/hvad þo Paulus bydur Christnum Mañe ad hañ skule láta sier nægia/ 1. Tim. 6. Vid þessa vil eg fátt eitt kalad hafa. Þad er satt sem hiñ Vijse Syrach skrifar i 11. Cap. Ad Audlegd og Fátækt koma af DRottne / Ef þau koma af Gude/hver vill þa segia vid hñ/hvad gierer þu? Seger nockud Leyr-Kiered til Smidsens/þvi giørder þu mig svo? Rom. 9. Vill nockur efast um Vilsku hañs/ad hañ ei skynie/hvad hañs Børnũ er hagleg ast/edur klaga yfer hñs Riettsyne/þad hañ giøre einũ Orett? Visse Gud þad/ad þier gagnade Rijkdomurest befur eñ Fátækteñ/ þa munde hañ þig audugañ giørt hafa/ rañsaka Skap þitt/ hvert þu munder hæfare vera til Guds Rijkis / þoott þu hefder meira eñ Daglegt Braud / Gud giørde vel / ad hañ gaf ecke Ægum Vxa Horn / seger i Ordshættenum / margur munde bruka Audeñ til Ofmetnadar / Ofrijkis / Ohoofs / til ad hefna sijn / og briota adra under sig / ef hañ rijkur være/sem ad lætur hægt/af þvi hañ er fátækur. Eñ þoott ad Gud giefe Audeñ vondum Møñum á stundum / hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu Christo epter/hver þoott hñ rijkur være/giørdest hñ fátækur / 2. Cor. 8. Villtu vinna þad til Audsins / ad vera svo sem eiñ af þeim? Visse Gud ad þier Audur gagnade / sege eg eñ aptur / munde hñ ecke giefa þier hañ? sem hefur giefed þier þ sem er lãngtũ betra. Eiñ Nadugur Gud/ good Samvitska/ heilvita Sal/ Otte DRottens med þvi Hugarfare/sem lætur sier sijna Luckũ nægia/er þ ecke noogu stoor Audlegd? Adrer Ottast fyrer þvi/ad þeir kuñe ad missa Fiar-Hlute sijna / eñ kyñe nockur þessar Guds Gáfur af mier ad taka/ þa villda eg fyrst grata / þa villda eg bera mig hørmulega/

Þvi a medañ eg þad hefe / þa hefe eg allt / og nær eg misse þad / þa misse eg allt/ jafnvel i Allsnæglum/ þvi seger David/ Ps. 34. Hina Rijku brast/og þr sullu/ eñ þa sē ad DRottne leita/mun eckert gott vanta. Láte Gud mig ecke eta hvern Dag skijnande Kræser/ þa er eg þo Osollteñ/ eg une betur vid Daglega Fædu/ helldur eñ Sælkieriñ vid hñs Utvølldu Riette: Skortureñ giører miet a stundū Mateñ sætañ/ eg þarf ecke ad kaupa hñ dijrt/ Eñ Fylleñ giører hønum þad leidt / sem hañ kostade til dijrum Doonium. Vefie Gud mig ecke i Pelle og Purpura / þa er mier eins heitt i mine Klæda-Vod/ svo sem hønū i sijnu Skarlate: Fátækteñ hefur stoor Fyrerheit i Guds Orde/ Er sa ecke noogu rijkur/ sē hefur Gud fyrer Fiarhallds Mañ? Eñ hvad seger David/ Psalm. 9. Hañ er Forsvar hiña Fátæku / Forsvar i Neydeñe/ hañ gleymer ecke Hroope hins Fátæka. Hvad seger hñ eñ þa aptur? Hañ mun frelsa hiñ Fátæka nær hñ kallar/ og hiñ Auma / þañ er eingañ Hiálpar Mañ hefur / Ps. 72. Og svo seger sialfur DRotteñ/ Psalm. 132. Eg vil blessa Fædslu þra/ og þeirra Fátækum ánægianlegt Braud giefa. Gud giæfe ad Meñ villdu skilia/hvad mikill Skattur ad er ein Ærleg Fátækt/ þm̄ sem una vel vid þañ Kost/ er DRotteñ lætur þm̄ hlotnast/ hun varnar vid mørgū Syndū/Drambseme/Ohoofe/Sialfhælne/Reide/Ofrijke/og sialfre Agyrndeñe/þvi alldrei verdur hiñ Rijke saddur/sa ed fest hefur Hiarta sitt vid Audeñ/vid Busorg z Ahyggiu/sē draga Mañeñ fra Gude i Snorur Diøfulsins/ z þyngia Hiarta hñs mz Ottanū ad missa Eigz sijn"/ þvi sa griet alldrei þ Gull/ sē ecke átte þ/hun giører Reikningskapeñ audvelldare fyrer hinū Ædsta og stranga Doomara/ þvi jafnvel þoott ad øllum verde hañ noogu torvelldur/ þa ecke þeim þo sijdst/ sem hafa gleymt Gude og Naunganum i Velmagt siñe/eñ sett Gull-Hnøtteñ fyrer sitt Athvarf. O þu eilijfe Gud/ Dijrdareñar Konungur/ hiálpa oss a þre straungu Tijd / lát oss ei þyngia Hiarta vort med Sorgum þessarar Næringar/metta oss mz þm̄ Molū/er detta af þijnu Náborde/ Dryckia oss mz Sætleik epterkomande Alldar/ svo ad ei vanmegnumst

vier

vier a Veigenum til Fødurlandsens/ og nær vier erum ad þrotū kom-
ner/og tekū hin sijdustu Andvarp/ þa dreip þu a vora Ormæddu
Saal med þvi Vatnenu/ epter hvert eingañ mun þyrsta ad
Eilijfu. Vænheyr þad/ Nædige Fader/ fyrer Lausnar-
ans JEsu Christi Skulld/ AMEN.

# Attunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspiallед / Matth. 7. Cap.

A Þañ Tijma. JEsus sagde til sijña Lærefveina: Vakt-
ed ydur fyrer Fals Spaamønñ/sem koma til ydar i Sauda-
Klædum/eñ hid iñra eru þeir glepsande Vargar. Af
þeirra Avøxtum meiged þier þeckia þa. Verda nockud
Vijnberen samanlesen af Þyrnunum/ eda Fijkiurnar af Þystlunum?
So ber og hvørt gott Trie goodañ Avøxt/eñ hvørt roted Trie vond-
añ Avøxt. Gott Trie giefur ecke fært vondañ Avøxt/og ei helldur
giefur roted Trie fært goodañ Avøxt. Og hvørt þad Trie sem ecke
giører goodañ Avøxt/skal upphøggvast og i Elld kastast. Þar fyr-
er meiged þier ut af þeirra Avøxtum þeckia þa. Þeir munu ei aller
sem til mijn seigia/ DRotten/ DRotteñ/iñganga i Guds Rijke/helld-
ur þeir sem giøra Vilia mijns Fødurs/ þess a Himnum er. Marger
munu til mijn seigia a þeim Deige / HErra / HErra / høfum vier
ecke spaad i þijnu Nafne / høfum vier ecke i þijnu Nafne Diøfla ut-
reked/ og giordū i þijnu Nafne mørg Kraptaverk? Og eg mun þa jata
þeim/ad alldrei þeckta eg ydur/ Fared fra mier aller Illgiørda Meñ.

## Exordium.

SPaamadur nefnest i H. Ritningu / ecke einasta sa / sem ad
Ovordna Hlute fyrer seger/helldur og sierhver eirn/sa ed kieñ-
er rietkañ Lærdoom: Svo sagde Gud vid Abimelech um A-
braham/Hañ skal bidia fyrer þier/ þvi hañ er Spaamadur/
Gen. 20. Sa er spaaer/ hañ talar fyrer Møñunum til Vppbygging-
ar/ til Aminningar og Huggunar/ seger Paulus/ 1. Cor. 14. Þeirra

Apar

Apar voru Fals-Spamenerner/hveria Frelsaren byður ad Men var-ast skule hier i Guðspiallenu/þvi þeir kome i Sauda-Klædum/ en hid inra sieu þeir glepsande Vargar/ og er eingen Efe a þvi/ ad Skrift-lærder og Pharisæi hafa ad nocku Leite att Sneid þessa/ en þo ecke ad ollu/ þvi ecke voru þeir af Christi Sauda-Huse/ helldur meinar og DRottenn hier med þa/er sijdar uppkomu/og spilltu Kyrkiunne Guds i Christendoomenum/ þa nefner Paulus falska Brædur. 2. Cor. 11. og til Galat: Cap. 2. talar hann um heimuglega innsmogna falska Bræd-ur/ sem ad villdu reyna Frelse þad / er þeir Truudu hofdu i JEsu Christo/ svo ad þeir hneptu þa i þræl doom. Svoddan Illgrese saade Fiandmadurenn nidur mzal Hveitesins i Christi Akre fram epter Olld-unum/ svo sem af Christendooms Sogunum lioost er/ og sæer enn nu vijda i Heimenum/en þar fyrer sæum vier alldrei Gude fullþackad/ad vier vitum ecke af slijku ad segia. Eingenn er sa/ed leitest vid ad spilla riettre Tru i Lande voru/ þad er stoor Velgiorningur DRottens/ ad hann hefur unnt oss ad verka Saaluhiælp vora i Einfalldleika vors Hiar-ta/þvi vil eg ecke hier um framar tala i þetta Sinn/ helldur taka mier fyrer Hendur/ad utskijra þa Grein af Evangelio/sem ollum ætte hug-fost ad vera/ sem er þesse: ÞEir MUnu Ecke ALLer/ Sem Til Mijn SEGia/ HErra/ HErra/ Inngangu I GUds Rijke/ helld-ur þEir/ Sem GIora VILia MIns FOdur / þess a HIMnum Er; Og af henne tvennt Hugleida. 1. Hvad þad merke ad kalla HErra/HErra. 2. Hvad þad sie ad giora Guds Vilia.

Styrk oss hier til/minn Gud þ JEsum Christum/med Naad H. Anda.

## Utleggingenn.

ÞAD er mæiætt / sem ad Bernhardus Lærefader seger i einum Stad. Christner hafa af Christo Nafn feinged: þad være mikils verdt/ad svo sem þeir eru Erfingiar Nafnsins/svo være þeir og Heilagleikans. Eingenn Nafn-Boot er fegre/eingenn stærre/ enn ad heita Christenn/ef nockur ber hana riettelega. Christenn og Hei-lagur var sama Nafn/ a medan Christendoomurenn var enn þa i Bloo-

ma

ma skijñ/ Heilsed ollū Heilogū/ seger Paulus/ þad er ollum Christnū/ Eñ ef eingeñ Reinka fylger þessu vegléga Nafne / þa er sa ecke heilagre sem þad ber / helldur eñ Vtjned edur Vidsmiøred / edur einhver Matur vard heilagur af þvi i gamla Testamentenu/ þott ad einhver snerte þad/ sa ed bar helgad Kiøt i Kiool-Lafe sijnu/ Hagg. 2. Sa sem ecke hefur Christi Anda/ seger Paulus/ hañ er ecke hañs/ Rom. 8. Hver ed prijder sig med hinu fagra Christeñdooms Nafne / eñ lifer þo ecke Christelegu Lijferne/ hañ er lijkur Fijk þeirre/ er hefur græn Blød og frijd/ eñ Avexte einga/ þvi seger Lausnareñ i Gudspiallenu: Af þEirra AVøxtum SKulud þJer þEckia þa. Og svo sem DRotteñ formællte Trienu þvi / er eingar voru Fijkiur a/ og ecke nema Blødeñ toom/ Matth. 21. Svo vill hñ og til hiña segia/ er Raang læted æfa/ a hinum efsta Dege/ Alldrei peckta eg ydur/ svo sem hier stendur i Gudspiallenu. þEir Munu Ecke ALLer Sem Til Mijn SEGia/ HErra/ HErra/ Jñgaanga i GVds Rijke/ seger DRotteñ. þegar ad Ritningeñ kvijtekur eitt Ord / þa vill hun laata skiliast Eitthvert Merkelegt þar med/ þeir segia/ HErra/ HErra/ Svo eru þeir ækafer i hiñe utvortis þioonustu. Ecke vantade Gud nie hañs Christ fagra Titla hia Gydingum/ þeir nefndu Fødur hñs siñ Gud/ eñ þecktu hñ þo ecke/ þeir kølludu DRotteñ Rabbi edur Meistara siñ/ eñ sootktu þo epter ad Lijflaata hñ/ þeir tijdkudu laangar Bæner i Samkundunum/ og a Gatnamootum/ eñ under Hilmingu þeirra utsugu þeir Hus Eckna og Fødurlausra/ Matth. 23. þad verdur valla med Ordum sagt / hversu ad Hræsneñ gioerer alla Guds þioonkan Onyta i hñs Auglite/ þeir føstudu tvisvar i Viku/ og gaafu Tijunder af ollu þvi þeir aattu/ eñ lietu þad þo Ogiørt/ sm þyngra var i Løgmaalenu/ Doomeñ/ Mijskunseme og Truna/ Matth. 23. þad olle þvi/ ad svo sm þeir afmyndudu Asiaaner sijnar/ nær þeir føstudu/ til þess/ ad laata sia / ad þeir være Fastande / Svo afmyndade Hræsneñ þeirra bestu Verk fyrer Gude / svo ad Frelsareñ seger / ad þeir hafe sijn Laun i burtu teked/ Matth. 6. þad er/ ad þeir Hluter/ er i sialfum sier goode

er voru / og høfdu Fyrerheit goodra Launa hiá Gude / ef þeir af Trunne giørdet væru/þeir skylldu til eingra Launa vinna Nræsnenar og Yferdrepskaparens vegna/miklu helldur abla þeim Dooms Afellis/er vanvyrda þannveg hinn alskigna Gud / med koomre ufvorfis Negdan og Lææde / Svo sem Von er a / Hvtad øll Nræsne er Lyge / En Gud er sialfur Sannleikuren / kan hønum þvi eckert svo gagnstædt ad vera/Edur hvad seger DRotten umm þessa Nræsnara/Matth. 23. Þar fyrer munud þier fa þess þyngre Fordæmingu. Nu høfum vier heyrt Dooren yfer Gydingum / Christner Menn/af alls Hollds Doomara/En ef þvilijkt og skillde finnast a medal vor/mun vor Doom ur lrekkare verda enn þra ? Fiærre sie þvi / ef Gud þyrmde ecke hinum Nattturlegu Kvistunum/ mun hann þa oss þyrma / Rom. 11. Ef vier uppfyllum þra Mælingꝰ Eingenn er Von a þvi/hvad giøra þeir þa/ed ganga i Guds Hus/ og heyra hans Ord/ forsooma valla nockra Predikun/og hafa þad i Munne/og tala umm hans Vegu/allt þetta er gott i sialfu sier/ En hvar eru nu Avexterner/þegar þeirra leitad verdur/ hiá allmørgum ? Þegar hinn Volade Naud lijdur / byrgia Menn sitt Andlit fyrer hønum/þegar Menn siá eitthvad gyrnelegt/hætta sumer ecke fyrr enn þeir hafa svælt þad under sig/þegar einhver liooft ar upp Ohroodre umm Naungann/þa taka Menn i þann Streingenn/sie nockrum af Yferbodurunum/ edur Forelldrunum eitthvad boded/hversu møglunarsamer/ Hversu treger eru Menn i ad hlijda þvi / Hvad koomlæt er eru Forelldrarner sumer hverier i þvi/ad færa Børnenn til JEsum? Til Kyrkiunnar koma þau ad sønnu/þar i er ei svo mikill Brestur/En hversu sumum sie umgiefed / ad brijna fyrer þeim þad er þau heyrdu i Kyrkiunne/ þar ber Raun Vitne umm/ nær þau eiga ad giøra Grein a sijnum Christendoome/Offande være/ad ei finnust þær valla hafa nockud annad fyrer þeim / enn skammarleg Ord og fijblslegt Nial / sem sialfer þeir eru vaner til. Eingillenn sagde vid Abraham / er hann ætlade ad Offra Syne sijnum/ hallt þinne Hende fra Sveinenum/þvi nu veit eg ad þu Ottast Gud/ ad þu þyrmder ecke þijnum eigenn Syne/

En

En Andskotenn giefur og sagt vid marga hveria/sem ecke þyrma Afkvæme synu vid eilyfum Pyslum / helldur láta pad uppalast i hans Skoola/ Nu sie eg ad þu elskar mig/þar eg sie ad þu svo uppelur Son þinn / ad hann giefe orded einhvern Tyma myn Foorn / hallt þvi ecke Hendenne fra Sveinenum/þar til hann verdur fullur og feitur/og hæfur til ad Offra. Menn blessa Gud og lœtast lofa hann og dyrka / enn giøra þo ecke þad hann boded hefur/ enn Andskotanum formæla Menn/ og akyrda hann/ enn giøra þo hans Verk/er ecke þetta ad segia/Herra/ Herra / enn giøra þo ecke Fødursins Vilia ? Er þad ecke ad kalla Gud sinn Fødur / enn ræna hann þo Heidre synum ? Menn gannga til Heilags Alltaresins Sacramentis þrisvar / Fioorumsinnum a Are hveriu / þar æklumst vier til / ad forlyka oss vid Gud / og taka Sœtt af hønum fyrer Afbrot vor/og bioodum hønum i Sekkena Guds Sonar Dauda/og hans Forþienustu/enn þess er vel ad giæta/ ad Menn take ecke þanngad med sier Gieste þa / er hann ecke mœ eiga Sessmed/allra syst Natur til Naaungans/enn ad þad hende þa suma/er audsied af þvi Hatre og Ulfbud/ er tydkast Manna a medal a stundū/ecke Laungu epter þad Menn hafa minnst vid Christ/Er ecke slykt ad kalla/ HErra/HErra/enn gleyma hans Bode/ er hann sagde him Marcum: Cap. 11. Þegar þier standed buner til ad bidiast fyrer / þa tilgiefed/ ef þier hafed nockud a moote einhveriū/svo ad ydar Fader/sm̄ a Himnumer/forlœte ydur ydar Misgiørder / Er þad ecke/ sege eg/ad bidia um̄ Frid med reiddu Sverde ? Er þ ecke ad sydurstu/ad segia/Heill vertu Rabbi/ enn hafa Bak vid sig Sverd og Stænger ? Mun þad nu noog/ Christiner Menn/ ad kalla/ HErra / HErra/ þad er/ ad lœtast Gude þiena / enn fremia þo allt þetta Vondskunnar Athæfe / þar eru eingenn Ber a þessum Vyn-Vide/ eingar Fykiur a þessu Fykiu-Trie/ jafnvel sialf Bloden eru nidurdottenn / allt hvad eg legg vid þau / er Forgiefens/seger DRottenn/Jer.8. Hvad mørg Ar hefur þu komed/ DRottenn minn/ og leitad Avaxtar af oss/ og eingann funded ? Hversu krøpkuglega hefur Sonur þinn fyrer oss beded / ad vier mættum enn þa

eitt Ar standa : Fyrer hañs Arnan er þad sked / ad vier ecke med øllu erum upprætter : Þar fyrer / Christner Meñ / kaked Vara a ydar Vit lunar Tyma / Giøred Ydran medañ Guds Ryke er nælægt / Oxeñ er sett til Rootar Triañ a / hvert þad Trie sm̄ ecke ber Avøxt / þad skal upphøggvast / og i Elld kastast / Matth. 3. Byddum ecke epter Jerusalems Ygningu / um̄ hverra Gud sagde vid Spámañeñ / Þu skallt ecke bidia fyrer þessu Foolke / og ecke upphefia Rauft edur Bæn / edur forþydda fyrer þa / þvi eg munde einganveges Bænheyra þig / Jer. 7. Med mikille Alvøru og Gaumgæfne byriar Mañe ad rañsaka sialfañ sig / hvert ad hañ hefur Vitnisburd Heilags Anda / ad hñ sie Guds Barn / edur ad hñ leidest af falskre Jñbirlingu / um̄ Arfa-Riett Guds Barna / hvad margañ hendt hefur / sem Gud Nade / og er þad audsært / ecke einasta af Dæme Phariseaña / og hiña Skrifftardu / um̄ hverra sialfur Frelsareñ vitnar / hvad starkager þeir vered hafe Guds Ryke / helldur margra añarra / sem ad eckert efast um̄ Guds Nad / eñ lifa þo hverge nærre svo sem Christnum ber / jafnvel þott ad ei sieu þeir versstu Klæktum hladner / hverium eckert er betra Rad / eñ þad sem Paulus giefur / er hañ seger / 2. Cor. 13. Reyned hvert þier erud i Truñe / hvad er giefur med betra Moote skied / helldureñ ef vier rañsokum vora Lyfernis Haattu / Þvi Trueñ er alldrei Avaxtarlaus / helldur verkar hun fyrer Kiærleikañ / allar Christelegar Dygder hefur hun i sier fooignar / hvar um̄ eg vil nockud framar tala i sydare Greineñe / eñ læta um̄ hid fyrra uttalad ad svo støddu.

St. Petur sagde / ad hia Gude være ecke Mañgreinar Alit / helldur a øllu Foolke / af sierhvørre Piood / sem giører hñs Vilia / hefde hñ Velþocknan / Act. 10. Nu er þad Omøgulegt Syndugu Holldе / ad giøra Guds Vilia ad fullu / þvi þad er hid sama og ad uppfylla Løgmaaled / eñ þad er oss um̄ Megn / sm̄ ad i Syndeñe erum gietner / hverrar Spilling ad Daglega birtist sig ut um̄ þeña Daudlega Lykama / svo ad þegar vier viliu̅m giøra hid Gooda / þa loder hid Vonda vid oss / þad jatar Paulus um̄ sig / Rom. 7. Med mikille Harmaklogun / og

mun

är ſie ſa ed ecke helldur allt þad i Logmaalenu rifad ſtendur/ Deut.27.
Þar er ein Svipa jafnvel i Evangelio/er ſlær med þſſu Hogge/giored
Ydran/þvi Guds Rijke er nælægt/ hvert þad Trie ſm̃ ecke ber goodan
Avöxt/ſkal upphøggvaſt z i Elld kaſtaſt/Matth.3. Þar er hin ſkarpa
Svipa hñs Hegningar/ſem er tilbueñ þeim ed eria a Hrigg hins Ve-
ſæla og Naudſtadda/og eta Ræninglæleſins Braud i hañs Sveita. Eg
ſege eñ þa apkur/DRottẽn rak ut ur Muſterenu þa er ſelldu z keiptu =
Þad vär Skundlegt Bandlæte/margar af þm̃ ſomu mun ſijdañ hafa
a hñ truad ſier til Myſkunar / eñ ad vera utrekeñ ur þeirre Himneſku
Jeruſalem/ þad er eitt Straff ollu þijngra / þad er eilijft Sman/ og
Obætanlegur Skade/Fra hveriū oſſ og alla Chriſtna Meñ vardvelte
hiñ goode Gud fyrer Sonarens Forþienuſtu/og giefe oſſ ſvo ad rækia
þetta Jardneſka/ad vier ecke afrækiū þad Himneſka/helldur ſtundum
epter hinu gooda Hlutſkiptenu/ ſem eingeñ ma af oſſ taka/Þeſſ
giefe oſſ niootande ad verda hiñ Myſkunſame Gud/ Fyr-
er JEſum Chriſtum / A M E N.

## Ellefta Suñudag epter Trinitatis.

### Gudſpialled/ Luc. 18. Cap.

Þeim Døgum. JEſus ſagde til nockra þeirra ſm̃ treyſtu
uppa ſialfa ſig/ lijka ſem mundu þeir Riettlæter vera/ og
forſmadu adra/ þeſſa Epterlijking. Tveir Meñ geingu
upp i Muſtered ad biðiaſt fyrer/ Eirn vär Phariſæus/ eñ
Añar Tollheimtumadur. Phariſæareñ ſtood og badſt nu þañeñ fyr-
er med ſialfum ſier. Gud/ eg þacka þier/ þad eg em eige ſo ſem ad-
rer Meñ/Ræningiar/Orietlvijſſer/Hoordooms Meñ/ eda ſo ſem þeſſe
Tollheimtumadur/ Eg faſta tviſvar i Viku / og eg gief Tijunder af
ollu þvi eg a. Og Tollheimtumadureñ ſtood langt i burtu fra/og
villde ecke upplijpta ſijnum Augum til Himens/ helldur barde hañ ſier
a Brioſt/og ſagde: Gud/vertu mier Syndugum lijknſamur. Sañ-
lega ſege eg ydur / Þeſſe foor Riettlatur fra mar hinum i ſitt Hus.
Þviad hvor ſa ſem ſig ſialfañ upphefur/hñ ſkal nidurlægiaſt. Og

Hvør sem sig sialfan nidurlæger / han mun upphafen verda.

## Exordium.

EIngen Hlutur er svo vidurstyggelegur i Guds Auglite/ svo sem dramblatt Hiarta/og eingen svo þægur henn/ svo sem audmiukur Ande. Dramblatum hratt han af Stoole/en upphoof Lytelata / seger Guds Mooder i Lofkvædenu / Luc. 1. Gude alleina tilheyrer Tignen/ han hefur sitt Stool a Himnum settan/en Jorden er hns Footskør/ þar situr han uppe/og sier a þ Læga/ Jehova er hans Heite/og sijna Dyrd vill han eingum giefa/ Esa. 42. Allt hvad vyrduglegt er/ hvad gott er/ hvad mægtugt er / hvad prydelegt er/ hvad heilagt er/ þad kiemur allt fra hønum ; en vilie nockur tileinka sialfum sier nockud af þessu/svo sem sialfum sier/þad er/sem villde hn ræna Gud sijnu/þad er riett ad stela helgum Doomum/og þad er Afgudadyrkan/þvi valla veit eg hvert þ er meire Synd i Guds Auglite/ad falla fram fyrer Tre-Stobbanum/ helldur en ad giøra sialfan sig ad Gude / og segia med Pharao : Hvør er Jehova / þad eg skule Otlast hns Exod. 5. Edur med hinn Blindu Judum : Gude skeitum vier ecke/og hvad villde oss Konungurenn giøra ? Men hallda sumer/ad þad hafe vered Svivirding Foreydslunar/sem DRottenn talar um/Matth. 24. ad Bylæte hins Romverska Keysara hafe sett vered inn i Jerusalems Mustere/ En þ er Svivirding Foreydslunar riett kollud/þegar Madurenn setur sitt eiged Bylæte inn i Guds Kyrkiu/sem ætte ad vera hns Hiarta/eins og Phariseus þesse. Svoddan Mane er Glotunnenn buen/ nema han audmyke sig brædlega under vollduga Guds Hønd/ þvi Gud mootstendur Dramblatum / og þarf sa ecke ad vænta sier annars verra/sem hefur Konung Himnanna fyrer Ovin. DRottenn talade Epterlijkingu þessa/seger Lucas/ til nockurra þra/er treystu a sialfa sig/ en forsmædu adra: Svo sem eckert er Vidurstyggelegra i Guds Auglite/en Hofmoodurenn / svo er hønum valla nockurt þægra/ en audmiukur Ande/ þad sijna oss Dæme Ephraims/Dæme Manassis/og ecke sijdst Davids Konungs/ allvijda i hns Psalma Book. Eg jatade

DRottne

DRottne Synd niþna og þa fyrergafstu mier þad/seger hañ/ Ps. 32.
Og eñ aptur/ DRotteñ vardveiter Lÿtilmagnana/ eg audmÿkte mig/
og þa vard eg freisadur: Og þ sÿner oss Dæme Tollheimtumañsins/
hvern Lausnareñ sÿnest framsetia hier i Epterlÿkingune /ollū Sorg-
bitnū Afbrota-Moñū til Huggunar. Vilū vier þvi tvent af Gud-
spiallenu hugleida. 1. Eirn Skynhelgañ Hræsnara. 2. Eirn Yd-
rande Syndara. Styrk oss hier til Drotteñ miñ i Jesu Nafne/ Am.

## Vtleggingeñ.

IÑgangur til þessa Mäls hia Gudspiallamañenum / er þañveg. Eñ Hañ TAlade Til NOckurra / Er TREIstu Vppa SIælfa Sig / Ad þEir VAEru RIEttlæter / Eñ FORsmædu ADra / þEssa EþTerlÿking. An alls Efa eru hier med Phariseær meinter / þar fyrer setur DRotteñ eiñ Phariseañ i Epterlÿkingune/ svo sem Dæme eins Siælfbyrgings/ er ei þyrfte myked af Gude ad þyggia / þess vegna eru þeir i Grein þessare med sÿnum eigeñ Lit afmælader/ þeir villdu vera fraskilder ødrum Moñ-um/ þad sÿner þeirra Nafn/ Pharisæus/ þad merker Adgreindañ edur Fraskileñ. J mørgu var þetta foolged/ sem ecke er Naudsynlegt hier upp ad telia/ eñ þo var þad hellsta/ ad þeir þocktust ødrū Heilagre/ þ dilur ecke þesse þeirra Brooder / er hañ seger: EG þAcka þIer GVd/ Ad Eg Em Ecke EJns Og ADrer MEñ / þvi kolludu þeir Almugañ Jardareñar Foolk/ eñ siælfer þocktust þeir Himneskerer vera/ og Borgarmeñ Heilagra/ svo sem Paulus nefner christna Meñ: Edur hvad var þad þeir søgdu i Rædenū Fordum/ þegar Nicodemus villde hafa mællt Frelsaranum Lidsyrde: Joh. 7. Truer nockur af Høfdingiunum a hañ/ edur af Phariseis? Eñ þetta Foolk/ sem ecke veit Løgmaaled/ þad er bølvad. þeir villdu ecke Samneite eiga med Tollheimtumoñum og Syndurum/ þvi løstudu þeir Frelsarañ/ ad hñ giørde svo/ Matth. 9. Jæ/ þeir meintu ad þeir saurgudust/ er snertu þa. Svo sagde Hræsnareñ Simon Fordum/ þegar hin Bersyndoga sat Grætande vid Fætur DRottens/ Luc. 7. Ef þesse være Spæ-

madur/

madur/ þa munde hañ vita hver og hvilijk ad þesse være/ er hũ snerter/ þvi hun er syndug. Vm̃ þvilijka Drambseme/ þvilijka Skynhelge talar Esajas under svoddañ Mañaperſoonu/ Cap. 65. Kom ecke nærre mier/ og snert mig ecke/ þvi eg em þier Heilagre. O miñ JEsu/ Er ecke þetta ad giøra sig Gude lijkañ/ nærre hverium ekkert saurugt maa koma. Ecke breytter þu svo/ DRotteñ miñ/ þegar þu atst og drackst med Tollheimtumønnũ og Syndugũ i Huse Matthæi/ Matth. 9. Þegar þu giørder hañ jafnvel ad þijnum Læresveine/ þegar þu mælltest ad Fyrrabragde til Dagverdar af Zachæo/ þegar aller Tollheimtumeñ og Bersynduger flycktust ad þier/ til ad heyra þig/ og þu matter lijda Brixl Pharisæañ þ" ꝼ/ Luc. 15. Þu varst Guds Mind/ sem er eitt forkærande Elldur/ Devt. 4. Þo hiellstu þad ei fyrer Ræn/ ad þu Gude Jafn varst/ helldur Lytelæckader sialfañ þig/ tookst a þig Þræls Mynd/ vordeñ Møñum lijkur/ Philipp. 2. TVeir Meñ GEINgu Vpp i MVstered Ad BIDiast FYRer/ EInn VAr PHARIsæus/ Eñ Añar TOLLheimtumadur. Vier vilium fyrst Hugleida Pharisæarans Bæn/ Af þvi hañ þoocktest vera Madureñ meire/ og hvad hañ talde sier til Gyllldes fyrer Gude. HAñ STood Vt Af FYRer Sig: Þess var og øll Von/ ad hañ munde vilia ødrum framsneiddur vera i þessu/ sẽ øllu ødru. Hverneg latst hñ þa fyrer: EG þAcka ÞJer GVD/ Ad Eg Em Ecke E Jns Og Adrer Meñ. Hvillijkur var hañ þa: Ad vysu betre morgum ødrum i Vtvortis Lijfernis Hættum/ Eñ hid Jñra morgum verre i Guds Auglite: Þad sañа eg med Ordum Frelsarans/ Er hañ sagde: Matth. 21. Tollheimtumeñ og Skiækiur munu fyrr Jñganga i Guds Rijke eñ þier/ þvi Johañes kom til ydar med Veg Rietlætesins/ og þier trudud honum ecke/ Eñ Tollheimtumeñ og Skiækiur trudu honum. Þetta er Dagsaña/ þvi Tollheimtumøñunũ sagde Johañes/ Luc. 3. Er þeir komu til hañs Skijrnar: Taked eckert framar eñ þad sem boded er/ Eñ vid Pharisæos sagde hañ: Þier Nødru Kyn/ hver hefur sijnt ydur ad umflya tilkomande Reide? Fyrer þvi/ Giøred

verduga

verduga Avoxtu Ydranenie/ Matth. 3. En þ gierdu færster af þeim/ svo var Hugproofleñ rykur i Gede þeirra. Hvad er nu framar? Hañ segest ecke vera eins og RÆ Ningiar : Ecke talar Frelsareñ uñ eiñ/ helldur eñ añañ i þessu Maale / helldur er eiñ settur til Dæmis fyrer margaf svo sem i hverre añare Epterlijkingu/ Munu þvi aller hafa allt Oskiled Maal af þessum Flocke. Eñ hvad er þad þa/ sm̄ Frelsareñ seiger/ Matth. 23. Ad þeir utsiuge Hus Eckna og Fødurlausra/ under Ylmingu-langra Bæna? Er þ ecke hid versta Raan? Hvad er þ hañ apfur seger : Ad hid Iñra hia þm̄ sie allt fullt af Raane og Ohoofe? Verda maa ad sumer af þm̄ hafe ei vered svo miøg seker i þessu/ eñ fleer af þeim munu hafa skyrst vid ad seigia Naudstøddum Forelldrum/ þ er Corban/ edur Gaafa sm̄ eg kyñe ad hiælpa þier med/ Marc. 7. Eins og ad høñu/ sem eingiñ vill seigia til ef hañ hungrar/ hafe þægare vered Gaafa fra / helldur eñ Hlyðne hañs Boodords/ ad heidra Fødur og Moodur. Hañ seigest ecke vera eins og ORIEFTE-Vijser/ þad kañ ad vera/ Eñ hvørsu Rietkvyser voru þr/ þa er þeir fordæmdu Guds Son aller/ aflyfudu Herkoga Dyrdareñar/ þegar þr grytu Stephanum i Hel / Act. 7. og villdu Paal hafa af Døgum raaded. Ecke segest hañ vera eins og HOORDooms Meñ. Verda maa ad hañ hafe i Verknadenum saklaus vered/ Eñ mun hañ alldrei hafa lited eina Konu til ad gyrnast hana? Matth. 5. Edur hvad var þad/ ad þr skomuduft sijn/ og geingu i burtu/ þegar DRotteñ afleyste Hoorkonuna i Musterenu/ og sagde vid þa : Hver ydar sm̄ er aan Syndar / hañ kaste fyrstur Steine a hana/ Joh. 8. þesse Oflætungur sagdest ecke vera svo sem TOLLheimtumadur þEsse / þad er satt/ þvi mikiu var hañ verre ad Doome sialfs Guds Sonar/ sm̄ sijdar mun sagt verda. Tollheimtumeñ voru hallder hid versta Foolk medal Gydinga/ og ecke munu þeir Raadvander vered hafa/ þvi DRotteñ tekur þa samañ vid Heidingia/ Eñ alldrei var þm̄ uñ þad kient/ ad þeir færu i kryng Land og Sioo / og giørdu eiñ ad Gydinge / eñ sijdañ ad Helvijtis Barne/ ei helldur ad þr bøñudu Møñunum iñ i Himna-

Rijke/Matth. 23. Nu þoott ad allt þad hefde satt vered/ sem Pharisæus þesse kalde til Gilldis sier/ þa var þo eirn Løsturenn/ sem spillte øllum Kostunum/ þad var Drambsemenn og Siaalfhælnenn i Guds Auglite/ Svo hafde hun blindad þenna vesla Mann / ad hun hafde giørt hann ad Ovita/ og lijkann Smaa-Bornunum / hver ed plaga ad ijfa þad i sundur er þeim vænstu þyker / þvi vilium vier nu skoda i hveriu honum mfaatt vered hafe. Hann þoottest vera Løgspakur/ treistande þvi ad hann være Leidtoge Blindra / og Lioos þeim sem i Myrkrunum eru / Tiptunar Madur Faafroodra/ Læremeistare Heimskra/ hafande Form Skynsemennar og Sannleikans i Løgmaalenu/ og kiende svo ødrum/ enn sialfum sier kiende hann ecke / þvi hann vantade þad sem mest aa reid i Underbuninge Riettlætingarennar/ sem var ad þeckia Gud og sialfann sig. Ecke þeckte hann Gud/ þvi audsært er/ ad hann ætlad hefur/ ad hn munde aanægdur vera med hinn ulvorlis Helge/ Føstur og Tijunda giørder/ Enn þad þeckte hann ecke ad Gud rannsakar Hiartad/ Ps. 7. Ecke helldur þad hann hefur allt under Ohlydnenne inneluckt (þad er under þeckingu Syndarennar) svo ad hn Myskunade øllum/ Rom. 11. Og ad hann finnur iafnvel Brest hia Einglum sijnum/ Job. 4. Siaalfann sig þeckte hann ecke/ þvi iafnvel þoott hann være froodur i Ritningunne/ þa hafde hann gleimt þessum Ordskvid Salomonis/ er skrifadur stendur i 21. Capit. Mannenum þyckia sijner Veger riettker/ enn DRottenn vegur Hiartad. Edur þess ed David seger : Ad fyrer Gude sie eingenn Manna Riettlaatur/ aller sieu þeir affallner/ þar sie eingenn ia sem gott giøre/ og ecke einn/ Rom. 3. Mun þesse Hræsnare hafa þoockst vera undanskilenn þessum Davids Doorme : Hann var frauskilenn ødrum Mønnum til ad æfa sig i Løgmaalsens Skilninge/ og þess Utskijringu/ Enn niog svo vard honum aa i þvi / ad hann hlioop yfer þessar Greiner / og adrar miklu fleire i Gamla Testamentesins Bookum/ er Sakfella allann Heimenn fyrer Gude / Rom. 3. Og þar ad Auke forsmaade hann / ia/ hann fordæmde sinn Naunga. EDur Svo Sem þEsse TOLLHEIMTU Madur/ seger Hræsnarenn: HErra Gud/ Hvad munde

hinn

hiñ gamle Pall hafa sagt / hefde hañ þetta heyrt / munde hañ ecke hafa broteſt ut med þessum Ordum / Rom. 2. Meinar þu / O Madur / er dæmer þa er þvilykt giøra / og giører þ þo / ad þu muner Guds Doom um̃flyia / J þvi þu añañ dæmer / þa fordæmer þu sialfañ þig / Hver ert þu sẽm añarlegañ Þioon dæmer / hañ stendur og fellur sijnum Herra ? EG FASTa TVJSvar J VJKu / seger Phariſæus þsse. Ecke hafde Gud boded þad ad fasta: Eiñ Føstudag hafde Gud boded a Aare i Løgmalenu / þad var hiñ Tijunde Dagur hins Siøunda Manadar / þo kuña Meñ ecke ad neita þvi / ad þetta var vel giørt / hefde þad fram̃komed af Truñe / þvi Fastañ er Gude kiær / og mã miked hiã hønum / Þvi sagde Frelsareñ: Þetta Diofla Kyn verdur ecke utreked / nema med Føstu og Bænahallde / og hiã Zachariam / Cap. 8. Er geted um̃ Føstu a hinum Fioorda / a hinum Fimta / Siøunda og Tijunda Manade / sẽm DROtteñ spaer ad skule umbreytast i Gladværdar Haatijder / eñ þo bijdur hañ þar jafnframt / ad þeir skule Sañleikañ og Frideñ elska / Þvi seger hañ hiã Esajam / Cap. 58. Hver ad sie su Fastañ sem hañ utvelur / sem er / ad Meñ uthlute hinum Hungrada Braude sijnu / og leide hina Fatæku / sem utrekner eru / i Hus sitt / ad Meñ klæde hiñ Nakta / þa Meñ siã hañ / og byrge sig ecke fyrer Hollde sijnu: Eñ hvert ad Phariſæi edur þeirra Lykar hafa giørt þessa / þad sijner Vitnisburdur Christi / er hñ seger / ad þr utsiuge Hus Ecknã og Fødurlausra / Matth. 23. Hañ seger: EG GJELd TJVNDer Af Ollu ÞVi Eg A. Ei hafde DROtteñ helldur þetta boded i Løgmalenu / Hañ baud ad giallda Tijunder af Korne / Vijne / og Vidsmiøre / af Nautum / Saudum / og Eplum / Devt. 12. Eñ ecke af ødru þvi ed Ox i Alldengørdum / þetta var þo i sialfu sier vel giørt / ad þeir Tijundudu allt hvad þeir attu / hefdu þr ecke viliad reikna til Skulldar hiã Gude þar fyrer / Eñ þegar fara a betur eñ vel / þa fer verr eñ illa / seger Maltæked / þvi seger Frelsareñ / Matth. 23. Vei ydur Skriftlærdum og Phariſæis / þier Hræsnarar / sem Tijunded myntu / Anis og Cumen / eñ undañfelled þad sem

þyngra er i Logmaalenu/ Truna/ Doomeñ og Myskunsemena/ þetta byriar ad giøra / eñ hitt ecke epter ad skilia / Vakte þeir sig / hverra Gudhrædsla ad er alleina þar i foolgeñ/ ad ganga i Kyrkiu/ ad tala margt um̃ Gud/og hañs Ord/og Christelegar Dygder/eñ under Skyne þessu fremia þeir a moote Sanvitskuñe og Yfirmarlaust marga þa Hlute/sm̃ Gud bañad hefur. Eñ lærū nu af þessū Siælfbyrging/ Christner Meñ/ad þegar vier giørum vort Yfirunar Verk/þa berum oss ecke samañ vid adra/sem oss verre þykia/epter vorum Doome/þvi hver eiñ mun̄ sijna Byrde bera/ seger Postuleñ: Munu nockud añars Glæper þvo mijna af/edur Ranglæte hañs riettlæta mig/þoott eg ecke være svo morgum Lijtum hladeñ? Stærre sie þvi/ og allra sijst ef eg forsmæe hañ hia mier/ þvi Mañkiugur er Gud ad reisa hañ/ þad er eins og ad skoda sig i Ohreinum Speigle/ad vilia sia Mynd sijna Athafna i añara Giørdum/ Guds Ord og hañs Logmaal eru su Skuggsia/er vier eigum ad skoda oss i/ þad er Lioos a vorū Vegū/og Lampe Foota vorra. Þess er og ad giæta/Børn mijn/ad ef þesse Madur var fordæmdur vegna þess/ ad hañ hroosade sier af Goodverkū sijnū/ hvad mun þa um̃ hina verda/sm̃ hroosa sier af Klækiunum/og þyker vænt um̃ þa/ Ef hiñ Riettlaate verdur naumast Saluhoolpeñ/ hvar mun þa hiñ Ogudlege og Syndareñ byrkast/ seger Petur / 1. Pet. 4. Þar eru ecke marger/ sem geta stært sig af miklum Fostum/ og Bindinde/ hiner eru fleire / sem gledia sig i Ofaate og Ofdryckiu sijñe / edur ad nukilla Koste þyker þad lijtel Synd vera / jafnvel þoott Paulus seger/ ad þeir ed slijkt adhafast erfe ecke Guds Rijke / 1. Cor. 6. Ecke ætla eg Meñ þurfe ad hroosa sier miøg af Tijundargiørdum i Lande voru/ længstum helldur er þad forullt sumum Moñum / ad svijkia Gud og hañs Volada/og Kongeñ/svo vel sem Guds og hañs Þienara/med rangre Tijund / Og þykest sa goodu bættur / sem hvad mest u getur undañskoted/ Jafnvel þoott valla sie meire Bolvan vid nockra Synd logd i Guds Logmaale/ eñ vid þessa / Eg vil ei fara mier til Orda hvad margur Dæmre ad hroosar sier af þvi/ ad hañ hafe Fefleft añañ/edur

med

ämed Sigur og honum med raungū Doome/ Laga-Flækium/og følsku Rieckargange/ hvilyker Synpár eru fleire eñ telia mege/um hveria David sijnest talad hafa / er hañ seger / Ps. 52. Hvad stæret þu þig af Illsku þiñe/sem Megtugur ert i Ranglætenu. Ei vil eg helldur margt tala um̄ þa Greinina/ er stæra sig af Lauslæte sijnu/ þad er/ hrosa Synd siñe eins og Sodoma / Esa. 34. Og jafnvel liuga á sig Skømunū til ad vanvirda adra/hafe Phariseañ giørt oll sijn Good-Verk Ogylld med Hræsneñ / þa vite þesser Gudlausu Meñ/ ad þra Fordæming er vijs / nema þeir ydrest af Hiarta/ og ad Ydraneñ verde þeim svo beisk/sem ædur var þeim Syndeñ skemteleg. Þyke nu nockr ur vera sekur i þessu/og vill þad Ofgiørt hafa/hañ lære sañ añ Veg Ydranarennar af Tollheimtumañenū/og gange hañ/ef hañ vill hoolpen verda / Og vil eg svo nockud þar um̄ tala i hiñe sijdare Greineñe.

Þesse Tollheimtumadur gieck i Mustered/svo sem Texteñ vottar/ ecke fyrer Sida Saker / ecke til ad láta skoda sig edur skoda adra / nie ad sijna þar Fordilld sijna i Klædaburde/svo sem kañ ske nockrer giøra medal vor/Ecke er þad alltijd Gude edur Helgeñe til Virdingar giørt/ ad Meñ bua sig hvad mest i Skart a þeim Døgum/ edur til ad mæta oss a þad/ ad vier eigum ad klædast einum nyium Mañe. Hvert var hañs Erende þa ? TIl AD BIDiast FYRer/ seger Texteñ: Ecke eins og Phariseiñ/til ad hrosa sier i Bæneñe/þad sijna oss Ord hañs og Atvik/ sem hier uppteiknud standa: Hañ hefur adgiætt Logmaals Toblurnar/ sem hiengu i Musterenu / og yfervegad þær vorvosse eñ Skriftlærder og Phariseai/sem hiengu i Bookstafnum/og løgdu hañ ut epter eigeñ Þoota sijnum/ þar fyrer Dulldu þeir Logmaaled fyrer Setninga sijna/svo sem DRotteñ seger. Spameñerner voru lesner hvern Sabbatsdag i Musterenu/svo sem Paulus vottar/er hañ flutte Guds Erende til þeirra i Antiochia/ Act. 13. Þar hefur hañ mátt heyra Utskijringa Logmaalsens ad miklu Leite / og er hañ þar af þerlega sied hefur / ad Gud fordæmer Okur/ Ranginde/ Underferle/ Rangsleitne/Gripdeilder/Hardyðge og Myskunarleyse/ og hañ visse

sig i ollu þessu sekañ / þa hefur hønum Ofbooded Stærd Syndaña / og Guds Heyptar Reide / ja / hønum hefur Ognad hvad mørg volud Sæl ad munde hroopa i Himneñ yfer sier/og Ottast ad þeirra Hroop munde inngeinged vera i Eyru DRottens Zebaoth/þesse þunga Byrde hefur a hñs Hiarta leged/ sem er Brunnur allrar Illsku og Ogudlegs Athæfes / Matth. 15. Þvi ber hañ sier a Briost / svo sem villde hañ þad straffad hafa/sem mest hafde tilunned/ og mest klagade sijna eigeñ Bondsku/ med Sløgum og Bite Samvitskuñar: Illa var vared þessum Bersælinge i sialfum sier/Eñ Gud giæfe ad vier sm̃ betre þykiumst/ ad vier/ sege eg/ geingium med sama Hiartalage i Guds Hus/ og sætum under hañs Orda Heyrn eins og hañ / þa mundum vier ecke svo kallder vera i voru Ydrunar Verke / svo sem berlega nu sia ad margur er. HAñ STood LANgt FRa/ seger Textañ: an Efa þess vegna / ad hañ hefur reiknad sig verre eñ adra Meñ / og Overdugañ ad koma nærre þessum heilaga Pharisæo / hañ hefur skolfed af Kvijda vid Guds Reide / er hañ hugleidde siñ Overdugleik / og hañs Løgmals straungu Hootaner / Ecke sijdur eñ Israel þegar ad dunade i Horeb / nær hid sama Løgmal var utgefed / Exod. 19. Hvad giøra þeir þa/sem jafnvel i Guds Huse kieppast epter hinum fremstu Sætum/og utvelia sier þau/eñ þott ei rijde svo miøg a þssu utvortis Hattalage/ þa giætum þess / ad i Kyrkiuñe byrtumst aller vier fyrer Guds Auglite / Þar er sa mestur Maduren / sem minstur er i sijnum Þanka/sa er best bueñ/ sm̃ sundur-rijfur Hiarta sitt med Tollheimtu Mañenum/Eñ eingeñ er svo heilagur/ad ecke skilie hñs Synder mille Guds og hañs/ef hañ vill þær tilreikna/ og hversu eigum vier þa ad audmykia oss under Vollduga Guds Hønd/nær vier Iñgaungũ i hañs Helgedoom / til ad Fridmælast vid hañs Guddoomlegu Hatign / fyrerhverre øll Verølldeñ leikur a Reideskialfe: eñ vier erũ Dupt og Aska/ og hvad meira er / aller svo sem hiñ Ohreine / og jafnvel Riettlæte vort svo sem iudlags Fat/ Svo ad allt Hollded er siukt/ allt Hofuded veikt/ fra Hvirfle/ og allt til Ilia/ Er þar ecke nema Sar/ Kaun/

Beniar

Beniar og Prole/ Og þessa vora Siukdoma hefur Guds Sonur bored/ Þessum Orkumslum hefur hañ a sig hladed / svo ad vier fyrer hañs Beniar Heilbrigder yrdum / Esa. 53. Eñ vier høfum lated oss þad lyted til Hiarta gaanga / Ecke hafa þeir Naglarner er i giegnum groofu hañs Hendur og Fætur / Ecke hafa þeir eñ nu til Fulls Krossfest hiñ gamla Adam i oss / og ecke su Lensañ / er opnade hañs Sijdu / vid Hiarta vort svo mieg snorted / ad vier høfum lated Porteñ vpplopeñ þ Konunge Dijrdareñar/ þegar sa Drottnareñ hefur viliad sijns Mysteris/ miklu helldur hefur opklega vid þvi leged/ ad vier mundum Hertoga Dijrdareñar ad nyiu Krossfesta. Æ miñ Gud/ Æ miñ Frelsare/ Hver af oss er þa svo Heilagur/ svo Fullnoogur sialfum sier/ ad ei skyllde hañ beria sier a Brioost med Tollheimtu-Mañe þessum/ og segia: GUD VERtu MJer SYNDugum LJKNsamur/ og med hinum tapada Syne/ Fader/ Eg hefe syndgast i Himiniñ og fyrer þier? Nu/ þoott ad Vesælingur þesse være svo lytt staddur/ þa orvænter hñ ecke: Ei grijpur hñ til Knijfsens/ eins og Saul til Sverdsens/ Ecke til Snøruñar med Juda/ og ecke ofbiooda hønũ svo mieg Syndernar/ ad hñ ørvænte sier Guds Myskunar: Ad vijsu skamadest hñ sijn ad lyta Augum sijnũ til Himens/ þvi hñ hafde styggt þañ svo Mookþrooanlega/ sem i Himmenũ byr/ eñ þo rædur hñ þaf/ ad leita Lijknar hiaa hønum/ af hvers Giæsku ad øll Jørdeñ full er/ og meinar sig vesælañ Orm ecke fræskileñ vera eins og Phariseiñ ødrum Møñũ. Giør hid sama/ Barn mitt/ nær þier med David ofbiooda Synder þijnar / svo þu hefur ecke Frid i Beinum þijnum fyrer þeim/ þa vit þo þad og treyst þvi/ ad Syndeñ kañ allorei ad vera svo stoor i Illskuñe / ad Gud sie ei meire i Giæskuñe / þad vottar Johañes/ er hñ seger/ 1. Joh. 3. Ef vort Hiarta fordæmer oss/ þa er þo Gud meire Hiarta voru/ z Paulus hefur oss epterlated eina dijrmæta Hugg un/ dijrmætare eñ Verølldeñ er/ þar hañ seger/ Rom. 5. Hvar sem ad Syndeñ yfergnæfer / þar yfergnæfer þo Nadeñ mykiu framar. Christur er Forlijkun fyrer allar Veralldareñar Synder/ þvi man hñ

ecke

ecke og svo vera fyrer þijnar/ nema þu sierf fyrer utañ Verølldena: J hønum hefur Fadereñ alleina Velþocknan. Ef Paulus þorde ad segia vid Philemonem um Onesimum/ hafe hañ þier nockurn Skada giørt/ edur sie þier skylldugur/ þa reikna mier þad til/ Eg Pall hefe skrifad þad med miñe Hende/ eg skal betala. Hvad miklu meire Rett hefur Guds Sonur til ad tala þañig oss til Fridar vid siñ himneska Fødur/ Ja/ vid sialfañ sig/ ad hønum skule tilreiknast sa Skadeñ/ sem vier høfū giørt: Su Skulldeñ er vier luka ættū/ þu miñ Herra/ þu hefur neglt þa Handskriftena a Krosseñ/ sem moote oss var/ Col. 2. Hver vill þa aklaga Guds Utvalda/ þu ert sa sem dæeñ ert/ Rom. 8. Þu hefur eina Kvittan giefed i Umbode allrar Guddomsins Þreñingar/ er svo hlioodar: Hver sem truer a Soneñ/ hañ kiemur ecke til Doomsins/ Joh. 3. Ja/ sendt oss eitt Aflaat med Þienara þijnū Paulo/ skrifad med Guds Fijngre/ sem er Heilagur Ande/ ad eingeñ Fordæming sie hiaa þeim/ sem eru i Christo JEsu/ Rom. 8. Þu hefur betalad þ þu rænter ecke/ Ps. 69. Þvi skyllde þa eiñ Rænsmadur kofsa fyrer þeim Betalning/ sem þu hefur lofed? Þvi mun eg þa mistreysta Gude? Er hañ ecke Trufastur? Kuña hañs Ord ad forganga/ þoott Himen og Jørd forgange? Hønum sie Dijrd og Heidur um Allder/ Amen. Nu hafed þier heyrt af Tollheimtumañenum hiñ rietta Veg Apturhvarfsins fra Vondskuñe/ hver sem hañ geingur/ sa mun med hønū Riettlætur verda. EG SEige YDur/ Ad þesse FOOR REttlætur FRAMar HINum J SJtt Hus/ seger Frelsareñ i Textanum: Hver Ord ecke þañveg skiliast eiga/ svo sem ad Phariseeñ hafe ad sønu Riettlætur heim apfur fared/ eñ Tollheimtumadureñ þo Riettlætare/ helldur var sa Munur Riettlætesins/ ad Phariseus þesse var Riettlætur i sijnū Þanka/ og fyrer Mønñum/ um hvert Riettlæte DRotteñ seger/ Matth. 5. Nema ydar Riettlæte yfergnæfe meir eñ hiña Skriftlærdu og Phariseana/ þa kuñed þier ecke iñ ad ganga i Guds Rijke: Eñ Tollheimtumadureñ/ sem jatade Synder sijnar/ og afneitade sijnum Verdugleik/ eñ beidde um Myskun/

Myskun/hn̄ vard Riettlætur fyrer Gude/med þvi Riettlæte/sm̄ Paul-
us seger/ad sie af Truñe/og þvi var hañ framar Riettlætur/ad hañ
hafde þad Riettlæte/sm̄ fyrer Gude gyllde/eñ hiñ fyrer Moñunum.
HEim APTur i SJtt Hus/ stendur i Textanum: Nockrer meina/
ad hn̄ hafe yfergiefed Tollheimtuna / þar hañ foor ecke til Tollbud-
areñar/helldur heim i sitt Hus: Eñ ecke er þad vijst/ad hn̄ hafe læt-
ed Sysslan sijna/þess var og ecke Þorf/ þvi hun var Riettvijs i sialf-
re sier / ef þ er Riettvijst fyrer Yfervallded ad taka Skatta og Tolla/
svo sm̄ þad i allañ Mata riett er/þvi Paulus seger/Rom. 13. Giall-
ed ollum hvad þier skyllduger erud/þeim Toll er Tollur heyrer/þa er
þad ecke Orettvijst fyrer Þienara þeirra ad safna Tekiunum: Ecke
bañade helldur Johañes þessū Moñum Tollheimtuna/ alleina/ ad ei
skylldu þeir taka meir eñ boded være/Luc. 3. Giæte þeir þess/ er slijkt
Starf a Hende hafa/ þvi hvad sm̄ þar er fram̄ yfer/þad er af hiñū
Bonda. Eñ hvernig sem þessu er vared/þa er þad vijst/ ad Kvittun
Syndaña Eirnusiñe feingeñ / hun er Ongvt / nema Syndareñ læte af
Illu/og lære Gott ad giora/og hier til heyrer þ/ad bæta þad Orett var
giort/ ef bæta mä: Hvar um̄ eg hefe nockud talad i tveimur næst þe-
farande Predikunū/eñ miñest eñ nu a þad hier i þridia siñ/af þvi/ ad
svo miked ridur a þessū Hlut/þvi sie þ ecke giort/ þa er Ydraneñ all-
deilis Ongvt. Þad er ei noog/ad stijnga a einu Meine/nema hiñ vonde
Vesse/sm̄ i þvi er samanndreigeñ/ hn̄ verde utdreigeñ/svo er þ ei hell-
dur noog/ad Moñum svijde Eirnusiñe af Brodde Logmalsens/ nema
þvi Illa sie fra sier kastad: Drecke nockur Eytur iñ/þa er hm̄ einsætt
ad æla þvi upp aptur/eñ eingeñ Olifian er so banvæn Kroppnū/svo sm̄
rangfeingner Muner Saaluñe/þvi er þad Omissande/ad skilia sig af
med þa/medur eñ þeir sealga heñe i Daudanū/þegar Meñ skulu þo vid
þa skilia / og þeir vid oss hvert sem er / eñ eingeñ veit nær hañ ber ad
Dyrū/og hvad hefur þu þa þess Madur/ er þu hefur med Ahyggiu
og Oriettle safnad. DRotteñ miñ/kieñ þu oss ad huxa þ vier hliootū
ad deyia/ læt oss ecke deyia med Mam̄ona/ helldur med vorn Frelsara i

Hiartanu/gief oss ad hafa Fiesiood a Himinenum safnad/ framar eñ i Heimenum / svo þegar hin Forgeingelega Tialldbud vors Lijkama i sundurglidnar / ad vier þa høfum svo fyrer oss giørt i Tijmanum / ad þeir medtake oss i eilijfar Tialldbuder/ Bænheyr þad DRott-eñ miñ og Gud miñ/ fyrer JEsu særu Kvøl og Blessadar Vnder/ A M E N.

## Tolpta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled/ Marc. 7. Cap.

OG þa JEsus gieck i burt apttur ur Landsælfum Tyri og Sidonis / kom hañ til Siafarens i Galilæa / i midiar Bygder þeirra Tiju Stadaña. Og þeir leiddu til hañs þañ Mañ/ sem Daufur og Mælhalltur var/ og bædu ad hañ legde Hendur yfer hañ. Og hñ veik hønum afsijdis fra Foolkenu / liet sijna Fijngur i hañs Eyru / hrækte ut / og æhrærde hañs Tungu/leit upp til Himens/andvarpade og sagde til hñs: Hephatho/ þad er/opna þig. Og jafnsnart upplukust hñs Eyru/þa uppleystest og eitneñ Fiølur hañs Tungu/ so ad hañ talade rieltt. Og hañ skipade ad þeir segdu þad eige neinum / Eñ þvi meir sem hañ fyrerbaud þeim þad / þess meir þa vijdfrægdu þeir þad ut / og þa siælfa undrade þetta næsta miøg / segiande : Allt giørde hañ vel / þviad Daufa lætur hañ heyra/ og Mællausa tala.

## Exordium.

MARGT er vid Morgu/seger i fornkvednñ Ordshætte: þoott ad DRottenñ hafe straffad Syndena epter Falled med adskilianlegñ Siukdomñ/til ad aga vort gialijfa Holld/þa hefur þo hñs Giæskalagt þa Lyfn med þraut þessare/ad Nætturañ er rijk af þm Glutum/ sem kañ geta Mein Maña/ þegar þar med er skynsamlega hondlad/ þvijseger Syrach/ Cap. 38. Ad hiñ Hæste hafe framleidt Læknisdoomeñ af Jordune / og uñ Læknereñ seger hañ i sama Capitula: Neitra þu Læknerañ ij Naudþurftareñar Saker/ þvi DRotteñ

eñ er hañs Høfundur/ þvi aller Lækneсdoomar koma af hinū Hærsta. Nu misfeliur þo þetta a stundum / þvi jafnvel þoott Lækneteñ kuñe margt og miked ad giøra/ og hñs Verk sie gott/ þa er þo ecke Heilsa ne Vanheilinde / Lijf edur Daude i hañs Hende/ helldur Guds/ sem er allra Meina Grædare/og sa DRottēn DRotteñ/ sem fra Dauduñ frelsar. Eñ Guds Sonur / a sijnum Holldsvistar Døgum/ hañ Auglijste þad øllum Heime/ ad hañ sañur Gud være/ med þvi ad hañ læknade allrahanda Mein og Krankleika/ecke med Natturuñar Med ølum/ þvi hñ var Natturuñar Herra/helldur med einu Orde a stundum. Kona/ mikel er þijn Trua / sagde hañ vid hina Cananitisku: Verk Nughraust mijn Dootter/ þier eru þijnar Synder fyrergiefnar/ vid hina Bloodfallsiuku: Far þu/ Sonur þiñ lifer/ vid Konungs Mañeñ: Verde þier epter Tru þiñe/vid Hundrads Hofdingiañ: Eg vil/verdu hreiñ/vid hiñ Lijkþraa: Fared og sijned ydur Kieñemoñ inum/vid þa Tiju: Og er þesse Dæme nærsta mørg ad lesa i Gudspialls Søgunum. A Stundum brukade hñ nockurskonar Ceremoniur til ad lækna hina Siuku/ svo sem hier i Gudspiallenu verdur fra sagt/hveriar þo ecke munu forgefens uppteiknadar/þvi allt hvad skrifad er/þad er skrifad oss til Lærdooms / Rom. 15. Helldur til ad þijda þar uppa vor Andleg Vanheilende / og þeirra Lækningu: Eñ nu vil eg i þetta Siñ Einungis Hugleida þeña auma Mañ / og svo vort Naattalag i Andlegum Efnum/ sem ecke erum betur an oss komner ad þvi Leite/helldur eñ hñ/margur hver. Send oss þijna Naad og Adstod til þess a Eyrendes/vor Gud/ fyrer Lausnarans Forþienustu/ Amen.

## Vtleggingeñ.

OG þEir LEIddu Til HAñs þAñ MAñ Sem DAVFur Og MAALhalltur VAr. þesse Mañeskia hefur þungsega halldeñ vered. þegar David utmaalar Mootgang siñ / sa segest hañ heyra sijna Mootstødu Meñ/ svo sem Daufur / og svo sem eiñ Mallleysingur ecke uppluka Muñe sijnum / Ps. 38. Eins og hefde hñ valla nockurn lakare Kost vid ad jafna. Illa er hinū Dauf

 fared

fared i mörgum Hlutum/ Eiñ Daufinge er nærre þvi eins i Verolld-eñe/ og Utlægur Madur i framandé Lande/ hvar hañ einkis Maal skilur / Hañ hefur eckert Gagn edur Skemtun af þvi ad adrer tala / Varer þeirra sier hañ bærast ad söñu / eñ þad maa vera stoor Hug-Raun ad siaa þad / eñ hafa þess þo eingeñ Not sem Gud hefur giört til ad vidhallda Selskap Mañaña i Heimenum / Gange nockud ad hönum/ þa giefur eingeñ huggad hañ/ eñ þo tekur þad yfer/ ad þeir ei geta Guds Ord heyrt til Saaluhiaalpar sier/ þvi fyrer Heyrn Guds Orda kemur Trueñ seger Postuleñ/ eñ aan heñar er Omögulegt Gude ad þocknast/ Heb. 11. Og hversu er hönum þa illa vared fyrer Mañ-aña Sioonum/ er hefur Brest a þessu Skilningar Vite. Nu eru þeir þo med tveñu Moote er þeña Skort mega lijda. Sumum fellur þad til nær þeir komner eru til Vits og Aara / þeir mega þess Not hafa ad Söñu / er þeir nu.nidu a medañ þeir höfdu Hluster heilar / bæde i Daglegre Umgeingne / og hvad mest aarijdur i Verke Saaluhiaalpar siñar/ og satt er þad/ad ei glepur fyrer þeim Bulldran Heimsens/ þeir hafa valla ad skemta sier nema vid Gud siñ / ef þeir eru Lundlægner þar aa/ og bera siñ Harm i Hlioode/ Og Reyndar þa er betra Daufur ad vera / eñ ad heyra margañ þañ Oþarfa / sem taladur er i Heim-enum/ sierdeilis skañarleg Ord og fiblslegt Hial/ sem Christnum soomt er ecke. Adrer eru þeir ed Daufer eru borner/ þvi þar aa epter fylger Maalleyssed/ hverneg kañ saa ad nema Mañа Maal/ sm̃ ei getur heyrt a Tal þeirra/ og hafa Meñ þess Dæme nockur hiaa oss/ þad maa og marka ad þesse aume Madur sem hier talar um̃ i Gudspiallenu / hañ hefur aan Efa heyrt einhvern Tijma/ þvi jafnvel þoott hañ Maal-halltur være/ þa hefur hañ þo nockud talad : þessarra Kostur synest miklu þijngre ad vera/ eñ hiña i fyrrstu Aliti/ þvi saa sem Daufur er eñ hefur þo Maaled / hañ gietur sagt til þess er hañ vardar um̃ / og lofad Gud med Tunguñe / hafe hañ nockud af Guds Orde numed/ eñ hiñ ecke/ þo er þad hier aptur ad segia/ ad eingañ lánngar til þess sem hañ þecker ecke/ svo kañ og ei hilldur þeim ad leingiast svo miög epter

ad

ad heyra a Tal Mañа/ sm̄ þad alldrei heyrt hefur. Eñ hvad Smæl-
ætenar Efnū vidreykur / þa hygg eg ad eingeñ kuñe ad fordæma þessa
Guds Vesælinga/ sem/ kañ vera ad þeir sieu miklu nær Guds Rÿke eñ
hiner sem eingañ Breff hafa a Skilningar Vitunum/ eñ bruka þau
Fiandanum til Þioonustu/og Naunganum til Ogagns/Gud er Riett-
lætur/og þo under eins Myskunsamur/ þad er ecke lÿkt hønum/ Fød-
ur Giæskuñar / ad hañ mune heimta Reikningskap af þvi Punde / er
hañ ecke feck eiñum i Hendur/ og hver vill efast um̄ Mátt hañs edur
Vÿsdoom hañ sem gat læted Johañem fagna Tilkomu siñe i Mood-
ur Lÿfe / Luc. 1. Mun hañ og ecke geta verkad undarlega Hlute i þess
Hattar Mañeskium/ satt er þad / ad mañ Truarefñar er Omøgulegt
Gude ad þocknast / Heb. 11. Eñ hañ sem gefur iñplantad Truna i
Hiørtum Smæbarnaña / mun hañ ecke med Orañsakanlegum Hætte
geta tilbued hana i þessara Hiørtum? Þad sem ecke er af Truñe þad
er Synd / Eñ af Muñe Smæbarnaña og Briooftmylkingaña hefur
hañ sier Lofed tilreidt/ þvi mun hañ og ecke geta opnad Skilning þess
ara Skiepna siña/ svo þær þecke hañ til Myskunar sier? Er nockurt
Ord fyrer hønum Omættugt/Luc. 1. Kañ hñ ecke alla Hlute framar
ad giøra/ eñ vier kuñum ad hugsa edur mæla? Eg vil hier um̄ segia/
þad sem Christur sagde vid Læresveinana/er þeir søgdu : Hver mun
þa hoolpeñ verda? Þad sm̄ Omøgulegt er fyrer Møñū/ þad er møgu-
legt fyrer Gude/ Matth. 19. Nu Sokum̄ þess/ad fyrer hinū Dauf a
verdur ecke talad/ Gud verdur sialfur fyrer hønum ad predika i hañs
Hiarta/og er eingeñ slÿkur/þa tala eg þetta til Huggunar þeim sem
angrast þar af / ad Børn þra edur kiærustu Naungar hafa slÿkañ
Breff/ og efast kañ skie um̄ Velferd þeirra/ og þar ad auke leida sier
i Hug/ ad þra kome fram̄ vid þa vegna Synda siña. Til hins fyrra
hefe eg ad nockru Leite Allareidu svarad / eñ þo vil eg þessu vidauka
sem epterfylger. Gud hefur skapad Afkvæme þitt i Moodur-Lÿfe/
Job. 10. edur þÿns Naunga : Hver hefur Mañenum Muñeñ gief-
ed ; Hver hefur giørt hiñ Mallausa edur Dauf a ; Edur hiñ Giæ-
anda/

anda/edur Blinda ? Hefe eg þad ecke sialfur giørt ? seger DRotten vid Moysen/ Exod. 4. Og fyrst hn̄ hefur þetta sialfur giort/Mun þa ecke han̄ / sem vill ad aller Men̄ verde Saluhoolpner / mun han̄ ecke sia þeim Farborda til Himnarijkis / sem ecke hafa Skullo i þvi/ ad þeir gieta ecke Guds Ord heyrt ? HAn̄ SEm GJOrde ALLT Vel/Pvi DAufa LJet HAn̄ HEyra Og MAALLausa TAla/A Døgum Holldsvistar sin̄ar / mun hønum vera apturfared sijdan̄ han̄ setstur er til Krapfarens hægre Handar/hn̄ er uppfaren̄ i Hædernar/ og hefur Mønum Gafur giefed/ Eph. 4. Mun han̄ þa ecke giefed giefa Barne þinu Heyrn og Maal / nema ad han̄ giafe Salu þess Heyrn / og giørde þad vel talande fyrer sialfum sier / med þvi Moote sem ecke skilur þu/eda nockur an̄ar ? Barn þitt er i Skijrnen̄e innteked i Guds Sattmaala/Hver sem truer og verdur skijrdur/hn̄ skal hoolpen̄ verda/seger Christur. Hier stendur/Hver sem truer/en̄ ecke hver sem heyrer og talar / Mun han̄ þa kalla afbrugded Sattmaalanum fyrer þessa Orsøk / er Besalingen̄ sialfur giørde / og gefur þo Truna i hønū verkad/Gud late oss alldrei meir afbregda/sem Maal og Heyrn høfum. Seg þvi med David/ Eg vil þegia og Mun̄e Min̄um ecke uppliuka/af þvi þu giorder þad/og hallt Barn þitt ad vera ein̄ Lim a Christi Lijkama / Mustere H. Anda / og Erfingia Himnarijkis / ef eckert an̄ad i Bege stendur / en̄ þesse Brestur / sem Skaparen̄ alleina og eingen̄ an̄ar læknad getur : En̄ hvad þvi vidvijkur / ad margur freistast af / ad Banheilende Barnan̄a Orsaken̄ af Syndum Foreldran̄a / þa verdur þvi ad son̄u ecke neitad / ad allt Mooltlæte er Berdlaun Syndaren̄ar / Svo sem Daudenn̄ er/svo er og allur sa Ner/sm̄ under hān̄ þioonar/en̄ þad heiter ecke svo Straff/svo sem Reynsla hia Guds Børnū/ hverre Jacob Postule skipar oss ad taka fegens Hende / Jac. 1. Þvi Orsakast þetta ecke af þvi / ad Foreldrar þessarra Besalinga sieu verre i Guds Auglite en̄ adrer Men̄/þar fyrer svarade Endurlausnaren̄ fordum Læresveinunum/ er þeir fretttu han̄ ad/hvert þesse hefde syndgad edur hn̄s Fader:

tt :

et: Hverke syndgade þesse nie Rader hans/sagde hann: Helldur svo/ad Guds Verk yrde opennber/ Joh. 9. og vidlijkt skedur i þessu: Gud setur oss þesse Dæme fyrer Siooner/ oss sem hann gefed hefur heilbrygda Sæl i heilum Lijkama / til ad syna oss hvada Volld hann hafe yfer Manneskiunne/til þess/ad þacka sier og lofa sig þar fyrer/ad oss og vorum Børnum og Naungum er betur vared i Lijkamans Nattalage/til ad minna oss þar a/ad ei brukum vier Skilningu vora til þeirra Hluta/sem Gude til Styggdar eru/miklu helldur til Vegsemdar honum/og Naunganum til Þarfa. Enn Gud unne/ ad ut af þessu ber nærsta miøg a stundum/og þad er nu hin Andlega Deyfa/ sem er miklu hættare/miklu Skadsamlegre/og þo miklu Almennare/ enn su sem a Lijkamanum er/yfer hverre ad David klagar/er hann seger/ Ps. 58. ad þeir tilbyrge Eyru sijn/eins og Hoggormurenn fyrer Raustu Særinga Mannsins: Margfallt er þetta Heyrnarleyse/ og i mørgu foolged/ enn Rootenn til alls er þad/ad Menn Daufheyrast vid Guds Orde/svo þ fær ecke Rum i þeim/ helldur enn Tal Christi i Pharisæis. Aller Menn lasta þa fyrer þetta/ sem verk er: Enn þoott ad einge Madur talad hafe / edur enn nu tale svo sem hann/jafnvel ad Vitne þeirra/sem voru Vilsendarar hans Fiandmanna / þa eru þad þo Guds Ord/ er hans Þienarar tala i hans Vmbode/nær þeir byggia Maal sitt a Ordum hans Spamanna z Postula/ yfer hverra Grundvøll/ad hans Christne er bygd/þvi svo seger Drottenn vid Jeremiam/Cap. 1. Eg hefe lagt mijn Ord i þinn Munn/ og vid Esajam/ Cap. 59. Minn Ande sem i þier er/ og mijn Ord/ er eg hefe sett i þinn Munn/þau skulu ecke ur þijnum Munne vijkia. Nu þoott ad ecke sie Andans Gaafa svo rijk hia oss/ sem hun var hia Spamønnunum og Postulunum/ þa eru þ þo Guds Ord/sem hans Þienarar tala/nær þ er af þeirra Toga rett spunned/z þr tala eckert meir Ritningarennar. Guds Ord elldest ecke/þad blijfur Eilijflega/ seger Esajas/Cap. 40. Þvi er þad eins gott i Munne hins vesælasta JEsu Christi Þienara/ nær þad er hans Ord/svo sem i Munne Peturs edur Pals/ þvi vil eg hier um segia þad hid sama/sem Paulus sagde vid þa i Tessalonica/

ad

ad þeir hafe medtekid þad Guds Ord / er þeir heyrdu af honum/ ecke svo s̄ Ord Mañaña/helldur svo s̄m þ var/eins z Guds Ord/1. Tess. 2. Eñ ef þad Guds er/hvern forsmaed þier þa / þier hiner Daufu Veralldar Syner/nær þier þ ecke heyra vilied af hn̄s Þienara Muñe/ nie læta undervijsa ydur og Børnū ydar i Christendoomenū/ecke læta straffa ydar Synder / og ecke lifa epter þvi / er ydur af Guds Alfu boded verdur. Hvern forsmaed þier þa/sege eg/ Gud edur Meñena ? Seger hn̄ ecke/Luc. 10. Hver hañ forsmaer ydur/ hn̄ forsmaer mig/ hver hn̄ heyrer ydur/hn̄ heyrer mier? Svoddañ er rett skelfelegt Heyrnarleyse. Munu þesse Frelsarans Ord næ alleinasta til Postulaña/edur þra er lifdu a þeim Døgum/ og ecke til vor/ sem nu lifum ? Mun hañ ecke hafa lofad ad vera hiæ oss / allt til Veralldareñar Enda ? Matth. 28. Hverneg er hañ þa hiæ oss? Med sijnum H. Anda i Ordenu og Sacramentunum. Nu/ ef Meñ vilia njoota Nalægdar hn̄s/ þvi læta Meñ þa svo tregt vid ad heyra hn̄s Ord? I Ordenu talar Gud vid oss/ vid hn̄ tølū vier i Bænū vorum/eñ sa sem ecke vill heyra hañ Talanda / þañ vill hañ ecke heyra Bidianda / Þvi hver sem forsmaer mig/þañ vil eg forsmæ/seger hañ/ 1. Sam. 2. Eg em gladur af þvi/seger David/ad til mijn verdur sagt: Vier skulum gaanga i Hus DRottens/ Ps. 122. Þetta sagde hañ/s̄m i Ritningūne er nefndur Madur epter Guds Hiarta. Eñ margur Gørungur, margur Sælkiere/ margur Fepuke/ sem er Madur epter sijnu Hiarta/ hañ verdur þeirre Stundu fegnastur / ad hañ þurfe ecke i Guds Hus ad gaanga/ edur hañs Ord ad heyra/ og þoott þeir gaange edur heyre/ þa geingur Ordenu eins og Sædenu þvi / er Frelsareñ talar um̄ hiæ Lucam i 8. Cap. Hvertt ed fiell utañ hiæ Veigenū/ ad þad verdur Footū trodid/ og Fuglar Himensens ætu þad/ Diøfulleñ tekur þad i burtu ur Hiørtum þeirra/svo þr ecke trua skule/og verda hoolpner. Hvar fyrer ? þvi þeir hyrdtu ecke um̄ ad taka a sig Guds Alvæpne / til ad mootstanda Prettum Andskotans/ Eph. 6. Guds Ord skal til þess hafa/ad vard veita Guds Ord/ eñ þr gleymdu Sverde Andans / sem ad er hid sama Ord/

Ord/ad Þr kynni ad leita þui fyrer sig/nær Domurenn ad Garde gieck/ til ad ræna þa Dyrgrip þessum. Oskande være/ad ei huxuðu þeir hid sama/er Judar søgdu Fordum vid Jeremiam: Vier skulum ecke heyra þvi Orde/er þu sagder oss i Nafne DROttens/helldur skulum vier giøra epter sierhverju Orde / er framkiemur af vorum Munne/ Jer. 44. J svoddann Gylldé er DROttens Ord hia sumum Mønnum. Munu Þr þa ecke nærsta þyckheyrder vera ? Neyr mier þo um Stund/ Barned gott/Þu ert Oskierdtur a Nlustum þijnum/ og enn nu ert þu svo i Dag. Þar fyrer/ i Dag/ i Dag/ ef þu heyrer Rødđu hans/þa forherd ecke Hiarta þitt/Heb. 3. Seig mier/ Hefur þu Bref fra Gude/ad hann lijde þijn Skildingar-Vit til Morguns / meir enn þesse Daufe og Mælhallte Madur. Gud steypte hinne Vantruudu Verolld um Koll i einu. J einu dreckte hann Pharao med ollu hns Lide. J einu fargade hann Canaanitum fyrer Hønd Josuæ. J einu Augnablike sloo hann þa med Blindne / er fælmudu epter Nuse Lothz/ Gen. 19. J einu Augnablike stack hann Augun uf a Elimas / sem mootstood Paulo / er hann foor med Christne Boded/Act. 13. Mun hann ei kunna ad giøra hid sama vid þig/ef þu mootstendur hans þienurum/og villt ei heyra þm/nær þeir tala Guds Eyrende z ecke sitt ? Eda hvad villtu giøra/ nema þu hafer eitthvad þier til Sælargagns numed af Orde DROttens / a medann þu hafder Eyrun heil / ef hann kynne adlæta þier tilfalla þvilijkann Brest/eg vil þad i stuttu Male segia/þu hefder eckert til ad kenna þier ad þeckia Syndena / eckert til ad fa Boot hennar / og eckert til ad hugga þig i þessu Volade? Og fyrer þvi / ad þu alldrei hafder smackad hid Gooda Guds Ord / So sem þad er / þa giefur ecke a þier sannast Malshattur sa/ad eingenn vite hvad hn att hefur fyrr enn hann misse. Einhver vill segia: Eg get lesed Guds Ord þo ad ecke heyre eg þad/ Þvi er verr / ad þeir eru svo fæer/ sem lesa kunna/ sa/ þoott siælfer kunne/ þa hyrda sumer ecke um ad kenna þad Børnum sijnum / og er þad Gudlaust Ræktarleyse/ enn hverneg sem þvi er varid / hvad veistu nema Gud take under eins fra þier Sioonena og

Heyrnena/ Og hvar stendur þu þa/ Ef þu hefur forsmád Rijkdoom hans Langlundargeds/ Rom. 2. J þvi/ ad vilia ecke hans Ord heyra þier til Saluhialpar/ og þott Gud spare Eyru þijn allt fram i Daudan / þa vita Men / ad ecke stia þa Augun leingur / og ecke heyra þa Eyrun leingur/ Hiartad verdur þa ad tala vid Gud/ og Heilagur Ande ad vera vor Prestur i sijnu Mustere/ en ef Men hafa styggt han med Vanrækt Guds Orda/ og slockt han med Forsøgtun þeirra/ hvar i a han þa ad lifa/ ef eckert var numed sem han kunne ad lifa i/ og er þetta eitt Skadlegt Heyrnarleyse. Margur leggur þad ad litlu/ ad ganga i Guds Hus/ og helldur þad fyrer Einfoomes Ceremoniu/ þvi er verr/ kan skie þad sie og svo hia allmørgum/ sem þar byrkast/ alleina fyrer Sida Saker / en giæte Men þess/ ad fyrer utan þad/ ad Gud hefur Skulldbunded sig til ad vera midt a millum Tveggia edur Þriggia/ sem eru saman safnader i hans Nafne/ Matth. 18. Þa er þad ei svo mæg vijda i Lande voru/ ad Almenningur fæe Guds Ord heyrt nema i Kyrkiunne/ O hvad miklu Goodu firrer sa Madur sig/ er byrger Eyrun fyrer Guds Orde/ þau eru Lijf og Ande/ seger Frelsaren / Joh. 6. Þvi er hn Andlega daudur sem ecke þrá er. Vier truum/ ad fyrer Truna verde Maduren hoolpen an Verkanna/ seger Paulus : En Truen er af Heyrnenne/ en Heyrnen af Guds Orde/ seger han/ Rom. 10. Hvar vill hn lenda þa/ sem er Truarlaus/ nema i Eilijfre Glötun ? Utan han betre sig. Mijner Sauder heyra mijna Raust/ seger Frelsaren/ Joh. 10. En hvers munu þeir vera / sem ei vilia heyra Rødu hans ? Munu þeir ecke setter verda med Hafrunum a vinstre Hlid/ og þa um sijder heyra hina skielfelegu Raust alls Hollds Doomara/ Fared frá mier bølvader i eilijfan Elld/ sem fyrerbuen er Diøflenum / og øllum hans Aarum / Matth. 25. Sa sem er af Gude / han heyrer Guds Ord/ seger Lausnaren/ Joh. 10. En þeir sem þad ecke heyra vilia/ og þo heyra kunna/ af hverium eru þeir ? Af Fødur þra Andskotann/ svo sem DRotten sagde vid Gydinga fordum. Ut af þessare Lexiu fædest margfalldur Eyrna Dofe. Hvad giøra þeir ed heyra

Bein

Vein hins Naudstadda og Volada/ eñ byrgia sig þo fyrer siꜳlfu eigen
Nollde: Þad er fyrer þeim sem ad eru somu Nꜳtturu og vier/ og gefa
þeim eckert/ jafnvel þoott sumer hafe Audlegd Heims þessa. Eingeñ
hefur um̃ Allder sitt eiged Holld hatad/ seger Guds Ande/ helldur
foostrar hañ þad og nærer/ Og hvad er þad þa/ ad eg skule sia mitt
eiged Holld/ eñ Guds Vesæling/ miñ Brooder i Christo/ ad eg skule
sia hañ frioosa edur svellta i Hel/ þar eg hefe þo noog/ jafnvel til ad
kosta uppa Munade mijna? Þetta er stakt Heyrnarleyse. Sa sem
Oskunda og Orietteñ lijdur/ hañ flijr til Doomarans/ og bidur um̃ Ad-
stod/ eñ hañ sem af Gude og Konungenum er settur til ad skipa Rett-
endum Maña/ hañ stijngur Fijngrenum i bꜳde Eyrun/ og vill ei heyra
Kvein Log-Ræningsens/ añadhvert fyrer Lete/ fyrer Vinꜳttu/ fyrer
Hrædslu edur Agyrnes Saker/ svo hiñ fer jafnnær fra honũ: Verr
er honũ fared eñ hinum Ranglꜳta Doomara/ er Frelsareñ talar um̃
i Eptterlijkinguñe hia Luc. 18. Hver þoott hañ Ottadest hverke Gud
nie Meñ/ þa liet hañ sig þo samt leida af Þrꜳbeidne Eckiuñar/ til
ad ꜳlijta Maal hennar. Ein gomul Kona beidde Augustum Keysara
eitt Siñ/ ad heyra Maal sitt/ Eñ hañ kvadst ecke Toom hafa/ Hun
svarade: Svo legg þa af Stioornena: Vid þesse Sañyrde brꜳ svo
þeim vijsa Hofdingia/ ad hñ leit strax a Maal hennar/ og dæmde þad/
Eñ þad være Raadlegt/ ad þesse Varmeñe/ sem ꜳdur er um̃talad/ ad þr
legdu af sier þetta Starf/ þar þeir valla eru hæfare til þess/ eñ Asn-
eñ til Horpu-Slꜳttar. Meñ nema þañ Lim i burtu af Kroppnũ/ sem
er daudur/ og lijklegur til ad spille odrum/ sæmra være og þeim er svo
þyckheyrder eru/ sem nu hefe eg sagt/ ad Eyru þeirra være afskoreñ/
helldur eñ þau stædu þm̃ til Vanheidurs/ eñ eingũ til Gagns a Hofd
enu. Þar er eingeñ kiendur sm̃ hñ kemur ecke: Ef þier blinder værud/ þa
hefdud þier ecke Synd/ Eñ nu seged þier/ vier siaũ/ þar þ blijfr Synd
ydar/ sagde Lausnareñ vid Phariseos/ Joh. 9. Svo være og hinum
betra/ ad Hluster þeirra byrgdar væru/ helldur eñ ad hafa Eyru og
heyra ecke/ eins og onnur Lijkneskia. Margt mætte hier um̃ fleira tala/

þo læt eg þetta duga ad svo stoddu: Eñ þad eg hefe ad framañ talad um̄ Heyrnar Skorteñ/ þ sama vil eg um̄ Malhelltena tala/ad se su er hun stoor Vanse Lykamans/margur Ohlutvandur forsmaer hañ/ sem er svo Male fareñ/ þeir hæda ad honum/ herma epter þeim/ og læta miklu verr opkast/ eñ hiner sem þeir epter herma: Þetta heiter ad lasta Skaparañ / þvi hañ hefur Mañenum Maled gefed / og sæed fremur þvilijkt Gudleyse/hañ er næsta illa talande i hñs Eyrum/ sem allt heyrer/ hañ giører Malsnylle sijna Þusundsiñum argare eñ Brest hins Malhallta. Ecke helldur bañar Tungu Hafted neinum ad gaunga fram̄ fyrer Nadar-Stooleñ / sem Gud hefur sett i hañs Bloode / hañ sem ecke upplauk sijnum Muñe/ helldur eñ eitt Lamb til Slatrunar leidt/hñ getur vorkent þessum sijnum Befalingum/er hñ sialfur skapad hefur / giete hañ ecke odrum kent/ gete hañ ecke brukad Maled til ad tala Male Eckiuñar og hins Fodurlausa / þa getur hañ þo lofad Gud/hañ skilur Mal hñs/ sem adgreinde Tungurnar/ og allar hefur giort af eiñe/ hañ getur beded Gud sier til Hialpar og Myskunar/hañ er noogu sniallur i Guds Eyrum/sm̄ bidur i Anda og Sañleika/ Joh. 4. Eins vel akalla hiner ungu Hrafnarner Gud og Svanureñ/ og hverutveggiu þessa fæder hañ/ þvi stendur nu eingum þesse Tungu-Brestur fyrer neinu Goodu hia honum / sem bæde hefur skapad hiñ Mallausa / og hiñ Veltalande: Hin er Malhellteñ meire og skadlegre/ þegar Meñ bruka Muñeñ til ad lasta Gud / hañs Nafn/ hañs Ord/ rangfæra þad / og ad Nade hafa / til ad skiem̄a Naungañ / til ad rægia hañ / liuga a hañ Lyktum og Skom̄um þo saklausañ/ bryxla honum/ leggia Napt a Tungu sijna/ þegar hañ a ad forsvara/þegar Sañleikañum a Vitne ad bera/ og færa Hlutena til betre Vegar: Þetta er skelfilegt Malleyse / þad er ein Hofud-Skom̄ i Guds Auglite/ þarfara være þeim Mañe/ ad hañs Tunga være fra Rootum uppstoreñ/eñ ad bruka hana til slijkra Oorda/þvi svo seger Frelsareñ. Betra er ad þu halltur og Handarvane iñgaunger til Lyfsins / eñ ad þu hafer tvær Hendur og tvo Fætur / og verder i

eilijfañ

eilijfan Elld kastadur/ Matth. 5. Hver ed vijs er þeim sem kemur sier Rogn þessa/ og þessa Malhellte/ og nema þeir ydrest af Hiarta/ og læte af slijku Ade / þa munu þeir eilijflega med honum verda/ er vier Rægekall nefnum/ og hefur sitt Nafn af þvi/ad hañ æklagar Guds Utvalda Dag og Noott/þar sem þeir Sælu eñ eka Tungur/ Elldo ureñ er noogur/Kosturen er mykill/Blæstur DRottens uppkendrar hañ svo s añad Brenesteins Flood/ Esa. 30. Fra hveriu Oskopu hiñ goode Gud vardveite alla Christna Meñ/ Eñ þu sem ALLT Giørdet Vel/ Þu SEm LIEtst DAUfa HEyra Og MAALlausa TAla/ Vijk þeim afskødes fra Foolkenu/fra vondre Verølldu þessare/ hverra Eyru ad allt ofmiøg klæia epter hennar Glaum/ hveriu eckert Mal lijk ar/nema þad sem heñe er þocknanlegt/Rek þa ut af Babilon/DRottenn miñ/ jafnvel med Svipu þijns Krossburdar/svo ad ecke medtake þr af Plaagum hennar/Snert Eyru vors Hiarta med Fijngre þijnum/sem er þiñ Ande/svo ad vier hofum vora Lysting i Løgmale þijnu/og upp leys Fiøtur Tungu vorrar/ svo ad vier tølum riett/ þad sem Gude sie til Lofs og Dijrdar / Hañs Kyrkiu medal vor til Uppbyggingar / eñ Andskotans Rijke/ og allre hañs Ydne til Nidurdreps. Bænheyr þad vor Lausnare/fyrer þijna Forþienustu/Þier med Fodur/og Hei logum Anda/ sie Vald og Kraptur/ Rijke og Mattur / Æra og Dijrd/Fra eine Eilijfd til añarar/ Amen.

## Þrettanda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled/ Luc. 10. Cap.

OG JEsus hañ snere sier til siña Læresveina/og sagde þeim Einslega. Sæl eru þaug Augu sem sia þad/ hvad þier siaed/ þvi ad eg seige ydur/ þad marger Spamenn og Kongar/ villdu hafa sied hvad þier siaed / og sau þad ecke/ og ad heyra hvad þier heyred og heyrdu þad eige. Og sia / ad nockur Løgvitringur stood upp/freistade hañs og sagde: Meistare/ Hvad skal eg giøra / so ad eg eignest eilijft Lijf ? Eñ hañ sagde til hañs : Hvad er skrifad i Løgmalenu ? Hvørneñ les þu ? Hañ svarade og

 sagde:

af Spillingu þeirre / sem vier epter Adam erfdum / . En mædur en Vondskan innkom i Heimen / þa var eckert Gude mootstædelegt / allt at Skepnur hlijddu honum/ þad var allt harla gott/ er hn skoop/ Illskan ein er honum Ohlijdeñ/ og þeir Huter/ sem af henne framkoma/ hverra Uppsundur ad Diøfullen er / og hans Þienare hinn Gudlause Heimur þesse. Medal Guds og hans / er eilijfur Fiandskapur stadfestur/ sijdan han var ut ur Himnenum reken/ svo er og Heimuren/ þui seger Jacob/ Cap. 4. Han/ sem er Heimsins Vinur/ han giørest Guds Ovinur: Nægra er Vatne og Vidsmiøre saman ad blanda/ en þijsa ad forlijka/ svo ad hveruggs Þienarar geta annars vered/ þad vill Frelsaren kienna oss i upplesnu Gudspialle/ er hn seger: Ad EJNGen Kunne TVeim HERRum Ad ÞJONa / Og Ad VJer GETum Ecke VNDer EJns/ ÞJONad GVDE/ Og MAMMona. Þetta Ord MAmmona/ þijder Abata / epter sumra Vijsenda Manna Vtleggingu/ En allskonar Nægter og Fullsælu Fiaar/ epter sumra: Hun er ad sønnu stoor Guds Gaafa / nær hun er af honum þeigen / og ecke af Fiandanum edur ad hns Raadum utvegud/ brukud edur medfaren/ þui seger Frelsaren ecke ; ÞJer KVnned EJge GVDe Ad ÞJOna/ og þo leita Næringar ydar i Sveita ydar Andlitis/ edur taka vid þui/ er Gud vill laata ydur i Skaut falla: Ecke helldur seger hn: Þier Kunned Ecke GVDe Ad ÞJoona/ og Rijker ad vera : Margur Abraham/ Isaac/ Jacob og Joseph/ ecke einasta han/ sem var Forvista Egijpta lands i Tijd Pharaonis / helldur og hinn af Arimathia / er DRottenn groof / þeir hefdu vered utrekner ur Þienustu hins stoora Konungs Himens og Jardar/ ef svo være / helldur søkum þess/ ad Auduren er Gud Veralldar þijsarar/ og hennar Børn leita hns framar/ En GVDs Rijkis Og Hans RETtlætis/ þa vill Frelsaren kennt hafa i Predikun þessare/ ad Omøgulegt sie bædu ad þioona/ og þ Ord er hier i Textan um stendur/ Ad ÞJOna / þad merker ad vera ønaudugur Þræll eins hvers. Nu þarf einga adra Roksemd til þess ad sijna/ ad þessu tvennu sie Omøgulegt saman ad koma/ helldur en DRottens eigen Ord/ þviad i hans

hns Munne eru alldrei Svik funden. Enn eg vil ut af Gudspiallenu
tvennt hugleida/sem er. 1. Hversu gott pad sie Gude ad pioona.
2. Hvilijk Plaga pad sie / ad vera Mammons Þræll.

Þu alleina Rijke Goode Gud/ Stioorna þu Hiortum vorum/ þier
til Þioonustu hier i Tijmanum/ svo vier megum þier Eilijflega pioo-
na / Fyrer JEsum Christum / A M E N.

# Utleggingen.

HVersu Gott sie Gude ad pioona / þad kann eingenn nooglega ad
skinia/nema sa/sem af Alvøru er Guds Þienare. Aller Menn
keppast vid ad naa Þienustu hiaa Tignum Monnū/þvi þad þyk-
er Heidarlegt ; Saler eru Menn þijner/ og Þienarar þijner/ er standa
Dagglega framme fyrer þier/ og heyra Speke þijna/ sagde Drottningenn
af Saba/vid Konungenn Salomon/ 1. Reg. 10. Enn sia/hier er meire
enn Salomon/þvi/ef ad DRottenn seger hier i Gudspiallenu/ Ad SA-
lomon i ALLre Sinne Dijrd HAfe Ecke Svo SKrijddur VEred /
Svo Sem EJtt Af Akursins LJLiu-GRosū: Hversu langt var hann
þa fraa þvi/ad koma i nockurn Samjøfnud vid Hinnanna Konung/hann
sem þa hefur utþaned/ og prijdt med hinum føgru Lioosum og dæge-
lega Nimensins Her / sem vier Augum lijtum/ Og er þad þo svo sem
Myrkur ad reikna hia sialfre hanns Dijrd/sem upplioomar hina føgru
Jerusalem Guds Barna Borg/sē er þar uppe/hverrar Sool & Tungl
hann sialfur er/og sialfur bijr i þvi Lioose/ sem eingenn fær tilkomest:
Hann sem Lopted hefur utbreidt/og skapad alla Fuglana þar inne/for-
sorgar þa/ vidhelldur þm/ gefur þeim sijna Fædu i henlugann Tijma/
svo ad Lausnarenn seger hier i Gudspiallenu : Ad Ecke EJnn Af
ÞEim FAlle a JORÐu An SJns FÐDurs VJLLia/hann hefur
Siooenn giørt og alla Fiskana þar inne / Smaa og stoora / og innelykur
hann i sijnu Hnefa/segiande til Hafsins/hingad skalltu komast/og hier
skulu þijnar stolltu Bylgiur leggia sig/ Job. 38. Hann ed sialfur hef-
ur tilbued Akursins Liliu-Gros/ prijdt Jordena med Skoogum/ Dijr-
um/ Fiøllum/ Hælsum/ Dølum/ og Arlega framleider af henne allra

handa

handa Avøxt og Alldine / hinum lifande Skiepnunum / og þo allra
hellst Mañenum til Nota og Upphelldis/ og allra sijdarst skoop hañ
hid Veglegasta og Dasamlegasta Dijr under Sooluñe / epter siñe
eigeñ Mynd / sem er Madureñ / Ia / Endurskoop hañ i Synd og
Dauda falleñ/og took hañ i Sætt aptur/ Endurleyste hañ/ecke med
Gulle og Sylfre / helldur med sijns Eingetens Sonar dijra Bloode /
1. Pet. 1. Helgade hañ Ohreinañ/af Ohreinum komeñ/Endurnijar
alla þa/ sem siñ Skijrnar Sættmaala ecke Vijsvitande under Footū
troda/ Fyrergiefur oss Daglega margar Synder/ þvi Daglega synd-
gumst vier/ og vitum ecke nema til Hegningar/Hverium er oss sam-
ara/Hverium skylldugra og vegsamlegra ad þioona/ eñ hønum/ i hvers
Hende ad er øll lifande Saal: Hver ad er vor Styrkleike/vor Prijs/og
er vordeñ oss til Hiælprædes/ Esa. 12. Eñ svo sem þad er ægiætt z
Veglegt/ad þioona Konunge Dyrdareñar/svo er þad ecke sijdur Gagn
samlegt. Þad er oss øllum kuñugt / hversu mikel Umsvif ad Daud-
leger Meñ hafa fyrer þessa fallvallta Lijfs Næringu/ sem þo lijtels
vid þarf i siælfu sier/og þrytur nær allra miñst Vonum varer/og þo
eru sumer Meñ ecke ænægder / fyrr eñ þeir hafa Korn-Hlødur sijnar
fullar/svo þeir gete sagt med hiñi Rijka Maura-Þegn/Luc. 12. Et
og dreck Saala mijn/ þt þu hefur til margra Ara samañsafnad. Eñ
hvad seger Frelsareñ hier i Gudspiallenu? VEred EIge HVGsiuk
er FYrer YDrū LIJfe/ HVad þIer SKulud Eta Og DRecka/
OG EIge HELLDur FYRer YDrum LIJKAMA / HVERtu
þIer SKulud KLÆDast / Med ødrum fleire Ordum / sem þar a
epterfylgia / Og eru full af Guddoomlegre Speke. Med miklu
Snarræde hefe eg þa aflokad allre Ahyggiu miñe / sem kvelur hiñ
Vantruada og Agiarna / þegar eg hefe kastad heñe uppa hañ/ sem
a øll Dijreñ a Mørkeñe/ Ps. 50. Og allt Sylfur og Gull er hañs/
Mun Hugsyke mijn draga mig leingra a Leid/ eñ hañs Fyrerhyggia?
Og fyrst um Matteñ er ecke ad efast/ þa kañ eg ecke Viliañ ad ugga.
Naug er þad/ad DRotteñ seger hier i Gudspiallenu: YDar HIMe-

neskur

neſkur FADer VEtt/ Ad þJer HAfed Alls þEſſa þOrf. Ef Gud er miñ Fader/mun hñ þa ecke forſorga mig? Ef eg/ſem vondur er/ kañ ad giefa Barne mÿnu goodar Giafur / mun þa miñ Himneſke Fader giefa mier Stein fyrer Braud/ edur Høggorm fyrer Fiſk? Eñ þoott hañ a Stundū læte mig vanta þeſſa Lÿfs Næringu/ epter ſÿnum þægelegum Vilia/ mun hañ þar fyrer hafa gleymt Myſkunſamur ad vera? Mun hañ ſamt ecke vera miñ Fader? Eg kalla þad ecke goodañ Fødur/ og ecke forſialañ/ ſem ad elur Barn ſitt ſvo kappſamlega/ ad hañ under eins elur upp i þvi Matvendne og añañ Oſooma / Mä eg þa kuña Gud fyrer þad / ad hañ neitar mier um̃ þær Nægter/ er mig ſkadar/ Noog er þad/ ad eg veit ad hañ er miñ Fader/ trur er hñ/ og freiſtar einkis yfer Megn fram̃. Þegar mier allt ad Oſkum geingur/ þa fiñ eg kañſke valla til þeſſ/ ad hañ er miñ Fader. Eg kÿñe ad giøraſt lauslätur þegar eg er fullur og feitur eins og Iſrael/ Devt. 32. Af þvi veit eg ad eg ecke er hiä-Barn/ ad hañ tÿptar mig. Af þvi ſie eg ad hañ elſkar mig/ Heb. 12. I allre þeirra Angiſt/ þa angrade hañ þa ecke/ helldur verndade þa Eingill hañs Andlitis/ og forſvarade þa med Millde ſiñe/ ſeger Eſajas Cap. 64. Hver er ſä Auglitesins Eingelleñ/ miñ HErra JEſu/ nema þu Chriſte? Þu byrteſt̃ än Aflæts fyrer Auglite vors Fødur a Himnum/ ſvo ſem eiñ eilÿfur Kieñemadur/ þu ert Mynd hins Oſÿnelega Guds/ Col. 1. Þu ert i Fødurſens Skaute / Joh. 1. Þÿn Medalgaunga verkar þad / DRotteñ miñ / ad jafnvel i hiñe meſtu Angiſt / fiña Børn Fødur þÿns til einkis Angurs/ þviad þiñ Vondur og þiñ Stafur hugga oſſ/ Pſ. 23. Vitnisburdur þÿns Anda telur oſſ Tru þar um̃/ ad vier Guds Børn ſieum/ Rom. 8. Þar fyrer reikñū vier ecke Mootlætingar þeſſarra Tÿma verdar þrar Dÿrdar/ ſem vid oſſ fram̃koma mun i eilÿfu Lÿfe / og hier af kemur þad / ad ſvo veglegt og ſvo þarflegt ſem þad er Gude ad þioona/ ſvo er þad og Yndællt og Vnunarſamlegt. Hvad er þad ſem Meñ allra meſt ſækia epter i Heimenum? Þad er ad vera änægdur/ og una vel Hag ſÿnum/ eñ þar er valla nockur ſä / er nær

þeirre Fullsælu af Veralldar Munum / edur Munudum/ad hm̄ þyke sig eckert vanta. David keñer oss eitt Ædra og betra Rad/er hn̄ seg-er: Haf þyna Unadsemd i DRottne/og mun hañ gefa þier þad sem þitt Hiarta gyrnest/Ps. 37. Satt er þad/ad vegna þeirra nakvæmu Teingda/sem eru a millum Sælar og Lykama/þa hryggest hun edur gledst af þvi/sem honum Gott edur Jllt tilfellur/Eñ þo eru þau ecke svo miøg skylld / ad ei sie Gud heñe skylldare / Ecke er hun af sama Efne giør og Lykameñ/sem af Molldu var skapadur/ Gud blies lif-ande Anda i Mañsens Naser/ seger Ritningeñ / Gen. 2. Nun er af eingu skøpt eins og Einglarner/hverier i Jobs Book/Cap. 1. kallast Guds Syner / Svo kallar og Lucas Adam Fødur vorn / Luc. 3. Og Paulus seger/ Vier sierum hñs Kyns/þad er lykrar Veru/ eñ þo ecke hiñar sømu / Gud er eitt Ande/ seger Johañes 4. Ande hefur ei Hollld nie Bein/ eins og þier siaed mig hafa/ seger Frelsareñ: Hier af kem-ur þad / ad þoott Adam yfergiæfe siñ Uppruna / þa hefur hiñ allra Hæsste svo bætt Rad vort aptur fyrer hiñ añañ Adam / sem er Gud af Himnum/ad hvad elskar sier lykt/svo þegar eiñ er vordeñ eitt Ande med Gude / og Umm̄yndadur epter hañs Mynd/ er skapade hañ/ þa fær Sæleñ Krapt af Hædum / sem er heste miklu skilldare / og sterk-are þeirre Elsku sem hun hefur a Lykamanum / svo ad hun reiknar alla Hlute Dreck ad vera hia JEsu Christo synum DRottne/eins og Paulus/hun hroosar sier af eingu/ nema af hañs Krosse/ fyrer hvern heñe er Heimureñ Krossfestur og hun Heimenum / Gal. 6. Svo ynd-dælt er þad nu Gude ad þioona / ad þad er Unnarsamlegt/ jafnvel i Hørmungunum. Paulus talar þañig um̄ hiñ saña Christendoom/ 1. Tim 4. Ad Gudhrædslañ sie til allra Hluta Nytsamleg/hafands Fyrerheit bæde þessa Lyfs / og hiñs Komanda. Þesse er hin riettá Guds Þioonusta/ Eñ hvad þa? Ecke hefur Gud i Nya Testamente nu heited synum Þioonustumøñum svo mikille Veralldar Farsælld / jafnvel þoott hañ veite þeim hana a Stundum. Hvar i er þa Fyrer-heited rueñ aled: J þvi ad hañ giefur þeim sialfañ sig / sem er ølla

Gæda/

ædra / Sa sem hañ á / hañ hefur eignast allt / og sa sem ecke hefur Atutdeilld i honum / hañ hefur miña eñ ecke / hañ vantar jafnvel pad hañ hefur / þvi Guds Ryke er ecke Matur nie Dryckur / helldur Fridur og Fognudur i Heilogum Anda / þar fyrer seger Paulus eñ aptur / 1. Tim. 6. Ad Gudhrædslan sie mikill Abate med þvi Skape / sem lætur sier sijna Lucku nægia. Nu er pad ecke einasta Vegsamlegt / Þarfslegt og yndællt Gude ad þioona / helldur og er pad Einsætt / og Omissande / svo ad æn þess kuña Meñ ecke Guds Born ad heita / nie Sæluhimlpena ad erfa / og siá þa aller þeir sem trua þvi / ad Himnarijke og Helvijte sie til / þeir siá hvad miklu ad tapad er / ef Meñ skiootast ur Guds Þioonustu: Bolvadur vere sá sem ecke elskar DRottiñ vorn JEsum Christum / seger Paulus / 1. Cor. 16. Eñ ad elska hañ / og ad þioona honum / pad er allt hid sama / honum verdur alldrei tioon ad fyrer utañ Elsku / og alldrei verdur hañ elskadur fyrer utañ Þioonustu / þvi i Þioonustuñe skulu Meñ sijna Elskuna / og af Elskuñe Þioonustuna. Þess vegna spurde DRottiñ St. Petur ad / ædur eñ hañ baud honum ad fæda Lomb sijn og Saude sijna / hvert hañ elskade sig / Joh. 21. Sama er ad segia uñ hvern eiñ / hvada Starf sem hañ á Hende hefur af Guds Alfu / Eñ aller hafa noog / eingeñ er sá / ad ecke hafe sitt Pund af Gude / eins vel Boondeñ á Akrenum / svo sem Presturiñ i Kyrkiuñe / edur Doomareñ i sijnu Sæke / og aller þesser eru honum eins kiærer / nær þeir giora Verk siñar Kallanar trulega i Otta DRottens / þvi siálfur hefur hñ þm Verked i Hendur feinged. A ecke Smidureñ Leirsens Valld ? Má hañ ecke giora þar af hvad hañ vill ? Rom. 9. Þvi er einsætt ad þioona honum af allre Tru / epter þvi sem hañ hefur sier hverium uñboded / añars erum vier ecke hañs riettet Þioonustumeñ. Eiñ Strijds-Þegn á ecke þar ad standa i Fylkinguñe / er hñ siálfur vill / helldur þar sem Hofdingeñ baud honum. Eg em Madur Yfervalldenu undergefeñ / hafande under mier Strijds-Foolk / sagde Hundrads Hofdingeñ i Capernaum / vid Frelsarañ / Luc. 7. Og nær eg sege þessum kom þu / þa kemur hañ /

 og

og hinum far þu/og hn̄ fer/og Þræle mÿnum giør þetta/og han̄ giør-
er þad: Eins a þad ad vera i Christi Her-Før hier a Jørdune/þar
skal hver sitia/sem hn̄ hefur hn̄ settan̄/þar ine skal hn̄ Gude þioona/
ef han̄ vill þocknast hønū sem valde han̄ til Bardagans/ 2. Tim. 2.
Þvi ecke er þad noog / ad leggia Hendena a Ploogen̄/ en lÿta aptur
til þss sem til Baka er/sa þad giører/hn̄ er ei hæfur til Guds Rÿkis/
seger Lausnaren̄. Seged mier/ Til hvers hefur Gud Manen̄ skap-
ad / nema til þess / ad han̄ skule þioona sier ? Aller Huter adrer eru
Man̄sens vegna skapader / þvi alla þa hefur han̄ lagt under hans
Fætur/Ps. 8 En̄ Madurenn er Guds vegna giørdur/ecke þess vegna/
ad han̄ þyrfte hans med / helldur ad hn̄ skyllde þioona sier/ til ad lifa
þar af eilÿflega. Hvertum er oss skylldara ad þioona/en̄ hønum sem
oss skapade ? Hefur Man̄on nockurn skapad? Vesæll er han̄ til þess/
Vanskapad getur han̄ suma Men̄ / En̄ eingan̄ hefur han̄ skapad nie
Endurskapad. Kalla Men̄ þad ecke Gudlaust Rækkarleyse/ ef Børn
en̄ ei vilia lÿast Forelldrunum til Þioonustu? Og hvad skulum vier þa
um̄ han̄ tala / sem er Fader yfer allt þad sem Børn kallast bæde a
Himne og Jørdu? Til hvers hefur Guds Sonur Endurleyst oss? Seg-
er ecke Lutherus oss þad i Frædinum? Til ad þioona hønum i Riett-
læte og Heilagleika alla vora Lÿfdaga. Til hvers hefur Ande
DRottens kallad oss/helgad og upplÿst med sÿnum Asgiøfum? Mun̄
ecke til þess/ad vier gaungum verduglega þeirre Kallan/hvar iñe vier
kallader erum? Eph. 4 Þvi alyckta eg svo/ad sa sem ecke vill Gude
þioona/han̄ er ecke hns Barn/ecke Christi Læresveirn/og ecke Limur
Guds Kyrkiu. Hvad er han̄ þa? Diøfulsens Barn/Þræll Synd-
aren̄ar/ og Helvÿtis Elldebrandur. Nu er þetta svo sagt um̄ þad
fyrra/ er eg hiet um̄ ad tala.

Hvad hinu sÿdara vidvÿkur / þa hefe eg til Forna i Jñgaungenum̄
sagt/ hver ad sie Meining Frelsarans i þessum Ordum/þo vil eg þvi
hier vidauka um̄ sama Efne / ad þar DRotten̄ seger: EJNGen̄
KAn̄ TVEJmur HERRum Ad ÞJOOna/þa meinar han̄ Tvo/

þa

þa sem eru hver ødrum gagnstæder/þioona kunna Men Foreldrunum/ Yfervalldenu/og Nauunganum/i ølu þvi sm Gud hefur boded/og þo under eins Gude / Hvar fyrer? Þviad sooddañ Þioonusta og Guds Þioonusta eru Eitt/Sa sem þioonar þm sem af Konungenū sender eru/ hañ þioonar Konungenum/Sa sem Konungenum þioonar i þvi sem Gud boded hefur / hañ þioonar Gude. Eins er a hina Sijdana/ sa sem þioonar Mamona/hñ þioonar Heimenū/sa sem þioonar Heimenum/hañ þioonar Syndeñe/ Hver ed Syndeñe þioonar/ hañ er Þræll Syndareñar / eñ hañ sem er þræll Syndareñar / hañ er under eins Þræll Andskotans/ og er þſsu Omøgulegt samañ ad koma/ þetta vottar Paulus/ er hañ seger / Rom. 6. Vited þier ecke / ad hveriu̅ þier gioreſt Þioonustu-bundner/til Hlydnes/hñs Þienarar erud þier/ hvert helldur Syndareñar/til Daudans/edur Hlydneñar til Riettlæte sins. Og þetta Ord/HERRA/merker hier sooddañ Yferrad/ nær eiñ selur sig einum svo alldeiles a Valld/ad hañ añ ad mestu hañs øll Raad: Vel kañ eg ad þioona einum/þoott ecke sie hañ miñ Herra/svo hefur og Gud allddrei bañad/ ad þioona ad Samfum sijnū/helldur leyft ad bruka Heimeñ / eñ ecke ad vanbruka hañ / ecke bañad ad eignaſt Audeñ/ helldur ad festa Hiartad vid hañ / þvi sa þad giører/ hañ er rietttur Mamons Þræll/ hañs Herra er Abateñ og Audureñ/þvi alla Hlute vill hañ til hñs vijña/ og jafnvel ad tapa Saalu siñe/ sem mørg munu Dæme gefaſt/ og er þa eingeñ Þioonusta argare. Nu̅ er fierdeilis med tvennu Moote. Fyrſt / nær Madur safnar Audnum med hveriu Moote/sem hñ kañ/hyrdande eckert um̅/hvert þad er riett edur raangt/edur hversu þrælslegt edur Ohreinlegt þad er/þetta er Skap Løstur sa/ er vier Agyrne køllum. Paulus seger um̅ hana/ ad hun sie Afguda Dyrkun/ Eph. 5. þad er hveriu Orde sañara / þvi hiñ Agiarne hefur ecke añañ Gud / eñ Mamona. Hañ svijfiſt ecke ad ryia Guds volada Saude / til ad fylla Pung siñ / ecke ad sveria vid hañs Nafn/ og þo raanglega a stundum/ef hañ getur ábakaſt um̅ eitt Alnar virde: Ecke þyrmer hañ Kyrkium nie Kieñemøñum/ Konung-

en sviksur han giarnan/ef hann maa/sem er ein Høfud-Skomm/og i einu Orde ad segia: Hann tredur øll Guds Bodord under Fætur sier: Hvad vantar þa til Skurgoda-Dyrkunarennar? Betra er af Illu ad til-bidia Lyknesskiuna/ enn ad vera svo selldur Mammona i Þrældoom / þvi margur sa sem eitt Afgud hefur / hann ætlar þo / ad hann mune hegna vondra Verka / enn launa hin goodu / Og svo hafa flester Heidingiar meint / Enn Agyrndenn hefur eingann Gud / og er þa ei Von ad verra. Þu seger: Eg vil dyrka Gud/ heyra hans Ord/ syngia honum Lof. Eg geing til hans Bords/true a hann/ydrast Synda minna/ verda maa/ ad svo sie. Enn ef þu dyrkar Gud/þa læt mig sia/ ad þu gierer þad ei/ sem hann bannad hefur / edur verdur hann nockud dyrkadur med Rane og Skulde/med Svikum og Prettum/med Lygum og Meinsære: Ef hann er þinn Gud/ef hann er þinn Fader/Hvar er þa hans Heidur? Þu segest heyra hans Ord/hvar eru þa Avexterner? Eru þeir þad sem strax var uppkaled? Siaa til/ad þu ecke heyrer þad til Dooms Afelles þier/þu heyrer þad/svo er þetta. Saadmadurenn gieck ut ad saa/enn þad hann saade/ fiell a medal Þyrna/ þar sem þu ætter Hluten ad / og Þyrnenn uxu upp/og kiæfdu þ/ Hvad þad sie/maattu læra af Utleggingu Frel-sarans/ er hann seger/Matth. 13. Þad sem saad var medal Þyrna/ er sa ed Ordid heyrer/og Umsorgun þessarar Alldar/ og Villa Audsins kiefur Orded/ og hann verdur Avaxtarlaus. Þu lofar Gud ad so ku med Vørunum/enn Hiartad er langt þar fraa/ þad er ut a Bugarde þijnum/ og hiaa Aknautum þijnum. Þu geingur til Guds Bords / enn tekur þo med þier Geste þa / sem hann ecke maa lijda / Siaa til / ad ecke eter þu og drecker þier Doom. Þu truer a Gud/ syn mier Tru þijna af Verkunum/ seger Jacob. Þu ydrast Syndanna/ Lat þa af Illu/ og lær Gott ad giora/ Esa. 1. Annars meina eg þu vilier under eins þioo-na Gude og Mammona / og er þijn Guds Þioonusta þa eingu betre enn Gydinga Fordum/ þeir ed færdu Gude Foorner i Jerusalems Mustere/ enn offrudu þo a Hædunum / og i øllu þessu launar Mammon Þienurum synum illa: Hann sedur þa med Harma-Braude. Paall seger / ad A-

gyrndenn

gyrndeñ sie Root alls Ills/ 1. Tim. 6. Fyrst er hun Root Castaña/ svo sem ædur er sagt: Gud forsmaaer hun / hans Nafn skyrrest hun ecke vid ad misbruka vegna Abatans/ Hvijldar-Daga DROTTens hefur hun til Avinings / Pa geingur heñar Ploogur hvad Rapp-samlegast/ Svo ad hun jafnvel kiemur pa ødrum til ad syndga/ For-elldrum/Bornum og Næfrændum pyrmer hun ecke. Margur hefur veged Mañ til Fiaar / Ecke ætla eg ad sumer Meñ sieu vander ad Hluk sijnum i Skijrlijfenu/þegar Fied er i Bode. Vm siøunda Bod-orded vil eg ei tala: Hun a par heima/ og hvad er lijdara/eñ ad liuga vegna Abatans / og giøra sig falañ til ad bera Liugvitne / Eñ ecke einasta fremur hun þetta moote Gude og Naunganum/helldur kvelur hun siñ eigeñ þræl/ svo pad mæ uñ hana segia/sem David seger uñ hiñ Ogudlega / a medal hverra Fie Pukeñ er hiñ meste / ad hans Plaagur sieu margar. Helvijte og Glotuneñ verda alldrei fylld /seger Salomon/ Prov. 27. Svo eru og Augu hiñs Agiarna / þess meira hañ dreckur/ þess meira þirster hañ / eins og hinar mogru Pharao-nis Kyr/ svo er hiñ Agiarne / þegar pær høfdu uppeted hinar feitu/ pa sæst pad ecke/ ad pær hefdu komed i Maga þra/seger Ritningeñ/ Gen. 41. Rett eins z Ovidius Skalld kvedt uñ Erisichthonem Gud-Nijding/ad þess meira sem hñ æt/ þess meira svallt hañ/Fylleñ vard honum Orsøk til æ meira Hungurs/ svo þegar hañ hafde sellt Al-eigu sijna fyrer Mat / pa sellde hañ Dootkur sijna / og sijdast allra took hñ ad naga sijna eigeñ Limu. Svo er og hinum Agiarna vared/ pad hñ fær/pad fyller hañ ecke/ Hañ er eins sollteñ epter sem ædur/ Ecke sparar hañ Vine nie Frændur/ og þegar hañ nær eingu/pa et-ur hañ sitt eiged Hiarta/af pvi/ad hñ getur ei uppeted Hus Ecknа z Fødurlausra. Mørgum af þessum Mammons Pukum lijdur Drott-eñ ad fylla Kornhlødur sijnar/og adrar Hyrdslur med Auranægt. Eñ þess vita Meñ og nockur Dæme/ad þess meira þeir nidursæ i Kaang-lætenu/ þess miña uppskiera þeir/ nema i Skadsemdene / svo ad Hyrd-slur þeirra eru eins og Ohiett Lagar-Fat/sem ecke helldur pvi/ sem i

pad

þad er læted. Þess getur Salomon/ Prov. 11. er hann seger: Einn uk-
byter sijnu eigenn/ og verdur rijkare/ annar inneheldur þar sem ecke skal/
og er jafnann fatæku:. Þetta er riett ad eta/ og verda þo ecke metkur/
og ad drecka/ z verda þo ecke drucken. Hinn ønnur Þioonusta Mammons/
er su/ ad liggia of-fast a þvi/ sem einn a/ eins og Moab a Dreggium
sijnum/ jafnvel þoott velfeinged vera kunne: Ad sønnu eru þetta adgreind
er Lester ad nockru leite/ enn þo nærsta skylldar hver ødrum. Til eru þeir
ad vijsu/ sem taka allt fra øllum/ sem þeir naa/ enn læta þo
eckert af Hende rakna vid nockurn/ þeim er hvad verst vared/ og
opklega plagar sijkt ad halldast i Hendur: Hins eru og Dæme/ ad
sumer Menn eru ecke nøog ansælner/ enn vilia þo eckert ufelæta/ þessa
kalla Menn nijdska/ og er hann ad sønnu Illskærre enn hinn/ enn þo samt
Mammons Þræll/ ecke munar þa nema i þvi/ ad þegar Mammon skip-
ar/ þa fer hinn Agiarne/ enn Nijdingurenn hefur ecke svo miked Walld
yfer honum/ ad hann giefe reked hann ur Stad: Jafnvel þoott hann
eige øll hanns Rad/ þa lætur hn svo dælt ad hønum/ svo sem Mooder
ad einka Syne/ og vill ecke giøra hønum Omak. Lijker eru þeir
Sadducæis/ er ecke villdu giøra a annars Hlut/ Ecke villdu þr helldur
neinum Gott giøra/ þeir eru Brædur Nabals/ er ei villde giefa David
Mat/ þegar hn mællte til þess i Naudsyn sinne/ og hafde þo til Matar
unned/ 1. Sam. 25. Ja/ þeir eru argare enn Nabal/ þvi hann tijmde
ad læta epter sier og Nyske sijnu/ enn þessum er svo Audurenn sar/ ad
þeir neita sijnum eigenn Lijkama umm Naudsynlega Hlute/ Ecke hafa
þeir lesed þad er Salomon skrifar/ Prov. 3. Hinn Riettlate etur svo
miked sem hann vidþarf/ enn Maga hinns Ofrooma vantar alltijd/ og
enn sijdur þad hann ritad hefur i Predikunar Bookarennar 6. Cap.
Þar er ein Olucka er eg sa under Soolunne/ og hun hin mesta yfer
Mønnunum: Einn Madur fa ed Gud giefur Rijkdoom og Audæfe/
og Heidur/ hvers Hiarta ad eckert vantar/ og Gud giefur hønum þo
ecke Magt til ad neyta þess hinns sama/ Svoddann Opockar sialfs
sijns eru þo nockrer/ svo langt er fra þvi/ ad þr klæde edur mette Brood

ur

ur edur Systur/ nær þeir sia þau Nakeñ/ edur Hungrud/ og er þetta hiñ meste Prældoomur / þad er riettkallud Afgudadyrkun / þad sem Christner Meñ ællu ad giora Gude til Þioonustu/sem er ad þvinga Lykama siñ/ og giora hñ ad Præl/þad sama giora þr vid Mamona. Seged mier/ Er hñ þa ecke þeirra Gud? Vere þeir nu samañ s m lesa þetta/hverium betra sie ad þioona/Gude edur Abatanū/ Hverneg ad Gud ale Hñ fyrer synum Þienurum/þad er ꝼmdur sagt i hinum fyrra Partenum / eñ hverneg Mamon fare med syna / þad hefe eg i hinum Svara talad uñ/med faam Ordum/ þvi vil eg segia vid ydur/ Christi Born/Med sama og Josua sagde vid Jsrael skomu fyrer Andlaat sitt/ Jos. 24. Seged hvert þier vilied þioona Jehovæ Gude ydar/ edur ei/ Eñ þeir svorudu aller: Vier vilium þioona DRottne Gude vorum: DRotteñ miñ og Gud miñ/gef þu oss þ Sinne/ ad þad s m þr jatudu med Muñenū/meigū vier med Hiarta/ Orde og Verkum uppfylla/allt til Enda vors Lyfs/svo vier meigum ur Bystum bera Coronu Lyfsins/

Hveria þu Konungur Nadarenar giefa munt ollum þeim/sem
elska Tilkomu þyns Sonar. Vanheyr þ fyrer hñs
Skulld og Forþienustu/ AMEN.

## Sextanda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Luc. 7. Cap.

Þañ Tyma. Og þad skiede so epter þad/ad JEsus gieck til þeirrar Borgar sem kallast Naim/og hañs Lærisveinar geingu marger med honum/og mikell Fiolde aɼars Folks. Þa er hañ kook ad nalægiast Borgar-Hlided/Sia þu/þad framlideñ Madur var boreñ ut / einka Sonur siñar Moodur/ og hun var Eckia/ og mikell Fiolde Borgarmaña gieck ut med heñe. Eñ þa ed DRotteñ leit hana/ hrærdest hañ Myskunar yfer heñe/og sagde til heñar : Grætt þu eige. Og hañ gieck þar ad og ꝼhrærde Kist-una. Eñ þeir sem bæru stoodu vid. Og hañ sagde : Þu Ung-meñe/ Eg seige þier/ Rys þu upp. Og sa settest upp sem framlideñ var/ og took til ad mæla/og hñ gaf hñ aptur siñe Moodur. Eñ aller

urdu Ottaslegner/ Tofudu Gud og sögdu: Spámadur mikill er á med al vor upprisen/ og Gud hefur vitiad sijns Folks. Og þesse Saga barst ut af honum/ umm allt Gydinga Land/ og umm öll krijngum liggiande Hierød.

## Exordium.

Komm madur enn Drottenn giörde þetta mikla Kraptaverk/ sem þessa Dags Evangelium hermer oss/ þa flutte hann þa mægtugu Predikun fyrer Lijdnum/ sem skrifud stendur i nærst fyrerfarande Capitula / Lucæ 6. Hver og er af Matthæo uppteiknud i hans Gudspialla 5. Capitula. J henne standa medal annarra þesse Ord: Sæler eru þeir sem harma/ þvi þeir munu hlæia. Matthæus seger oss þad a þenna Hatt / þeir skulu huggader verda/ sem er allt hid sama/ þvi þar heyrer eingenn Sorg til ad giöra sig gladann/ seger Ordtæked/ og eingenn hlær/ nema hönum sie gladt i Hug/ og gladur er eingenn / nema hann huggadur sie. Þad er Addæanlegt ad Hugleida / hvörneg Frelsarenn a Dögum Holldz Vistar sinnar hefur vijslega hagad sijns Embættis Vtrietktingum/ Margt þad sem ad i gremdre Predikun stendur/ þad er gagnstædt Hollde og Bloode/ hvoriu ad öll Typtan þyker Sorg og eingenn Glede ad vera medann hun aliggur/ seger Paulus/ Heb. 12. Og giæter ecke þess/ ad epterá gefur hun Fridsamlegann Avöxt Riettlætesins. Enn til þess / ad hinn goode Meistare færde Sönnur a Mal sitt/ þa giörer hann sier Ferd ur Capernaum til Borgarennar Naim/ til ad styrkia med þessarre Jarteikn hvad hann adur talad hafde. Eingenn skal meina ad þetta hafde sked af Hendingu/ ad Drottenn mætte þessare Lijkfør/ helldur fyrer þvi hann visse alla Hlute/ þa hefur sa ann Efa vered Tilgangurenn/ sem nu hef eg adur sagt/ og þar ad auke ad gefa öllum Sorgbitnum Eckium og Munadarlausum eitt Æfenlegt Huggunarennar Dæme/ og fullrar Vonar og Trunadartrausts umm sijna Hiartgroona Myskunseme yfer þm/ ad hann vilie vera Fader Födurlausra / og Forsvar Ecknanna/ Davi. 10. Ps. 68. Og fyrer þvi ad þetta Heilaga Gudspiall er nærsta

Glede

Gledelegt ad Hugleida/fyrer alla þa sm̃ þreya epter Askvine sijna/sm̃ þeim i Lijfenu hafa til Glede og Adsloðar vered / þa vil eg af þvi Tvent yfervega. 1. Hvad Eckiurnar eige ad hugga sig vid i sijne um Einstædingskap. 2. Hvad þeim eige til Huggunar ad verda er missa Børn sijn/ jafnvel a unga Alldre.

Eñ þu sm̃ ert Fader yfer allt þad sm̃ Børn kallast bæde a Himne og Jørdu/ Styrk þu Mæl mitt/ og Tilbu svo Hiørtu Barna þiña/ ad þetta þitt Eyrende mege vel takast/ J JEsu Nafne/ Amen.

## Vtleggingeñ.

HJer stendur i Gudspiallenu um̃ Moodur þessa Vngmeñes/ad hun hafe Eckia vered / þad Stand hefur jafnañ hallded vered aumt og Oskiemtelegt/sem og ad Lijkindum̃ lætur/ David veit valla añad Lijkara ad Oska / hvert helldur sijnum edur Guds Ovin/ eñ ad Børn hañs skule verda Munadarlaus / og hañs Kvinña Eckia / Ps. 109. Vonder Omagar eru Fødurlauser/og Mædur vorar svo sem Eckiur/ seger Jeremias i Harmagrætnum/ 1. og 5. Cap. Nu er þad vijst/ ad slijkt er Reide Teikn DRottens a Stundum / og Straff Syndaña / eins og hvert añad Mootlæte / Eñ hverge nærre allteid/ þvi valla er nockurt Stand i heilagre Ritningu um̃getid/sem hiñ Almættuge vill helldur taka i Forsvar/eñ Eckiudoomeñ/ þvi fyrer utañ þad/ad hañ vill siælfur vera þeirra Forsvar og fæda þær/þa hefur hñ sier i Lage gefed þm̃ Verndar Bref i sijnu H. Logmæle/a þeña Hætt: Eingre Eckiu edur Omyndugum skalltu Pijning giøra / ef þu sijner hønum Pijning nockra/ (þvi ef hañ ad eins kallar til mijn/ þa vil eg Bæn heyra hañ) þa skal mijn Reide breña / og eg skal slaa ydur i Hel med Sverde/ Svo skulu ydar Konur Eckiur verda/ og ydar Børn Fødurlaus/ Exod. 22. Og eñ seger hañ: Eckiuñe og Omyndugũ skalltu einga añ Skada giøra. Hefur hañ ecke skyckad þeim siñ Hlut af Tijundunum / Devt. 14. Vijdur hañ ecke ad kalla þær framar ødrum til Almeñelegrar Mæl Dryckiu fyrer DRottne/ Cap. 16. Jaa/ hañ hefur sier i Lage um̃boded Vallstiettteñe / ad þeir skule dæma Mæl hins

 unga

unga Mañs og forsvara Eckiuna/ Esa. 1. Jafnvel þoott eg alle ad
valla sie nockru Guds Bodorde midur hlijdt eñ þessu af sumum Möñ-
num. Oskande være/ ad ei fyndust þr/ ed sialfer hafa Eckiurnar fyr-
er Fe / og giora þær sier ad Ráne/ svo sem Esaias ad Orde kiemst/
Cap. 10. Hefnast a þeim og þeirra Munadarlausum Børnum / ef
þr þooknst eiga Fødur þra nockrar Heipter ad gialda/ eñ feingu ecke
stoled Hefndeñe fra Gude a medañ hañ lifde: Svoddañ er hin mesta
Lødurmeñska / sem eiñ Hugprudur Tyrke er villde verda fundeñ ad /
og þo skammast ecke sumer Christner Meñ sijn ad æfa þetta Blygdun-
arlaust/ svo hoppa þesser Myslingar a einu daudu Leone/ sem þeir þo
ecke þordu ad geispa a moote/ a medañ þad hafde Muñeñ opeñ. Lijk-
ed nema þeir til hiñar skielfelegu Bølvunar/ er DRotteñ leggur yfer
þa/ sem umhverfa Riette Eckiuñar/ Devt. 27. Edur hins/ ad Rit-
ningeñ telur þad med hinum hellstu Orsøkū hiñar Babilonisku Her-
leidingar/ ad þeir dæmdu ei Malefne Eckiuñar / Jer. 22. Nu vil
eg sleppa þessu/ eñ hverfa aptur til hins er eg skildest vid: Þesse Kvinna
var Eckia/ Lijklegt er ad Madur heñar hafe burtkallast a sijnu besta
Alldre/ hvad þar af ráda má/ ad hañ hafde heñe epterlated eiñ ein-
asta Son/ sem ad eñ þa var Vngmeñe. Þetta var stoor Sorg/ hveria
hun gat ecke duled/ þvi sagde Frelsareñ vid hana: GRAAT ÞV
EKKE / og þetta Mootlæte heñar var svo miked / ad Bæar-Meñ
sampijndust heñe/ þvi seger i Textanum: AD MIKILL FIØLDE
ÞEirra HAfe GEINGed Ut Med HEñe. Lærum þad af þeim/
ad grata med Grætendum/ og hafa Medaumkun med þeim er i slijkar
Rauner rata / svo giørde hñ sem best kañ ad sampijnast Eymdū vorū /
þvi Gudspialled seger: Ad þegar DROTTeñ LEit HAna / þA
HRÆRDest HAñ MYSKunar Yfer HEñe / og fáum vier safn-
añ Orsøk þar til/ þvi ecke lijdur a Stundum langt a millum þess/ ad
svoddañ tilfellur. Mørg vokud Eckia a þvilijkt til Bruñs ad bera:
Eñ ut af þessare Medaumkun Frelsarans take Eckiurnar sier hina
mestu Huggun/ Strax sm hñ sa þessa sorgande Konu/ þa hrærdest hñ

af

af JEsu M. S. Daumkun/ seger Textenn: Ecke giører hann þ sofdur nu/ helldur enn þa hann umgieckst i voru Hollde/ enn nu er upphafed til Kraptar sins hægre Handar/ hann hefr Likel Lijffsens og Daudans/ Barn mitt/ hafe þvi Daudenn griped Hendenne inn i Hus þitt / og veitt þier eitt miked Saar/ þar hann hefur teked Helming þijns Hiarta burtu/ og giort Børn þijn Munadarlaus/ þa vit/ ad þad er ecke skeed ann hans Radstøfunar/ Einga Magt hefde Daudenn haft yfer þijnum kiæra Egta-Mañe ann hans Leifes/ J hvers Hende ad er øll lifande Saal / Audmijk þig þess vegna under Volldugа Guds Hønd/ og seg med David/ Eg vard Mallaus/ og talade ecke/ af þvi þu giørder þad/ Sierdeilis þar þu hefur þo ecke tapad þijnum Egta-Mañe/ Meina ecke/ Barned gott/ ad sialfur Giæstumar Brukur sie eins lyndur / og sumer Opockar i Heimenum/ þeir ed aptur taka þad þeir gæfu/ helldur vil eg hier um segia eins og Paall sagde um Onesimum vid Philemonem: Hann er um Stundarsaker vidskilenn/ svo þu hallder hønum Eilijflega. Hann er ecke daudur/ ad þvi Leite sem vidkiemur Saalunne/ þvi Gud Abrahams/ Jsaacs og Jacobs/ hann er ecke Gud Daudra/ helldur Lifendra/ seger Frelsarenn/ þar fyrer er hann ecke daudur/ helldur kalladur fraa Daudanum til Lijffsins/ Fraa Volæde þessa Heims/ til eilijfrar Sælu/ Fraa Selskap vondra Manna/ til Samfelags heilagra Engla. Ja/ hann er helldur ecke daudur/ þad Lijkamann ahrærer/ helldur sefur hann/ svo sem DRottenn sagde um Høfdingians Doottur/ Matth. 9. Þad stendur Afenlega stødugt/ er Frelsarenn sagde: Hver sem truer a mig/ þad skal skie/ ad þoott hann deye/ þa skal hann samt lifa/ Joh. 11. Þar fyrer/ þott ad þad sie Natturlegt/ ad syrgia Astvine sijna/ þa er ecke svo stoor Orsøk þar til/ þvi vier høfum ecke mist þa/ helldur eru þeir undann oss farner i eilijfa Sælu / enn Lijkamenn hvijlest af Erfide sijnu inn til þess Dags ad DRottenn uppvekur hann/ og giører Einguñ jafnann/ Ja/ samlijkann sijnum Dijrdlegum Lijkama/ Phil. 3. Nu er þad vijst/ ad eckert Guds Barn misann sijnu Egta-Hiarta hvilijkrar Salu/ enn þad er Veikleike vor / ad Menn syrgia sinn eigenn Hag / og sinna Epter-

lætesta/ þeinkiande meir a hid Nærveranda/ eñ hid Epkerkomanda. Eñ hvþa til þess/ Barn mitt/ ad Gud hefur kanske þiñ Egta-Mañ i burtu teked til siñar Dÿrdar / uppa þad þu skyllder hafa allt þitt Traust / alla Von / alla Glede og Unadsemd i sier einum / og Fognud af þvi/ad sia og reyna siña Nad a þier/ og vid þig og þiña/ nær oll Mañleg Hialp er ute/gior svo/þar af hefur þu tvøfallda Nytsemd/þa einu/ad þiñ Sala gledur sig i Gude Heilsugiafara þiñum/ hver Fognudur ad yfergnæfer allañ Skilnaþ / og drepur alla Sorg/ Allt Mootlæte giører hañ liett. Hina adra/ad a medañ þu ert svo Skape farenn/þa er þad Feste-Bref uppa Guds Rijke/ þad er Pantur þess/ad þu muner fagna med þiñum Egta-Mañe i himneskre Salu/ Eilijflegana med Gude og hañs Heilogum. Lat þvi sia/ad þu tileinker þier þad sem DRotteñ seger vid Jsrael/Esa. 54. Sa sem hefur skapad þig/hañ er þiñ Madur/DRotteñ Zebaoth er hañs Heite/ og þiñ Lausnare/sa Heilage i Jsrael/ hvern oll Verolldeñ Gud nefner. Hvar fyrer græter þu/og þvi ber þitt Hiarta sig svo illa? Er eg þier ecke betre eñ tiju Syner? sagde Elkana vid Konu siña Anñu/ 1. Sam. 1. Og hvad miklu betre er þa Gud Himnañа / helldur eñ eiñ daudlegur Madur/vilie hañ ganga þier i Mañs Stad/Hvada Naud hefur þu þa? Hañ er noogu vijs til ad Radleggia þier/ noogu rijkur til ad forsorga þig/nogu mattugur til ad forsvara þig/nogu Giæsku rijkur til ad hugsvala þier: Hvers villtu framar æskia? Eckiur og Munadarlauser hafa stooran Rett i Himneñu/svo sem adur er sagt: Þegar DRotteñ leit Eckiu þessa / Þa HRærdest HAñ Af JNstu MEDaumkun YFer HEñe. Nun hefur kanske ecke þeckt DRotteñ/ edur ecke sied hañ/ þvi sorgande Mañeskiur geingu med huldu Hofde heim Gydingum/ Nun hefur og ecke Orde utkomed fyrer Harme / svo hun giæte beded hañ / og þo gaf ecke Brunnur Giæskuñar halloed sier. Hañs Hiarta brast i honu/svo hañ hlaut heñe Myskunsamur ad vera/ strax sem hañ leit Eymd heñar/ med einu Orde/ einu Atvike þurkade hañ oll Taareñ af Augu heñar. Þegar þær Ruth og Naemi

voru aldeilis Munadarlausar / þa sende Gud þeim Boas / Ruth. 2. Þegar Ecktian i Sarepta og hennar Sonur voru adkomenn Dauda i Atvinnuleyse / þa baud Gud Eliæ ad baka Brest hennar / Mun hans Hønd enn nu stutt vorden: Er honum nockud apturfared/ sijdann hn̄ er hafenn yfer alla Himnana? Nei/ Nei/ ulrielt er hun enn nu i Dag til allra þrra/sem a hn̄ vona/og þoott hann reyne sijna a stundum/ þa efest eingenn umm Sannsøgle hans/edur ætle sig yfergiefenn/ Hann gat halldet Manne Ekkiunar Ecktu vid Lijfed/ hann gat læknad Son hennar a Banasængenne/Enn hier færde DRottenn Sønnur a Mal sitt/ er hn̄ skømmu ædur talad hafde / ad saler være þeir sem harma/ þviad þeir mune huggader verda/ þvi miklu meire var Fognudur þesse / ad hn̄ gaf hennar aptur Son sinn/sem daudur var/helldur enn þoott hn̄ hefde læknad hann Daudsiukann. Take þvi þier til Hugar koma/Guds Barn/ad þoott Daudenn hafe sliced þad Band umm Stund/sem var a millum þijn og þijns Egta-Manns/ þa er þo ecke sliked þad Einingarennar Band/ sem hefur bunded Hiarta þitt vid Gud/hver alleina hefur Odaudleikann/hver og hefur trulofad þig sier ad Eilijfu/i Nad og Myskunseme/i Riettlæte og i Doome/Hos. 2. Ef þu elskar hann/þa er ecke ad ugga hans Elsku til þijn/ hann vill vera hiaa þier i Neydenne / og þier þadann ultryckia / allar þijnar Andvarpaner heyra / øll þijn Tar reikna / og hella þeim i sinn Siood/og sijdann afþurka med eilijfre Glede/ og þoott ad þu meiger siaa a Bak þijns kiæra Egta-Manns umm Nrijd/ þa er þ stutt hiaa Eilijfdenne/hvar þid munud umm Allder Allda samfagna/ann ockurs Kvijda fyrer þvi/ad skiliast framar. Seig þvi ecke/ eg er af øllum forlatenn / medann þu hefur ecke Gud forlated / mun hann þig alldrei forlata/ Treyst þvi ad fullu / ad þad sem DRottenn seger vid Christnena/hiaa Esajam Cap. 54. þad vill hann til þijn sagt hafa/ svo sem eina forlatna Konu/og Sorgbitna/ þa kallar DRottenn þig aptur/Fyrr skulu Fiollenn ur Stad vijkia/og þessar Hæder nidurfalla/ enn ad mijn Nad vijke fra þier/edur minn Sattmæle nidurfalle/seger DRottenn þinn Myskunare. Jaa/hn̄ sem er trur/og sialfur sier ei kann ad

Neita/

Neita/ seger Postulen. Øll Vmsorgun og Vmhyggia Buskaparens liggur nu a þier/ sidañ Gud took þin Mañ fra Sijdu þiñe/ hvar til þess er David seger/ Ps. 68. Gud leggur oss eina Byrde uppa/ eñ hañ hiaapar oss ad bera/ Vantreyst honum ecke / sem bar allañ Israel i Eydemørkuñe/ svo sem ein Mooder ber siñ Son / seger Moyses / Edur hañs Syne/ hver ed ber alla Hlute med Orde siins Kraptar/ ad hañ giete ecke hiaalpad þier / til ad bera þad hañ hefur siaalfur þier a Herdar lagt / Haf þijna Vnadsemd i honum / hañ hefur lofad ad giefa þier hvad þitt Hiarta gyrnest/ Fiñest þier Byrdeñ þung/ þa varpa allre þiñe Ahyggiu uppa hñ/sem þvi mun vel til Vegar koma/ Og er þad nu svo um̃ hid Fyrra ut.talad.

Hvad hinu Sijdara vidvijkur/ þa reyna Meñ þad opt lega/ ad Forelldrunum fellst ecke miña um̃ þad/ nær þeirra Børnum verdur fyrer Tijmañlegañ Dauda burtu kipt / helldur eñ þo ad hvert misse añars/ sierdeilis/ ef þad eru einka Børn/ svo sem hier a stoodst/ OVi HAñ Var EINka SOHur SINNar MOODur/ seger i Textanum. Og þar ad auke / ef ad þvilijk Børn eru lijkleg til Giæfu / og Meñingar/svo þau giæte sidañ Gude og Fodurlandenu med Sæmd og Æru þioonad/og ecke verdur þvi mooke sagt/ad stoor Hørmung lææ a Kvinnu þessare/ þar Daudeñ hafde rænt hana fyrst siinu Hiartkiæra Egta. Mañe / og þo a heñar besta Alldre / og þar ad auke siinum Einasta Syne / einñig i siinu Æsku-Bloome / hver æn Efa hefur vered heñar einasta Ynde og Adstood i heñar Munadarleyse/eñ þ eykur miklu hier a / ad þad var eitt Brixle halldeda þeim Døgum fyrer Kvinnurnar / ad læta ecke Sæde epter i Israel/ þvi allar gyrntust ad vera Mædur ad Messia/ og ecke hefur þad einasta Læging þoott Obyria ad vera/ helldur og hilt ein stoor Sorg/ ad missa Børn siin/og eiga kañske ecke Von til añarra/ þad sie eg a Tæme heñar Sunamitisku/ er sagde vid Elisæum / nær Sonur heñar lææ Andvana / 2. Reg. 4. Beidda eg miñ Herra nockud um̃ Son? Sagda eg ei/ prettka mig ecke? Svo sem hefde heñe þoott sa Kostur lietttare/alldrei ad hafa Barn fædt/helldur

ur eñ ad Syne hennar hefde vered i burtu svipt / og nu sie vera af Iarne gior / sem ecke vorkeñer þeim svoddañ Mootgang / sierdeilis / Þar Guds Ande setur oss þetta til Dæmes um̃ hina mestu Sorg / þar hañ seger / Amos. 8. Ad Harmkvæle Gydinga skule verda eins og Harmur epter eiñ Einasta Son / þ sama Jtrekar hñ hia Zacharjam / Cap. 12. Þvi er svoddañ miøg Nattuurlegt og eingum ad lá / þo skulu Christner Meñ haga sier i þessu svo sem Guds Børn / og láta hañ raada / sem alls Raad á bæde á Himne og Jørdu. Hinar sømu Røksemder skal ad søñu til þess hafa / ad bæta Sorg sijna i þssu Tilfelle / og hinu / er i fyrre Greineñe var um̃talad / Seg mier / Christeñ Madur / Hefur þu ecke Barn þitt af Gude ødlast ? Svo seger David / Ps. 127. Børneñ eru Guds Giafa / og Lijfsens Avoxtur er eiñ Skienkur / Þau eru ecke svo alldeilis vor Børn / ad þau sieu ecke miklu framar hañs / sem er Fader yfer øllu þvi er Born kallast bæde á Himne og Jørdu / þvi nær hañ gaf oss þau / þa gaf hañ þau med þeim Skilmaala / ad honum være frialst ad taka þau til sijn nær hñ villde / Eda giørum vier ecke svo hver vid añañ ? Þoott eiñ láte Barn sitt til Vinar sijns um̃ Stund / mun þad ecke standa i hañs Vallde / ad láta þad til sijn aptur hverfa / nær honum lijkar / Ætlumst þvi ecke til / ad Gud mune hafa miñe Riett yfer oss / og Børnum vorum / eñ vier þykiumst yfer þeim hafa / Seg þvi midt i Sorgeñe / midt i Harmenum eins og Job / hvern Gud svipte ecke einasta øllum Børnum sijnum / helldur og allre Aleigu siñe i einu Vetfange / Job. 1. Gud gaf / og Gud aftook / sie Nafn DRottens blessad. Ef þu ert Guds Barn / (þvi fyrer þeim vil eg sier i Dage þetta talad hafa) Ef þu ert siálfur Guds Barn / sege eg / þa veit eg / ad þier hefur um̃hugad vered / ad fela þessa Guds Giafu honum siálfum á Hendur / ad Barn þitt mætte hañs Myskunar og Forsioonar i øllu niooта / Eñ allra helst muntu hafa Um̃hyggiu bored fyrer þess eilijfre Velferd / ad þad mætte Gude sem kiærast vera / og sem mest vardveitt fyrer Andskotans / Heimsins og Hollðsins Vielum / hier um̃ muntu Gud beded hafa i øllum Bænum

Ff þijnum /

þijnum / meir eñ um̄ langa Lijfdaga: Seig mier / Hefur þa Gud ecke Bænheyrt þig / er hañ hefur teked þad burt ur Þrældoome Heimsins i Sælu Himensins / fra Viñsatrum Diøfulsins til Guds Barna Frelsis / fra Ofrijke Holldsins / til þijns og þess Fødur Rijkes / hvar þad mun skijna svo sem Sool um̄ Allder Allda. Hier skilst þetta lijtt kañ skie / a medañ Sorgeñ er sem brædust / Eñ læt þa svo sem Christur seige vid þig hid sama / er hañ sagde vid Petur fordum / þa hañ ei villde læta DRottenn þvo Fætur sijna / Hvad eg giøre / þad veitstu ecke nu / eñ þu munt þad sijdar þeckia / Joh. 13. Þier munde vænt um̄ þikia / þu munder af Hiarta gladur verda / ef Gud giæfe þier Barn þitt aptur / eins og Eckiu þessare / Eñ eg vil svara þier eins og hañ svarade þeim i Nazareth fordum / Margar Eckiur voru a Døgum Eliæ / eñ til eingrar var Elias sendur / nema til Eckiuñar i Sarepta i Sidons Lande / Luc. 4. Gud veit hvad hañ vill giøra / eckert giører hañ til Onytis / Tilgangur DRottens i þessu Kraptaverke er audsieñ. Firsť er sa / ad hañ sijnde bæde þier og øllum Sorgbitnum / ad hañ bæde villde og kuñe ad samþijnast Eymdum þeirra. Hiñ añar / ad hañ Auglijste þad hañ Gud være / sem ad hefur Valld yfer Daudanum / þvi þesse var hiñ Fyrste af hinum Daudu / er hañ uppvakte a sijnum Hiervistar Døgum / eñ sijdañ ad hañ hefur hvertveggia þetta med mørgum Røkum stadfest / hver Naudsyn ber þa til þess / ad hañ umbreyte sijnu Løgmale og þoott þu mætter þañ Kost eiga / ad Barn þitt hverfe aptur i Verølldena / hvilijk Fávitska være þad / ad selia Rijkdoom fyrer Armood / Heilbrygde fyrer Siukdoom / Glede fyrer Sorg / og hina allra sætustu Roo og Hvijld fyrer allskonar Andstreyme og Erfide / þad være ad hata / og ecke ad elska Barn sitt / ef rett er alited / sierdeilis þar hitt er Vtvølldu Guds / sem i DRottne dauder eru / þeir lofa Gud Oaflatanlega fyrer sijna Endurlausn i Himnenum / þvi skylldu Meñ þa syrgia þeirra Burtfør af Heimenum / allra helst þar vier høfum ecke mist / helldur undañ oss sendt / og munum fiña eitt heilagt Barn fyrer Syndugt / Odaudlegt fyrer Forgeingelegt / og Englunum samiafnt /

fyrer

fyrer þad sm̃ ꝺdur var þo ecke nema Molld og Aska/ Leited þvi Børn
ydar til DRottens ad koma/ Christner Meñ/ og bañed þeim þad
ecke/ og seged eins og Baruch vid hina Nerkeknu i Babilon / Baruch
4. Eg hefe læted ydur burt med Harme og Grate/ eñ Gud mun skila
ydur mier aptur med Glede og Fognude eilijflega. Eg veit ad mørg
um er þad stoor Harmur/ ad missa eitt Einasta Barn/ sm̃ var Giæfu
legt/ og vel ad sier um̃ alla Hlute/ Eñ Hugleid þo Christeñ Madur/
ad Gud gaf siñ eigeñ og Einasta Son ut fyrer þig / i hveriu m hañ
alleina hefur sijna Velþocknan/ ecke til ad bada i Roosum/ helldur til
þess/ ad ecke hefde hañ þar hañ mætte Høfde sijnu halla ad/ Luc. 9.
Ecke til ad lata sier þioona/ helldur til ad þioona ødrum/ ecke til ad
lifa i Sælu nockre/ jafnvel þoott hñ mætte þa vel Sælu hafa/ helld-
ur til ad þola Krossen/ Hebr. 12. Þetta giørde hañ/ sem þier var um̃
eckert skylldugur / Ojafnt hafest þid ad / sem ert hønum skylldugur
bæde um̃ þig og Barn þitt/ ad þu ængrast af þvi/ ad hañ flutte þad
i Eilijfa Sælu / sem hañs Sonur hefur þvi med siñe Kvøl afrekad:
Hversu giørfuglegt sem þad var/ þad var þo alldrei svo veglegt/ svo
sem hið Frijdaste medal Mañaña Barna/ Ef Gude og Fødur þockte
hñ ecke Ofgoodur i Kvalernar/ Hvar fyrer skyllde þier þa þykia Son
ur þiñ Ofgoodur til Dijrdareñar: Þu villder hafa hønum Stoor-Fe
epterlæted i Verølldeñe / mun þad vera betra eñ hañs Arfa-Hlute i
Lande lifande Maña? Misiafnt fer um̃ Arfana hier i Verølldeñe /
Eñ Petur seger oss ad þesse Arfur skemest ecke / 1. Pet. 1. Nooger
eru Erfingiarner/ þoott eiñ deye Barnlaus/ sieu ecke adrer/ þa er Fød-
urlanded / þa eru Guds Volader / gior þeim Gott medañ þu lifer/ og
hefur þu Fe-Stood a Himnum. Sonur þiñ doo burt i sijnu Æsku-
Bloome/ eñ eingeñ veit Æfe sijna fyrr eñ øll er : Vor fyrsta Mooder
fagnade nærsta miøg hinum fyrsta Mañe/ sem i Heimeñ var fæddur/
eñ þad villde ecke svo rektast ur fyrer hønum. Eli Høfud-Prestur
liet dætt ad Sonum sijnum/ 1. Sam. 2. þo voru þeir Skalkar. Vant
þockte David um̃ Absalon / hverneg hañ launade hønum/ þad er al-

 kuñugt:

kunnugt. Þu þyk:ist vita/ ad ei var Barne þijnu hætt vid Sijkn/ svo er þad/ hverium af oss þyker sinn Fugl fagur. Enn þegar ad Gud hefur ad fullu raaded Son þinn sier til Handa/ þa hefur hann teked þessa Umsorgun af þier / hann er þangad komenn / hvar hann ecke skal vega sinn Brodur / ecke vanvyrda Guds Þioonustu / og ecke giora Uppreist i moote Fodur sijnum. Þu villder hafa sett hann til Menta/ ad hann lærde allar Heims Speke/og oll Tungumaal: Heir mier/Guds Vinur e Eingenn er þvilijk Speke sem ad deyia vel / og þar ad æ oll Speke ad luta/ annars er hun Onijt. Hann kunne ecke svo margar Tungur sem þu villder/ þoott hann kunnad hefde/ Munde þad hafa gagnad honum til Himmarijkis? Packa Gude ad hann er þangad komenn/ hvar Tungumaalunum slotar/ enn Kiærleikurenn varer Eilijflega/ 1. Cor. 13. Noogur Vijsdoomur er þad/ ad hann þecker Gud/ svo sem hann er af honum þecktur/ og talar Einglanna Tungu. Adgreining Tungumalanna er Straff Syndarenar/ enn þad er Naad Guds/ ad Tunga hinna Maalhölltu skal tala riett/ Esa. 32. Svo veit eg og ad hver Utvaldra mun skilia annan / og ad þetta fullkonnast i Himnarijke / þar skal ecke Barn þitt þola marg Hogg fyrer sinn Lærdoom/ ecke Otta st fyrer/ hvert þad mune vinna edur tapa i einu Pratu-Maale / ecke helldur æra sig i Reikninge Stiarnanna/ edur Mælingu Himensins/ nær þær eru dottnar/ enn hann samann vafenn eins og annad Klæde/ Heb. 1. Jafnvel þoott Menn verde ad flækiast vid þessa Hiegooma epter Naudsyn Spillingarennar Nattura. Þu meinar ad Gud sie þier reidur/ af þvi hann leifde þier ecke ad uppala þad er hann svo vel skoop/ sijnum Brædrum i Heimenum til Nota og Gagnsemdar/ Gief þig til Frids/ Barn mitt/ packa Gude/ ad þu med hans Adstod hefur uppaled þ til Himnarijkis/ hann æ margann Goodann/ kat hann sorga fyrer Lonum og Lijfu/ sem þ leingst hefur giort. Svo hygged nu ad þessu/ Christner Menn/ hver i sinn Stad/ Lated hann raada sem raada æ/ og alldrei rædur sijnum Bornum/ nema til hins besta/ og ætlest er til / ad þier siaed betur þ ydar Raade edur Barna ydar og Astvina / helldur enn hann / Til hvers ad bæde ydur og þeim er varpad

alls

allt i fra Moodurlijfe. En þu eilijfe Fader/sem ecke einasta taled hefur alla Daga vora/helldur og oll vor Hofud-Naar/Kienn þu bæde Forelldrum og Bornum/ad huxa þad vier hliootum ad Deya/svo vier Forsiaaler verdum/ad alldrei lifum vier svo sem ættum vier i þessu Volæde Æfennlega ad lifa/helldur gef þu oss/sem ert Gud Lijfsens og Daudans/ad hvert vier lifum edur deyum/ þa sieum vier DRottens/Bænheyr þad DRotten minn/fyrer JEsu Pijnu og Dauda/og gief oss þar til Styrk Heilags Anda / Amen / J JESVS Nafne / AMEN.

# Seytianda Sunnudag epter Trinitatis.

## Gudspialled / Luc. 14. Cap.

J þeim Tijma. Og þad skiede so ad JEsus kom i Hus nockurs Phariseara Hofdingia a Þvottdeige Brauds ad neyta/ og þeir hofdu Vardhalld a honum. Og sia þu/ ad Madur nockur Vatnssiukur var þar framme fyrer honum. Og JEsus andsvarade og sagde til Logspekinganna og Phariseanna/so seigiande: Hvort leifest nockud ad lækna a Þvottdogum? Enn þeir þogdu vid. Og hann took a honum/ læknade hann/ og liet hann i burtu fara/svarade og sagde til þeirra: Hvors ydar Asne eda Naut sem fellur i Pytt / er þad eige jafnsnart utdreiged a Þvottdeige? Og þeir gaatu honum aungvu þar til svarad. Enn hann sagde þessa Eptterlijking til þeirra sem bodner voru / þa ed hann merkte hvornenn þeir mottlust epter honum fremstu Sætum/seigiande so til þeirra: Nær ed þu verdur boden af Einhvorium til Brudkaups / þa set þig ecke i hid Ædsta Sæte/ kann skie/ þad annar Heidarlegre enn þu / sie boden af honum / og kome sa sem þier baud og honum / og seige til þijn/ Gief þessum Rum/og hliooter þu þa med Kinnroda ad hafa hid ytsta Sæte. Helldur so/ nær ed þu verdur boden/ þa far þu/ og set þig i hid ytsta Sess/ so ad þa nær ed sa kiemur er þier baud/ þa seige hann til þijn/ Vinur/ þoka þier upp betur. Þa mun þier Virding veitast hiaa þijnum Sessunautum. Þvi ad/hvor sig sialfur upphefur/hann mun nidurlægiast/

vonder i sialfum sier/ eñ verda þo ødrū til Hneixlis: Eg vil taka þad til Dæmis/ ad a St. Pals Døgum leifdest allañ Mat ad eta a medal Christeña/ eins og nu i vorre Kyrkiu / Sa sem aat allañ Mat/ og hiñ/ er hiellt sig fra sumū/ Bæder voru þeir Gude eins kiærer/ og hver ugur vill hañ ad añañ dæme / þo seger hañ: Ef ad þiñ Brooder hryggest vegna Fædsluñar / þa geingur þu ecke epter Kiærleikanum/ Torkÿn honum ecke med Fædslu þiñe/ fyrer hvern Christur dæeñ er/ Rom. 14. Þo nu lÿted þyke i þetta spuñed / þa metur Postuleñ þad svo mikels/ ad hañ helldur þad kuñe ad verda einum til Gløtunar/ sem Guds Sonur hefur þo Endurleyst/ og hañs dÿra Blood svo til Onÿtis a honum/ Þvi seger hū og i ødrum Stad: Vissa eg ad miñ Brooder Hneixladest/ skyllda eg alldrei Kiøt eta. Þvilÿker eru nu marger Hluter medal vor/ svo sm er ein og ønur Siergiæde i Vmgeingne/ er vier føllum Affarasnid a vora Tungu/ eitt og añad Lautgiæde þeirra/ sem añadhvert i Klædaburde edur añare Hegdan vilia vera ødruvÿse eñ ader Meñ / hvad jafnvel sumer af oss bruka a Helgum Tÿdum / nyiar Vppafyndingar i ymsū Hlutum/ sem ecke eru verre eñ hid gamla Skick/ Ecke helldur betre/ og añad þvilÿkt/ sem Adgiætner Meñ fa vel athugad: Þetta er ad søñu eingeñ Synd i sialfu sier/ eñ þad verdur ad Synd ef Naungeñ hneixlast þar af / til ad tala edur þeinkia illa um þañ / er svo giører ad þarflausu/ og þvi bañar Paulus/ ad giøra þad nockud / a hveriu ad nockur Brooder kuñe ad hneixla sig edur steita / Rom. 14.

Hvad hinu ødru vidvÿkur / sem eg hiet um ad ræda/ þa kuña Meñ hvad mest ad hneixla sialfer sialfa sig / þad kemur af þeirre Synd / sem i oss bygger/ voru spilltu Hollde og Bloode / þess getur Frelsareñ hier i Textanum/ Er hañ seger: EF ÞJn HOnd EDur FOOTur HNeixla Þig / Þa SNÿd Hañ Af Og SNara HONum FRa ÞJer. Ecke er þad Frelsarans Meining / ad Meñ skule Vana sig edur Limlesta/ helldur su/ ad vier skulum eckert svo kiært hafa/ ad vier ei høfnum þvi ecur fra oss køstum fyrr eñ þad hneixle oss/ svo ad vier

føllum

føllum i Freistne/og dregur hañ hier Dæme af Læknurum: Oss er
eingeñ Hlutur kærare eñ vorer Limer/og þo ef nockur af þeim er svo
roteñ/ad hætt er vid/ad hañ meige feigia hiña/þa lijdum vier þ Lækn-
ernum/ad hñ skere hñ af / þvi skylldum vier þa ecke deyda vora Jard-
nesku Limu/Saurlijfe/Ohreinleika/ illa Tilhneiging/ vonda Girnd/
Agyrne / hver ad er Skurgoda Dyrkan / svo sem Paulus ad Orde
kiemst/Col. 3. Og þad sem hñ hier seger um̃ þessa Leste/þad vill hañ
sagt hafa um̃ allt hid Vonda/sem i giegn Saluñe strijder/ hvert hañ
upptelur i Pistlenum til Galatas Cap. 5. Þesse er Lijkame Syndar-
eñar / sem um̃getur/ Rom. 6. Þad er hiñ gamle Madureñ/ hver ed
brukar sijna Limu / vondar Girnder / til ad reka Andskotans Eyr-
ende / Eins og eiñ Verka-Madur brukar Hendur og Fætur til ad
vinna Naatturlegu Lijfe/þa brytar oss ad deyda/þa eigum vier ad af-
snijda og snara þeim fra oss/ svo þeir hneixle oss ecke. Hversu opt
verdum vier hneixlader af Höndunum/þegar Fooskañ blæs þeir upp/
til ad meida Holld Naungans/ þegar Agyrndeñ tieller þær ut til ad
grijpa hañs Goots og Peninga/ þegar Leteñ svæfer þær til ad leggia
sig samañ/Prov. 24. svo Meñ giela ecke eted sitt eiged Braud/ z verda
þvi ad leita þess i annarra Andlites Sveita. Fæturner hneixla oss/nær
Leideñ a Guds Orde og Toomlæted i vorū Saluhiælpareñu giører
þa trega til ad ganga i hañs Hus / eñ fusa til ad hlaupa þangad
sem þr Hluter eru vidkader/hverra Gud hefur bañad/þa er hiñ Gamle
Madureñ skipolur a Fæte/eñ hiñ Nye halltur/og þa helltum vier oss
og hneixlum næsta miøg sialfer sialfa. Sama er um̃ Augun ad seg-
ia/ hverra Frelsareñ og getur hier i Gudspiallenu. Hvad er i Heim-
inum? Þad er Girnd Hollds ens/ Fysn Augnaña og Drambsamt Lijf-
erne/Hversu opt festa sig vor Augu a þeim Hlutum/sem eru fuller af
þessu? Fogur Asynd/ Audæfe/ Metord/ og svoddañ Taal Verallðar-
eñar/þad er vor Augna-Bode: O hvad miklu betur være þad Auga
utstunged/er lætur sig blinda af þessum Hlutum/ eñ hverfur af Gude
sijnum og hañs Bodordum: Þess vegna giørde Job Sattmaala vid
Augu

Augu syn/ad ei like hn̄ þeim til Meyarenar. Þvi bidur David Gud: Snu þu Augum mynū/ ad ei lijte þau a Hiegoomañ/ lat mig ganga a þynum Vegum/ gefande þar med til Vitundar/ ad sa sem starer a Glis Veralldarenar / hañ kune ecke Guds Veg ad rata/ Eñ þad sem Drottiñ hier seger um̄ þessa Limu hins gamla Mañs/ þad vill hañ sagt hafa um̄ allt þad sem oss ma fra Gude draga. Sa sem virder meir Fødur og Moodur/ Systur edur Broodur/ edur Eigenkonu syna/ og jafnvel sitt Lyf / helldur eñ Christum / hañ hneixlar sialfañ sig. Sa sem gyrnest þad Embætte/ sem hañ er ecke Madur fyrer/ (hvad margur Dare giører a þessum Døgum) hañ hneixlar sialfañ sig / Þvi hañ giører sig verre med þvi/ ad hañ fer illa med Guds Vm̄bod/ søkum Fakiænsku edur añars Dugleyses/ þar hañ hefde añars kañske goodur Madur vered. Sa sem tekur sier Hneixle af þeim Hlutū/ sem ecke eru Hneixlanleger/ helldur gooder og Gude þecker / svo sem er skynsamlegt Vandlæte i Kenninguñe/ Røkseme Yfervalldsens i Stiornēñe / Alvørugefne Skoolameistara/ Forelldra og Husbanda i Typtaneñe og Vm̄vønduneñe/ hver sm̄ steiter sig a þessu/ hñ same hneixlar merkelega sialfañ sig / Svo hneixludu Þr sig a Moyse Guds Mañe/ þvi hañ rak Guds Eyrende skøruglega : A Elia/ Michea og Jeremia/ af þvi þeir vandlætu i Guds Stad : A sialfum Christo/ þvi hañ heidrade siñ Fødur/ eñ þeir vanheidrudu hañ : A hañs Postulum / þvi þeir hlyddu framar Gude eñ Møñum. sa sem steiter sig a añars Nœglæte/ og meinar sier leyfest allt vid hañ ad giøra / þvi hiñ er ecke Neipttækur/ hañ hneixlar sialfañ sig/ svo hneixludust Israels Syner a Moyse/ þvi hñ var hiñ þolenmoodaste Madur a Jørduñe: A Christo/ þvi hñ hroopade ei nie kallade/ hañ at og drack med Tollheimtumøñum og Bersyndugum. Sa sem er Rangeygdur ef nockur er Goodgiarn / Hañ hneixlar sialfañ sig / Svo voru þeir ed fyrster voru leigder i Vyngardeñ / eñ øfundudu hina / sem ecke høfdu nema Eina Stund erfidad : Svo var hattad Broodur hins forlapada Sonar/ er ecke gat lided ad hans Fader Myskunade sig yfer hañ/ Svo

eru og aller þeir/ ed sia Offsioonū yfer añarra Velgeingne og Luckulane/ svo sm̃ hefdu þeir af Gude eins miked edur meira forskulldad. Sa ed vogar sier i nockurn Selskap sem honum er Ofvaxeñ / edur leggur Lag sitt vid þa/ sem hñ kañ ad hliota Skada af/ hñ hneixlar sialfañ sig/ Þvi bañade Gud sijnu Foolke/ ad taka til Egta Canaans Dætur/ edur ad giora Sattmala vid þa/ er hañ utrak fra þeim/ ad ei yrde þeir þm̃ ad Snøru/ þvi bañar Salomon ad hafa Vm̃geingne med Reidegiørnum Mañe. Þad Maltæke er satt/ Ef nockur tekur á Tiørnñe / þa loder hun vid hañ : Hefde Israel ecke samlagad sig Skiækiunū i Moabs Lande / þa hefde ecke svo skelfeleg Guds Hegning yfer þa komed : Hefde Samson ecke bunded svo fasta Ast vid Dalila/ þa hefde hañ Augunum hallded/ og hefde Petur ecke geinged iñ i Biskups Hollena/ munde hañ ecke hafa sijnū Meistara afneitad. Sa sm̃ reider sig uppa sialfañ sig edur sitt Atgerfe/ Abl/ Vitsmune/ Magt/ Ryk̃doom/ edur nockurn añañ Hlut / Eñ gleymer þvi/ ad hañ hafe þad þeged/ Hañ hneixlar hvad mest sialfañ sig / og kañ ecke Oluckuna ad um̃flya/ Þad keña oss Dæme Ægyptalands/ Assyriæ og Caldealands Konunga/ er a Augnablike urdu uppræter/ þvi þr gaftu ecke Gude Dyrdena / Og hefe eg svo nockud um̃ Hneixled talad: Eñ hvert ad sie þess Straff/ þad seger Frelsareñ med þessum Ordū. Vei ÞEim MAñe FYRer HVErn Ad HNEIXLaneñ KEMur: Eñ hvad þad sie/ keñer hañ oss sialfur er hañ sagde: Vei þm̃ Mañe sem Mañsens Son forrædur/ og hier i Gudspiallenu mæ þad sia/ ad hañ sem ecke kastar fra sier þeirre Hond edur Fæte sem hañ hneixlar/ hañ hefur forþienad ad kastast i eilijfañ Elld: Sama er ad segia um̃ hinar adrar Greiner af Hneixlenu/ þvi ecke skulum vier meina/ ad sa sem Børneñ hneixlar edur adra Guds Vesælinga/ hñ mune sleppa þar med / Ad MYLNVsteiñ HEINGDest Vm̃ HAls HONDNum / Og VERDe I SIAFARdiup SOEKTur : Helldur tekur DRotteñ til þessa/ eins og hins Smánarlegasta Lijfs-Straffs a medal Gydinga / til ad sijna Stærd þessarar Syndar. Þar fyrer /

Christner

Christner Men̄/gefed nu Giætur ad þssare Volldugu DRottens Predikun / og læted ydur hana i Eyrum loda / Ran̄sated ydar undaffared Tijferne og spyried Samvisku ydar ad/hvern þier hafed dreged med Orde / Verke / edur Epterdæme a vondan̄ Veg / med Giælijfe/ med Lauslæte/ med Fegirne/ med Hofmood og Oflæte / og i einu Orde ad segia/med Dyrkan Veralldaren̄ar og hennar Muna/og ef han̄ geingur en̄ nu a hønum/ þa legged allan̄ Hug a/ad leida han̄ a hina riettu Leid/ ef þier vilied lifa / og ydrest hins af Hiarta. Sæ sem nockru stoled hefur/hn̄ a epter Moyses Løgmæle Ferfallt ad giallda. Sachæus sagde vid Christ/ þegar hn̄ ætlade sier Christen̄ ad verda/Hafe eg nockrum Rangt giort / þa gelld eg þad Ferfallt aptur / En̄ svo miklu dijrare sem Sælen̄ er Fenu /·svo miklu þijngre sem Guds Reide er Mylnu-Steinenum / svo miklu fegra sem Himnarijke er Stundlegu Epterlæte/svo miklu meire Hug skylldu̅ vier leggia a/Christner Men̄/ ad bæta þeim aptur/sem vier rænt høfum sijnum Andlegum Fiesiood. Nær þier sinned eitt Vngmen̄e/ein̄ Vesæling/ein̄ sm̄ DRotten̄ bijdur ad medtaka i sijnu Nafne/þa huxed med ydur/Smæer eru þsser ad Vijsu/ en̄ hn̄ er stoor/Sem er þeirra Fader og þeirra Brooder/ Smælingiar eru þeir ad søn̄u/en̄ Hneixled er stoort/ Synden̄ er mikel/ og Straffed Obærelegt: Vesælingar eru þeir/ En̄ sæll er sa/sm̄ ecke hneixlar sig a þeim/þvi hn̄ hneixlar sig a Christo/ en̄ Veiste hinum: Þar fyrer/ef þier vilied Guds Viner vera/ef þier vilied Sæluhiælpena erfa/ef þier vilied heilagra Eingla Þionustu niota/ef þier vilied Helvijtis Kvaler um̄flya/Þa gefed þeim eckert Hneixle/ Hverke med Orde/ Verke/ nie Epterdæme/Þvi nær þier hneixled þessa/ þa hneixled þier siælfa ydur/ Þar fyrer medtaked þa i Christi Nafne/svo medtaked þier hn̄/og fæed ad heyra a hinum Effsta Dege/Þad þier giordud einum af þessu̅ mijnum minstu Brædru̅/þad giordud þier mier. Þess un̄e oss ad niota hin eilijfa Guddoomsens Nadign/fyrer JEsu blessada Forþienustu/Am̄.

## Atianda Sun̄udag epter Trinitatis.

Gudspialled / Matth. 22. Cap.

Þan Tijma. Þa Phariseárner heyrdu þad/ad hn hafde niduþaggad þa Saduceos / samanśofnudust þeir i eitt. Og eirn Løgvitringur af þeim spurde han ad / Freistande hans og sagde : Meistare / Hvørt er hid hædsta Bodord i Løgmálenu ? En JEsus sagde til hans : Þad / Ad þu skallt elska DROttenn Gud þinn/ af øllu Hiarta þijnu/og af allre Aundu þinne/og af øllu Hugskote þijnu. Þetta er hid fyrsta og stadsta Bodord. En hitt annad er þissu lijkt/þad/Ad elska skalltu Naunga þinn so sem sialf ann þig. J þessum tveimur Bodordum er innebunded allt Løgmál og Spámennerner. En þa Phariseárner voru so til samans komner/ spurde JEsus þa ad og sagde : Hvad virdest ydur um Christ/ hvørs Son hann sie? Þeir søgdu honum/ Davids : Hann sagde þa til þeirra: Hvørnenn kallar David hann þa i Anda eirn HErra ? þar hann seiger: DROTTenn sagde minum DROTTne: Sit þu mier til Hægre Handar/þangad til ad eg legg Ovine þijna Skør Foota þinna. Nu ef David kallar hann eirn Herra / Hvørnenn er hann þa hans Sonur? Og eingenn gat svarad honum einu Orde. Og eige dirfdest nockur upp fra þeim Deige / hann framar ad spyrja.

## Exordium.

Þeir eru Partar Christelegs Lærdooms / Løgmáled og Evangelium. Løgmáled er fyrer Moysen utgiefed/ enn Nád og Sannleike er fyrer JEsum Christum vorden / Joh. 1. Af Løgmálenu verdur eingenn hoolpenn/ þvi þ verkar Reide. Fyrer Truna i Evangelio verdum vier Riettlaater. Moyses seger oss hvad vier eigum ad giøra / Christur/ hvørnenn vier eigum ad trua. Moyses foor med Skugga epterkomande Giæda/ i Christo er sialfur Lijkamenn oss veittur. Nu er þetta þo ecke svo ad skilia/ad Fedurner i Gamla Testamentenu hafe af Evangelio Hlutlauser vered: Sia eg kem/ J Upphafe Bokarennar stendur skrifad af mier/ þinn Vilia/minn Gud/ giøre eg/ seger Messias fyrer Davids Munn/ Ps. 40. Hver er sa hns Vilie ? Sa / ad Kvinnunnar Sæde skylde i sundurmola Høggormsins

Høfud.

Nøfud. Fyrer þad blessada Fyrerheit hafa þeir aller hiælpast eins og vier/ſem hoolpner eru vordner/allt þar til ad Christur leidde Sañ-leikañ i Lioos. Fyrer Truna vard Abraham Rettlætur/og fyrer Tru na seger Petur ad Fedurner hafe hoolpner vorded: Eñ ſvo ſem þeir voru ecke aan Evangelit og þess Afgiafa/ ſvo ſkulū vier þad og vita/ ad vier ecke erum aan Løgmalsins / þvi DRottenn kom ecke til ad upp-leysa/helldur ad uppfylla Løgmaled/Matth.5. Satt er þad/ad þeir ſē Christo tilheyra/ þeir eru ecke under Løgmalenu/ þ er under Løg-malsins Bølvan/ Eñ þo Krossfesta þeir sitt Holld med þess Gyrndū og Tilhneigingum/ Gal. 5. Þad heimtest ecke af þeim / ad þeir upp-fylle Løgmaled/eñ þess krefur Gud/ad Meñ life epter þvi/ ſē fremst vier megnum/ellur þvi mundu hñs Postular ſvo opt biooda oss ad lifa Gudrækelega / Sparſamlega og Rettvijslega i Heime þessum? Þvi munde Jacob ſegia / ad Truen ſie daud aan Verkaña? Þvi munde Frelſareñ ſiælfur utleggia Løgmaled / og vijſa Møñum til þess / ef ecke ættum vier epter Løgmalenu ad lifa. Þetta ſiaum vier i þessa N. Dags Evangelio/i hveriu oss verdur fyrer Siooner ſett øll Skyll-da Christens Mañs/ſē foolgeñ er i þijſu tvennu. 1. Ad elſka Gud og Naungañ. 2. Ad þeckia Christum og hañs Perſoonu rette-lega. Vm þetta hefe eg ætlet mier framar ad tala.

Eñ þu goode Gud / Styrk oss hier til med Naad þijns Anda / I-IESV Nafne / AMEN.

## Vtleggingeñ.

Hinu fyrra hofum vier Tvo Bodord ad athuga / ſem er/ AD Elſka GVD / Og Añad / AD Elſka NAungañ. Þad Fyrra kallar DRotteñ hid ædſta og meſta Bodord i Løgmalenu/ ſvo ſem Von er aa / ecke einungis þess vegna / ad eckert er ſvo Yppar-legt/ ſvo Omſamlegt/ ſvo mikillrar Elſkuverdt ſem Gud/ helldur og þess vegna/ad øll øñur Bodordeñ hafa ſiñ Krapt og Myndugleika af þvi/ þar allt hvad vier giørum med Ord og Verk/ hverſu vel ſem þad ſijnest giørt/þad er Onijtt/ utañ þad framkome af Elſkuñe og Tird-

ingunne til Guds. Allt þad sem Gud hefur boded/ þad eigum vier ad giøra/ af þvi vier Ollkumst og Elskum hann / Enn hann eigum vier ad elska fyrer þa Omekanlegu Yferburde / er hann hefur yfer allar sijnar Skiepnur/hanns Magt/hanns Dijrd/ hanns Rieттlæte/enn þo allra mest fyrer hanns Giæsku/þvi vier høfum ei svo Skynbragd a ødrum Greinum hanns Dijrdlegu Nattignar / Enn hana finnum vier og þreifum a hende a hveriu Augnablike/þvi hun uppfyller vora Epterlaungun med Giæd um/ seger David/ Ps. 103. Og ef vier fyrst vilium hugleida Giæsku hanns i Lijkamlegann Maata : Er hann þa ecke sa ed hefur giefed oss Ond og Lijkama ? Þvi skylldum vier þa ecke elska hann af allre Ondu vorre ? Hefur hann ecke innplantad Raad og Skilning i Sæler vorar ? Þvi skylldum vier þa ecke elska hun af øllu Hugskote voru? Hefur hann ei giefed oss Hiartad/ sem er Bustadur Elskunnar ? A hveriun skyllde hun helldur festa sig/enn a hønum/ sem hana hefur sialfur tilreidt og bued svo Dasamlega umm hana ? Mun hann ei vera sa/ i hverium vier lifum/ erum og hrærumst ? Act. 17. Uppfyller hann ecke Hiørtu vor med Fædslu og Fognude ? Upplykur hann ecke sinne milldu Hende / og sedur allar lifande Skiepnur ? Ps. 145. og hvad mest hina Opacklaatu Manneskiu. O vor Gud/ eg huxa til þess/ er DRottenn brixlar sijnu Foolke hiaa Jeremiam/ seigiande : Hefe eg vered Jsrael svo sem Eydemørk edur Jord su/ er tapar Avextenum ? Jer. 2. Gud giæfe/ ad vier villdum og læra oss til Rifta tenna þessa hans Fødurlega Hiarta Giæsku/og athuga hvad ørlæt hans Millde hefur vered/hversu Vijsdoome full hans Guddoomlega Forsioon/ad hann hefur aled oss a þessum Arum/ ei sijdur enn frioosom Jord Akurkallenn / ad hønum Sofande ; en hverium vier høfum þo hvad verst lifad : Ef vier hugleidum þetta/ ... minsta Koste i hvert Sinn/er hann veiter oss nockurn sierdeilis Velgierning/þa mundum vier helldur leidast til ad elska Gud/ og ecke sega med Gudlausum Judum : Vier drottnum og vilium ei framar til þijn koma/Jer. 2. Og þo nu ad DRottenn læte oss kenna hardt a stundum/annadhvert alla Almennelega/ edur og nockra sier i Lage/til ad typ-

ta oss þar med Ekfada Kalfa/Jer. 31. Edur til ad reyna sijn Børn/ þa eigum vier samt ad elska hañ/ þvi hvern hañ Son/ sem Faderen elskar/ hañ agar hañ/ seger Paulus/ Ebr. 12. Eñ ef þetta er hans Elsku-Merke / Hvilijk Fasiña er þad þa / ad elska hañ ei aptur a moote? Svo sem þad er lijtill Heidur halldeñ / ad elska Vine sijna medañ þeir kuña ad duga oss/svo er þad lijted Rækarmerke vid Gud/ ad elska hañ alleina medañ allt ad Oskum geingur: Og Gud næde/ Þad eru þo svo fæer/sem giøra þad: Eñ svo sem Gulled reynist i Ofnenum/ svo proofast og Elskañ til Guds i Mootgangenum: Og hvad mørgum hefur hañ þrijst til ad elska hañ / sem þvi ædur fiarlæger voru/og hafa Meñ til þess fulla Orsøk/ nær Meñ giæta þess/ ad hvad sem hañs Elskendur vantar hier / þad mun oss margfalldlega Endurgollded verda i Upprisu Riettlætra / Þad voltar sialfur DRotteñ/er hañ seger: Hver sem ad yfergefur Hus/ og Brædur og Systur/edur Fødur edur Moodur/edur Eigeñ-Konu/edur Børn/edur Akra fyrer mijns Nafns Saker / hañ skal fæ Hundradfallt aptur og eignast ad Erfdum eilijft Lijf / Matth. 19. Eñ hvern sem ad hañ svipter øllu þessu/edur svo Miklu edur Litlu sem hønum þocknast/og hañ elskar samt Gud siñ/ og kysser a hañs Vønd/hañ giører allt hid sama. Munum vier þa nockud mißast Harmkvæla þessarra Tijma/ nær vier skijnum eins og Sool i Rijke vors Fødur? Matth. 13. Mun Sonureñ reikna þau Høggeñ/ er Fader hañs sloo hañ/ nær hañ situr i Tign og Heidre? Þvi er þad fævijslegt/ ad vilia ei kaupa þessu/ og þvi skylldum vier þa ei elska vorn Himneska Fødur / Jafnvel midt i Hørmungunum. Eñ hvad Almeñelegre Typtan vidvijkur/ þa Gud giæfe/ad vier villdum eins lynder z samhuga vera i þvi/ad elska Gud/ þo hañ age oss/sierdeilis þar vier i þessu fatæka Lande meigum jata þad/ef vier adgiæta vilium/ad hñ burtrekur ecke eilijflega/vier meigum þeckia þad vid oss framkomed vera / sem hañ heiter sijnu Foolke fyrer Muñ Joels Spamans: Eg skal Endurgiallda ydur þau Areñ sem ad Eingesprettañ / Trie-Ormureñ og Gras-Madkureñ

hafa

hafa eydt fyrer ydur / Joel. 2. O vor Gud / þvi skyllder þu Mañenum betala ? Hver hefur þier nockurn Tyma giefed / svo þu þurfer hønum aptur ad giefa : Rom. 11. Vilier þu giallda oss epter Verdugleikum / þa eru vor Laun Daudeñ / vier høfum ecke añad medteked i Straff Syndareñar / eñ hvad vier tilunted høfum / og þad med nærsta sinnum Mæler / eñ þvi velldur þyn Giæska / þyn Fødurleg Elska / ad þu villt svo ad Orde komast : Þar fyrer Hugleidū nu / christner Meñ / Hafe Gud typlad oss Ohlydugu Synda-þræla m; O-Aran nockurre / edur ødrum Landplagum / Hefur hñ oss þ ecke margfalldlega aptur-golldeds med hiñe mestu Ar-Giæsku og ødru Blydlæte synu ? Skylldum vier nu elska nockurn jafnframt hønū / er svo leikur vid oss eins og Børn syn ? Eñ hvad seger Drottenñ þ Muñ Joels hydar i þyssū sama Capitula ? Nær þier eted jafnadarlega og erud Metter / munud þier Lofa Nafned DRottens : Eñ hvert ad hiñ goode Gud hefur ei opt-lega funded Brest a þessu hia mørgum af oss / þad bid eg þa ad Hugleida / uñ hveria eg hygg þ rett-talad sie / er stendur hia Hoseam Spa-Mañe / i Cap. 13. Vnder eins og þeir sadder urdu / hoof st vpp Hugur þeirra / þar þ hafa þr gleymt mier. Eñ øll þsse Lykamleg Blessan / svo mikel sem hun er / sem þo er svo mikel / ad alldrei verdur hun full-þockud / þa er hun þo Smæ-Muner hia hinum Andlegu Giædum ad reikna / er oss veitt eru i JEsu Christo. Fæum oss er kamt ad elska Gud fyrer þær Gæfur / sem aller jafnt niooka / fyrer hañs Sool / er hñ lætur skyna yfer Vonda og Gooda / fyrer þad Regned er hañ falla lætur yfer Ranglata og Rietllata / Matth. 5. Hvar fyrer ? Þviad aller meina sig þess verduga / fyrst aller hafa þss sømu Not / eñ Avøxt ureñ verdur þo meire hia suṁum / eñ sumum miñe / jafnvel þoott ad Tveir hafe hina sømu Alburde / þvi Blessan DRottens er þad sem Hused bygger / Eñ hañs Heilsusamleg Nad i Christo er augliоos vorden øllum Mønnum / Tit. 2. Hun er alldrei Avaxtarlaus hia þeim / sem hana medtaka vilia / og þar er eingeñ Mismunur a øllum þeim / sem jafnt bera sig epter heñe / þvi hia hønum er eckert Mañgreinar-

Alit /

Alit/þar er hverke Gydingur nie Grickur/Præll edur Frelsinge/helldur aller Eitt i JEsu Christo/Gal. 3. En fyrer þessa Hæleitu Guds Velgiørninga elska flester hann hvad minst/ Hvar fyrer ? Þvi Menn dæma epter Holldenu / enn Holldeð skyniar ecke hvad Guds Anda er / 1. Cor. 2. Athuguni þo hvert meira er/ad skapa Himen og Jørd/ edur ad læta Gud/sem hvortveggia skoop/ taka a sig Lijkingu syndugs Hollds/ Rom. 8. Ad skapa Manenn / edur ad Endurskapa hann : Ad giøra hans Lijkama af Molldu / og blæsa lifande Anda i hans Naser/Edur ad skapa i hønum eirn nyann Mann/og gefa hønum H. Anda: Ad leggia alla Hlute under hans Fætur/ Ps. 8. Edur ad giefa sinn Eingieteñ Son ut fyrer hann / ad hann fyrerfarest ecke / helldur hafe eilijft Lijf : Ad giefa hønum Jardneska Fædslu / edur ad ala hann a sijns Sonar Hollde og Bloode : Ad giefa hønum Proott og Atburde til ad utvega Næringu sijna/eda giefa hønum Styrk i Mootgangenum/ Freistingunum og Offsooknunum: Hvert er meira ad giefa hønum Vit og Rænu/til ad sia fyrer þessu Lijkamlega Lijfe/ edur sitt H. Ord/ sem hann uppfræder til eilijfs Lijfs / og ad upplijsa bæde Viliann og Skilningenn/ ad hann giete bæde þeckt Gud og eiskad: Hvert er meira/ ad giefa hønum Mæled/til ad tala vid sijna Lijka i Heimenum/ edur ad giøra hans Tungu vel talande/svo hann fae vid sialfann Gud talad: Og ad Skijdurstu/hvert er meira/ ad giefa hønum Gull og Silfur/Akur og Kvickfenad/edur ad utvega hønum þann Fe-Siood/sem er a Himnum/hvørium ei kann Mølur nie Rid ad granda/ Matth. 6. Hver ed Guds eiged Blood og hans dyrann Dauda kostad hefur : Sa sem þetta samann ber/hann mun finna/ad svo miklu Ædre sem Sælenn er Lijkamanum/ svo miklu fegre sem Himnarijkis Dijrd er forgeingelegu Glyse Veralldarennar/Ja/ svo miklu Ædre sem Gud er øllum sijnum Skiepnum/ svo miklu heitar eigum vier hann ad elska fyrer hina Andlegu Velgiørninga/helldur enn þa Lijkamlegu/ þviad i þessum veiter hann hvad Forgeingelegt er/ enn i hinum sialfann sig/ sem ad blijfur/ sem er einn og hinn same/og hans Ar þrotna ecke / Heb. 1. Og hver sem Gud

alleina fyrer Jardneska Mune elskar / hañ hefur alleina Makar Ast a hønum / eins og eiñ Nærsnare sem tilbidur hiñ Rijka a medañ hañ elur hañ. Og fyrer þessar Omekanlegu Guds Astgiafer/eigum vier hañ nu ad elska hvad mest Af ØLLu HIARta VOru / Og ALLre ØNdu VOrre/ Og ØLLu HUGskote VORu/ Þad er / af øllum Sælar og Lijfs Kropkum / svo sem David bijdur / Lof seg þu Ønd mijn DRottne og allt hvad i mier er hañs heilaga Nafne. Eñ su Elska er vier a Gude høfum fyrer Tijmanlega Mune/ hun a ad vera svo kropkug/ ad hun næe þvi Mæle/er hañ tilætlad hefur/Sem er/ ad hun leide oss til ad elska hañ i Christo og fyrer Christum / hvers Elska ad Paulus seger ad sie betre eñ allt ad vita/ og hañ lyser Bol-van yfer þeim / sem ecke elska DRottens vorn JEsum Christum/ og þetta er nu svo kalad um hid Mesta og Ædsta Bodord i Løgmalenu. HItt ANNad Er ÞEssu LIIkt/ seger Frelsareñ: Elska SKallt þu ÞIñ NAUNGA Sem SIALfañ þig. Hier hefur Gud sialfum hiñ fyrsta og mesta Neidur skiled / Eñ fyrer þvi/ ad sa sem segest elska Gud/eñ hatar siñ Broodur/hañ er Liugare/seger Johañes/ 1.Joh.4. Þa er audsiaat/ ad Naungans Elska fylger Guds Elsku jafnañ a epter/ þess vegna samteinger og Lausnareñ þesse Tvo Bod-ord/ þvi hvorugt ma añars missa. Sa sem elskar Gud/ hañ elskar siñ Broodur/ og eingeñ elskar siñ Broodur rettelega / nema hañ elske hañ fyrer Guds Saker. Nier til þarf og mikla Alvøru/og þar Bod-ord þesse eru svo skyld / þa tijdur eins miked a bædum/ Svo sem Nel-vijle er vijst þeim sem ecke elskar Gud/ svo seger og Christur/ ad sa sm reidest Broodur siñu/hñ sie sekur Nelvijtis Ellds/ Matth. 5. Þetta Bodord þyker morgu næsta þungt/ og sierdeilis epter þvi sm Christ-ur utleggur þad hia Matthæum / segiande : Elsked Ovine ydar / blessed þa er ydur bølva / Giøred þeim Gott sem hata ydur/ og bidied fyrer þa i sem eru ydur mootfallner og Offakia ydur. Eñ Johañes seger þo / ad hañs Bodord sieu ecke þung / Eg vil og segia/ ad eckert Booordet Rettvijsara og eckert Nytsamlegra til Velferdar. Rettvijst er

er þad/þvi hn̄ hefur oss þ̄ boded sem er sialf Riettvjsen̄/ sm̄ m Vallo a ad biooda oss hvad han̄ vill / sem elskade oss/ þa vier vorum hn̄s Oviner/sem ad eingum er um̄ neitt skylldugur/en̄ vier erum hōnū skylldugar um̄ Saal og Lijf/og allt hvad vier erum. Gagnsamt er þad/þvi sa er svo giører/han̄ vinur hin̄ besta Hlut / þvi han̄ verdur af Gude elskadur. Hver er þvilijkur Hlutur/sem ad vita Synder sijnar kvittar? En̄ þad veit han̄ / sem svo elskar Ovin sin̄ / ad han̄ tilgiefur hønum han̄s Misgiørder/ad Vitne Frelsarans/ er han̄ sagde. Ef þier fyrergefed Mønnum̄ þeirra Misgiørder/þa mun min̄ Fader tilgefa ydur ydar Synder / þvi vil eg segia hid sama hier um̄ og Paall sagde um̄ Man̄ og Kvin̄u/ Sa sem elskar sijna eigen̄ Konu/han̄ elskar sialfan̄ sig/ Eph. 5. Og allt hid sama giører hn̄ sem elskar sin̄ Broodur/og hver sem hn̄ hatar/han̄ hatar sialfan̄ sig. En̄ þessa Elsku til Naungans eigum vier ad Auglijsa/ ecke med Orde og Tungu/ helldur med Verke og San̄leika / an̄ars elskum vier ecke rettelega. Gud ein̄ veit hvad i Hiartanu bygger/þvi han̄ ran̄sakar Nijrun̄/ þad veit Madurenn ecke/han̄ dæmer af Avøxtunum. Þvi kan̄ eg ecke ad segia/ad sa elske sin̄ Naunga / sem eckert Gott lætur af sier leida / þar til gefur Jacob mier Orsøk/er han̄ seger: Ef Syster edur Brooder eru naken̄/ og vantar Daglegt Vidvære / en̄ Einhver ydar seger/ Fared i Fride/ vermed ydur og mettest/ en̄ gefed þeim þo ecke þad Lijkamen̄ vidþarf/ hvad gagnar þad:Og þetta er nu svo fram̄sagt um̄ þ̄sse Tvø Stooru Bodord/ J hverium Frelsaren̄ seger / Ad AllT LOGMAALed Og SPAMENNerner SJeu JNNEfalder / En̄ þegar vier nu ran̄søkum hvad miked oss vantar a ad fylla þesse Guds Bod/ þa mun oss til Hugar koma/ad leita eins an̄ars Lærdooms/hvar fyrer vier kun̄um hoolpner ad verda. Til hn̄s vijsar oss Christur i sin̄e Spurningu til Gydinga/ er han̄ sagde: HVad VJRDest YDur Um̄ CHRJST HVors SOn HAn̄ Sie? Hvar um̄ vier nu vilium med faam Ordum tala i hin̄e Sijdare Greinen̄e.

Gydingar høfdu fram̄sett fyrer DRotten̄ Tvær Onytiu Spurningar/

ingar/ ædur eñ þesse kom til um̃ Bodordeñ / Adra kæru Pharisæi og Herodis Þienarar fram̃ / Hvert ad leifdest ad gefa Keysaranū Skatt edur ei / þeim svarade hañ ut af / ef eg mæ svo ad Orde komast/ sem verdugt var / þvi Madur skal ei svara einum Dæra uppa sitt Tal. Adra Saducæi/er þeir spurdu/ Hvers ad Konañ skyllde verda i Upprisuñe af Sio Brædrum/sem aller hofdu haft hana/ þa nidur þaggade hañ/ og straffade þeirra Ovitursleik. Þesse var hin Þridia / og voru um̃ hana ymsar Meiningar hiæ Gydingum. Adrer hielldu hin hellstu vera um̃ Foornernar: Adrer Umskurnareñar Løgmæl: Nockrer um̃ Hvijldardagen: Eñ DRotteñ /er sialfur hafde Løgmæled utgiefed / J hverium ad liggia aller Fiarsiooder Vitskuñar/ Hañ leyste ur heñe mz Umþeinkingar / Til þess/ ad syna þeim hvad miked þa vantade æ Guds H. Løgmæls Uppfylling / sem meintu hana ad vera einungis foolgna i utvortis Verkum / eñ ecke til ad keña þeim/ ad nockur giæte af Løgmælenu hoolpeñ ordid / og þvi visar hañ þeim til Christum og hañs Persoonu/svo þeir vel mætti færa Sæluhiælpareñar Veg/hefdu þeir haft Vilia edur Vit æ epter ad taka/edur framar hier um̃ ad spyria/eins og Nicodemus/HVad VIRdest YDur Um CHRist HVers SOn HAñ Sie? seger Frelsareñ: ÞEir SØgdu HONum DAvids. Ecke neitar DRotteñ þvi/ad hañ være Davids Son/svo sem ei var Von til. Gud hafde David heited / ad hañ villde giefa honum eiñ Son / hvers Ryke ad skyllde eilyft verda/ 2. Sam. 7. Hañ er Sonur Davids epter Holldenu/ sem Paulus votar / Hañ er giordur af Sæde Davids / eñ þesse hiñ same Davids Sonur/ sim ader fæddur af Fedrunum epter Holldenu/hñ er þo Gud blessadur um̃ Allder: Þvi seger nu Lausnareñ fram̃vegis: HVErnen KAllar DAvid HAñ Þa i ANda Eiñ HErra: Eingeñ Fader er svo Audvirdelegur/og eingeñ Sonur svo Megtugur/ad Fadereñ kalle Soneñ Herra. Lætum vera/ad eiñ Fader sie ecke Kongboreñ/og Synenum Konungs Tign hlotnadest/ svo ad Fadereñ kallade hañ Herra / af þvi hañ ber Guds Persoonu a Jordune:

Eñ

En hvernenn mætte þad eiga heima hiä David/ hver ed sialfur var Konungur / og ætte sier eingann ædre / nema Gud alleina / sem byr i Himnenum/og er allra DRotten ? Þvi er þad audsied/ ad sä er Gud/ og Guds Sonur / er hann Herra kallar : Þar fyrer seger Frelsarenn : EF DAvid KALLar HAnn HErra / HVernenn Er Hann Þa Hanns SONur ? Og svo ad eingenn kynne ad leida sier i Hug / ad þad være nockur af Einglunum/ edur Hofud-Einglunum / sem David kallar HErra i þessum Stad/ þa færer DRottenn til synis Mæls þa Grein af Spædoome Davids/sem eingum Eingle edur nockurre Skepnu tilheyrer/og ecke utann alleina Guds Syne/sä er sannur Gud/Gude Födur og Heilogum Anda Sameiginlegur og Samjafn ad allre Tign / Magt og Vellde/og þo sannur Madur vordenn/ svo miklu ædre Einglunum/ epter Manndoomenum/ sem hn̄ hefur þeim ædra Nafn/þad er Tign hloted fyrer Jbud Guddoomsins : Þa seger hann : DROTTenn Sagde Minum DROTTne / Sit Þu Mier Til HÆGre HANdar / Þar Til Eg Legg OVINE Þijna Til SKarar FOTa ÞJnna. Þviad til hvers af Einglunum hefur hann nockurn Tijma sagt / Sit Þu mier til hægre Handar ? Seger Paulus/ Hebr. 1. Jea/ Eingillenn kvadst vera Sampioon Johannis/ er hann talade vid hann i Opennberanenne. Hvernenn mætte þa David nockurn Eingel sinn Herra kalla ? Su er þa Meiningenn i þessu Tale Frelsarans vid Gydinga/ad CHRistur sie DAvids Son/ þad er af Fedrunum fæddur/epter Holldenu/og þo Guds Sonur af honum getenn fyrer allar Allder/ þad er sannur Gud og sannur Madur i einne Persoonu / hvad og sia ma af þeim Mæls-hætte/Ad SJTia Til GUDS HÆGre HANDar/hvad eingum getur tilheyrt/ nema þeim/ sem er ein Persoona samsett af Guddoome og Manndoome. Þetta hefdu Gydingar kunnad ad læra/og þo miklu skiliandlegar og betur / enn nockur syndug Tunga fæe utmælad / hefdu þr lagt nockurn Hug a sitt Mæl/og spurt fremur hier umm. Enn vier sem feinged hofum þad ad heyra / og truum þvi sem þeir heyrdu ad sogu / enn trudu þo ecke / Vier/ hverium Christur er fyrer Augunum

 mælladur

mæladur i hañs Orde/ Vier skulum reikna oss þad fyrer eilijfañ Soo-
ma/og hina ædstu Huggun/ ad Gud er Madur vordeñ/og ad vort Holld
er upphafed a Guds Tignar-Stool fyrer Ibud Guddoomsins. Eñ
hvad er þad / ad sitia a hægra Veg Gude ? Þad leggur Paulus ut /
er hañ seger/1. Cor. 15. Hønum byriar ad rijkia þar til hñ leggur alla
Ovine til Footskarar hønum. Eñ hvilijkt er þetta Rijke? Þad er/
ad hñ er settur yfer allañ Høfdingskap og Vellde og Krapt & Herra-
dæme/og øll Nøfn sem nefnast/ ecke einasta i þessare Ølld/hellldur og
hiñe Tilkomande/Eph. 1. Eñ undañ þessu dijrdlega Rijke urdu Pijsl
ernar ad ganga/ þvi lijser hañ sialfur/ er hañ talade vid þa tvo/sem
til Emaus geingu / Luc. 24. og lagde ut fyrer þeim Ritningarnar/
segiande. Hlaut ei Christur þetta ad lijda/ og iñganga sijdañ i sijna
Dijrd. Guds Sonur er ad søñu Konungur fra Eilijfd / þess getur
David/ segiande : Gud/ þiñ Tignar-Stooll varer uñ Alldur og uñ
Allder Allda. Eingeñ ma Konungur heita/ nema hañ Rijke hafe/
eñ Mañsins Sonur braut sig til Rijkis i gegnuñ Pijslernar / Daudañ
og Port Helvijtis / þegar hañ took Herleidinguna ad Herfange / eñ
utsnarade hønum / sem hefur Magt Myrkrañá / og settest a Guds
Hætignar-Stool/lifer og rijker ad Eilijfu/svo ad hñ er vor Konung-
ur vordeñ/epter vorre Natturu/eñ vter hñs Brædur/ þad er oss eilijf
Huggun. Verde eg aumare eñ Lazarus/ Verde eg audvirdelegre eñ
hñs Postular/ Verde eg Afrak og Hreinsunar Foorn Veralldar/eins
og þeir/ Verde eg svo fatækur sem sialfur hañ / ad eg ecke hefe þar
eg kuñe ad halla ad Høfde mijnu/ þad er mier noog/ ad mitt Holld og
Blood rijker a Himnum / og situr a hægra Veg Gude / med hverium
hañ fæder mig og dryckiar/til Stadfestu þar uñ/ ad eg sem med hon-
um lijd / mune og sijdañ med hønum rijkia / og hversu sem miñ Lijk-
ame yrde afskræmdur af Volæde og Vesølld / Þa skal hañ þo verda
samlijkur hñs dijrdlegum Lijkama / Ja / þad er mier ecke lijtel Hugg-
un/ad þad sama Holld og Blood/ sem situr a Guds hægre Hønd/ þad
medtek eg i H. Alltaresins Sacramente/ til Styrkingar uñ Kvittun

Synda

Synda minna/ hvÿad i þeim Lijkama/ sem brotenn var a Krossenum/ og i þvi Bloode/ er þar var uthellt / i þvi sama bygger øll Fylling Guddoomsins Lijkamlega / svo þegar eg medtek Lijkama og Blood Mannsins / þa medtek eg og sialfann Gud / a moote hveriumm eg syndgad hefe / og af hverium hvad mest hænger Verdugleike mijns Syndagiallds. Þar fyrer/ nær eg skielfest af Stærd Synda minna/ þa verd eg af þessu huggadur / þvi ef ad mitt Hiarta fordæmer mig / þa er Gud meire Hiarta mijnu / og þad mun alldrei bregdast / Er Gud hefur heited i Christo fyrer Munn Jeremiæ: Ef leitad verdur ad Ranglæte Israelis/ þa skal þar eckert vera / og Synder Juda skulu eingar finnast/ þvi eg mun fyrergefa þeim er eg mun epterskilia. O minn HErra JEsu/ fyrer hvers Skulld mun þad vera / ad þinn Fader midt i Reidenne minne est a Myskunsemena/ Hab. 4. Hvar fyrer brestur hanns Hiarta i hønum / svo hann hlijtur Syndaranum Myskunsamur ad vera? Jer. 31. Hvar fyrer skedur þetta / DRottenn minn / Nema fyrer þijna Medalgaungu / sem situr hønum a hægra Veg? Þegar eg sed eina þreÿtta Sæl og uppfylle sierhveria ængrada Sæl / þa vake eg til þess / minn Svefn er mier jafnann sætur/seger DRottenn epter Maklegum Plagsid / til ad utmala sijna Elsku til Mannkynsens i Christo JESU. Vier segiumst ad vera vakner og sofner i þeim Hlut / er vier hofum Ynde af/og svo talar hann hier umm sig / hver þo ecke sefur og ecke sifiar hann/ O Gud giæfe/ad vier værum eins Arvakrer og Ydiusamer i hanns Þioonustu/Jæ/hvad Stoor og Omælanleg sie hanns Giæska/yfer þeim/ sem jafnvel hafa hinar verstu Synder drygt / þad seger hann skømmu sijdar med þessum allra Hiartnæmustu Ordumm: Ef ad Himenenn verdur mældur ad ofann / edur rannsakadur Grundvøllur Jardarennar ad nedann/þa skal eg forsmaa allt Israels Sæde/fyrer allt þad þeir giort hafa/ Enn svo sem þad er Omøgulegt øllum nema honum Einum/sem Himenenn hefur utþaned/og mæler hann med sinne Spann/og Jørdena hefur Grundvallad/ Svo er þad Omøgulegt / ad Brunnur Myskunsemennar verde uppausenn / hver ed alldrei tæmdur verdur/ nema af þeim/ sem ecke vilia koma til þess.

þessara Vatna/og forsmaa Rijkdoom hañs Þolenmædis/þar til þeir hafa uppfyllt Mæler Syndaña. Hvad mun nu vallda þvi/ christner Meñ/ ad hñ/ sm̃ er eiñ forterande Elldur / sa ed breñur allt til hins nedsta Helvijtis/hñ vill þo vera oss syndugum Ormum svo Nadugur? Hvad velldur þvi/ ad Himnarijke lijdur svoddañ Ofrijke? Hvad añad eñ þad/ad hñ sem er sialfur Gud/ Hañ situr i voru Hollde/hveria hñ skamast sijn ecke Brædur ad kalla? Hañ situr/ Sege eg/til Kraptarens hægre Handar og bidur fyrer oss/Þesse er sa stoore Leyndardoomur/hvern Paulus seger/ ad Vitringar Veralldar hafe ecke skyniad / eñ þo er Opeñberadur oss/semerum Guds Smælingiar. O þa stooru Naad/O þau diupu Myskunar Ydur-Guds/ i hveriũ hñ hefur vitiad vor upprunieñ af Hædum / Hønum sie Lof / Dijrd og Heidur/ Speke og Kraptur/ um̃ Allder Allda/ A M E N.

## Nijtianda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled/ Matth. 9. Cap.

Á Þañ Tijma. JEsus stie a Skip / foor hañ yfer um̃ aptur/og kom i sijna Borg. Og sia/ad þeir færdu til hñs Limafallssiukañ Mañ/þañ er laa i siñe Reckiu. Eñ þa JEsus leit nu þeirra Tru / sagde hañ til hins Limafallssiuka: Vertu Hughraustur Sonur/ þijnar Synder eru þier fyrergiefnar. Og sia / ad nockrer af Skriftlærdum søgdu med sialfum sier: Þesse Gudlastar. Og sem JEsus sa þeirra Hugreñingar/ sagde hañ; Hvat fyrer huxed þier so vont i ydrum Hiørtum? Hvørt er audvelldara ad seigia/Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar? Ellegar ad seigia/Statt upp og gack? Eñ so ad þier vited/þad Mañsins Sonur hefur Magt a Jørdu til ad fyrergiefa Syndernar (Þa sagde hñ til hins Limafallssiuka.)Statt upp/tak i burt Sæng þijna/og gack i þitt Hus. Og hañ stood upp / og foor i sitt Hus. Eñ þa Foolked sa þetta/undradest þad/prijsande Gud/ sa ed þvilijka Magt hefde Møñunum giefed.

## Exordium.

MArga Hlute kalla Mēn Vonda i Heimenum/ þar er þo eing
ēn Vondur nema Syndēn alleina/ Vier køllū Straff Synd-
arēnar Jllt/ Ēn þad er þo ecke Jllt i sialfu sier/ þvi þar er
eingēn Olucka/ ad ei kome hun fra Gude/ sē er alleina Good-
ur/ fyrer vora Skulld verdur þad Jllt/ sem þad forþienad høfū med
Syndēne/ og verdur þad þo mørgū Gott/ sē þvi taka svo sem Guds
Børn/ sier til Andlegrar Heilsubotar. Være þar eingēn Root/ þa være
ecke helldur neinn Avøxtur/ og være þar eingēn Synd/ þa være eingēn
Olucka/ Daudēn er Verdlaun Syndarēnar/ seger Paall/ svo er og all-
ur hans Her/ sem under han þionar/ Siukdoomar/ Vrbyrgd/ Hall-
ære/ Offsookner/ Bloodsuthellingar/ Skadræde af Vøtnum og Voda
Ellde/ Svo er þa Syndēn hin einasta Orsøk til allrar Olucku And-
legrar og Lijkamlegrar / Þess getur Esaias / Cap. 42. Hver hefur
giørt Jacob ad Herfange og Eydelagt Jsrael / hefur ecke DRottenn
giørt þad/ a moote hverium vier syndgad høfum / og þeir villdu ecke
gānga a hans Vegum / og han uthellte yfer þa Grimd sinnar Bræde/
og megnu Strijde? Og þarf hier ecke langt ad Røkū ad leita/ DRott-
enn JEsus kēner oss hier i Gudspiallenu / hver ad sie Orsøk til alls
Mooklætis Mannana/ þar ed han sagde vid hinn Haalfvisna: Vertu
Hughraustur Sonur/ þier eru þijnar Synder fyrergefnar. Vilium
vier þvi af Gudspiallenu læra / hvernig vier eigum ad faa Boot vid
Syndēne/ J hverre vier alder erum/ hverrar Jllsku Kraptur ad Dag-
lega brijst ut um Lijkama þessa Dauda / Spillande allre vorre Vm-
geingne/ Ēn þad er Tvent sierdeilis/ sem er hrein Ydran / og ørugg
Tru og Traust a JESV Forþienustu.

Hialpa oss hier til/ goode Gud/ med Naad þijns Anda/ fyrer JE-
sum Christum/ AMEN.

## Vtleggingen.

DROTTENN SAgde Vid þEnn HAALFvisna MAnn / VERtu HVGhraustur SONur / þJer Eru þJJNAR SyNDer FYRERgefnar. Eingēn Efe er a þvi/ Bræd-


ur

ur M. Ad þesse Veſælingur hefur Angradur vered vegna Synda ſiña/er hñ hef: þeinkia mætt/ad væru Orſøk til ſijns Kranckdæmis: Þeſſ vegna ſagde hiñ goode Meiſtare / Er viſſe hvad med Mañenum bioo/ad hñs Synder væru hønu fyrergefnar/ Eñ þu Chriſteñ Madur/ ſm̃ þetta heyrer/ athuga hvad JEſus ſvarade ſijnum Læreſveinum/ Joh. 9. Er þeir ſpurdu hañ/ hvert hañ/ſem blindur boreñ var/ hefde ſyndgad/edur Forelldrar hañs/ DRottẽ ſvarade: Hverke ſyndgade þeſſe/ nie Forelldrar hañs/ helldur ſvo ad Guds Dijrd Openberyrde/ecke meinte JEſus þad/ad hñ edur hañs Forelldrar væru Syndlauſer/þvi þa hefde hañ ecke blindur fæddur vered/ þar Gud ſtraffar eingañ fyrer eckert / Nitt meinte hañ / ad hverke hañ nie Forelldrar hañs hefdu meira uñed til þeſſa Vanſkapnadar / Eñ marger adrer/ helldur være þeſſe Vanheilinde/ſem margur hefde forſkulldad/a hañ løgd/til ad byrta Guds Dijrd og Almætte hañs Sonar / eg hygg þad ſie Meina ſañaſt / ad ef Gud villde tilreikna Syndernar / þa munde Fæer heilſkygner i Verølldena fædaſt / Fæer heilum Fæte a Jerdena ſtijga/Fæer Oviſtñ Arm utretta/ og eingeñ um̃ Eitt Augnablik heill vera / helldur hefur Gud lagt ſumar Skepnur ſijnar i Lijma / til ad ſijna þier Heilbrygdum ſijna Dijrd /.og hvert Valld hañ hefur yfer þijnum ſyndugum Kroppe/ ef hañ vill i Rettlætis Doom gæanga/ Tak þar fyrer þau Orkumſleñ/ er þu a ødrum ſier/ eñ þu hefur til uñed / þrijſta Hiarta þijnu til ad ydraſt þra Syndañа / er hafa þañ gooda Gud ſtygdañ / er kient hefur þier herlvika Sæl i heilbrygdñ Lijkama/ og leikur vid þig eins og Barn ſitt med allskonar Medlæte / jafnvel þoott þu hañ Daglega til Reide reiter: Hvernig a þa Ydraneñe hætt ad ad vera/ Barn Guds? Num a ad vera heit og alvarleg/ þeſſe Nælf-viſne Madur hefur æn Efa vered Sorgfullur i Hiartanu vegna Synda ſiña/ þad keña oſſ Ord Chriſti/ ſvo ſem eg ſtrax ſagde: Forgefins kemur þu/ Barn mitt/fram̃ fyrer Gud/til ad bidia um̃ Kvittun Synda þiña / nema þig angre þær / nema þu græter beiſklega med Petre/nema þu þvoer Chriſti Fætur med Tærum Hiarta þijns/eins

og

og Maria/nema þitt Hiarta brædne i þier svo sem astad Baz/eins og Davids/ ecke svo miøg af Tilfinningu Guds Reide / svo sem af Elsko uñe til hañs Giæsku/sem upplauk þynum Augum/er varst blindur bor eñ af Moodur Lyfe og daudur i Syndunñ/er þig hefur Endurkeypt fra eilyfu Helvijtis Baale/med syns Sonar Dauda/og sparad þig sijd añ midt i Syndunñ: Lat þier þ til Hiarta ganga/ad þu hefr hñ mood gad og Daglega stygger/ jafnvel med vitanlegum Syndum. Svo a Guds Barna Ydran hattad ad vera/og er hun Gude svo þæg/svo sm ad Synden er hønum leid/Ja/eñ þa þægare/þvi Syndeñ getur alldrei svo stoor vorded/ad ei sie meire Myskuneñ/hvar sem Syndeñ yfergnæfer/ þa yfergnæfer Naadeñ miklu framar / Svo lyted giører Gud ur Syndeñe / þegar hun er afþvegeñ med Ydraneñe / eñ hun a ad vera alvarleg/eige hun Gude ad þocknast/Sa sem vill af Hiarta ydrast Syndañа/ hañ skal vel rañsaka sialfañ sig / og hallda Reikning vid sitt eiged Hiarta af Ordum og Giørdum / og svo mikla Kiæte sem hiñ Ydrande hefur haft af Syndeñe/svo miked Angur byriar hønum ad hafa i Ydraneñe: Meñ eiga ad breyta vid Syndena/eins og Añon Fordum vid Systur syna Thamar/a medañ hñ framde siñ Vilia med heñe/elskade hñ hana/Þar epter rak hañ hana ut af Dyrunñ: Þoott hønñ fære svo Skañarlega/ad ecke sie nærre þvi verra Dæme til/ þa eigum vier þo eins ad breyta vid Syndena/Vier eigum ad læta oss hana leida vera / og er þad vyst / ad sa sem hefur Gaman af giørdum Syndum/nær hønum þær i Hug koma/hønum eru þær eñ þa apturhalldnar: Drage eingeñ sialfañ sig a Talar / Ætlum ecke ad Gud nægest þar med/ ad vier lætumst uñ Stundarsaker ydrast Syndañа/ eñ gøngum þo aptur til þeirra/eins og Hundur til Spyiu/edur Svijn þad / er vellter sier i sama Saur / 2. Pet. 2. Þegar DRottenñ hafde fyrergefed Hoor-Konuñe Glæp heñar / þa sagde hañ þo : Gack nu burt/og syndga ecke framar: Gefande þier þar med til Vitundar/ Christeñ Madur/Ad þad er forgefens/ ad þu þigger Kvittun Synda þiña af Gude/nema þu sporner vid þm frañvegis þ mesta þu mætt.

Þegar JEsus sa þañ Mañ i Musterenu/ er hñ skomu ádur læknad hafde vid Dÿked Betezda/ þa sagde hañ: Sia/ nu ertu heill vordeñ/ syndga ecke framar/ ad ei hende þig añad verra/ Joh. 5. Teiknande þar med/ ad Syndeñ hefde vered Orsøk til hañs Siukleika/ Eñ þu/ sm frameñur fyrer Guds Fætur/ til ad lata þier boda Kvittun Synda þiña af hañs Umbodsmañe i Skriffta-Stoolnum/ Þad er ad søkir vÿst/ ad ef þu ydrast af Hiarta Syndaña / og treyster a JEsu Guds Sonar Forþienustu/ þa verda þier þær fyrer hñs Blood fyrergefnar/ þoott þær sieu raudar sem Blood/ og svo sem Purpure raudar/ og þu Læknadur af øllum þÿnum Andlegum Oheilendum / eñ ef þu ecke leitast vid framvegis ad Krossfesta þitt Holld af fremsta Megne/ þa mun Forþienusta hins Krossfesta ecke miøg gagna þier / miklu helldur fordæma þig/ nema þu sporner vid Syndeñe. Vil þad fyrer vÿst/ ad Christur hefur ecke forgefins talad um þañ Ohreina Anda / sem utfer af Mañenum / ad hañ take sio Anda sier verre / og hverfe aptur i sitt fyrra Hus / og verde svo þess sama Mañs hid sÿdara argara hinu fyrra.    Eingeñ er Efe a þvi/ ad DRottiñ meinar hier þa/ sem Einusiñe hafa utreked Diofuleñ ur Hiarta sÿnu fyrer Guds Krapt og sañа Ydran / eñ byggia honum þo iñ aptur / og æfa sømu Synder Ydrunarlaust/ edur & adrar verre/ þad vitnar St. Petur/ hñs eigeñ Læresveiñ/ er hañ seger um þa / er vellta sier i sømu Syndum/ ad þeirra hin sÿdare Kiør sieu verre hinu fyrre/ þvi betra hefde þeim vered / ad alldrei hefdu þeir Veg Riettlætesins vitad / helldur eñ ad þeckium hoñu ad hverfa aptur fra þvi Bodorde / er þeim er feinged er Christner Meñ eiga ad breyta epter þessum Halfvisna Mañe i hañs Audmykt og Angre fyrer Syndernar / eiñig i Truñe og Traustenu a Guds Sonar Matt og Miskun/ Eñ ecke eigum vier hañs Svottarferse lÿker ad vera / i vorri Apturhvarfe til Guds fra Syndunum: Hañ var Halfviseñ / Svo eigum vier ecke ad vera / þoott vier sieum veiker/ þa eigum vier ecke Halfvisner ad vera/ svo vier meinu ad gefa Gude Helftena Hiarta vors / eñ Helmingeñ Syndeñe og Fiandanum:

Gud

Gud hafar i Morsis Løgum/ ad hafa eitt Mæler fyrer hiñ Iñlenda/ og aňaň fyrer þaň Framanda. O hvad giøra þa synduger Meň / þegar þeir skamta Gude ut i Dropa Tale / hver med synum Blood-Dropum hefur afþveged Synder vorar/ eň Andskotanum gefa Meň fullaň Mæler mestallra vorra Lyfdaga / Þad er Baals Pioonusta / eň ecke Christs: Eň St Paall seger: Ad Christur og Belial/ þad er hiň same Diøfull sm Baal/ eige eckert Hlutskipte samaň. Verum þvi aňadhvert heiter edur kallder / þvi þeim sem volger eru / vill haň skirpa ut af synu Muñe / Apoc. 3. Þesse Madur leitade HErrans/ þa haň var veikur ordeň. Lær þad af hønu/ Guds Barn/ad Akalla Drotteň i Neydeñe/ eň bijd þo ecke epter þvi/ad hň neydest til ad straffa þig Syndareňar vegna/ Mørgu hefur ad søñu Guds Hegning komed til Ydranar/ sem ecke hafa þeckt Synder sijnar fyrre: Eň græt þess/ ad þeirre Ydran / sem fraňkiemur af Otta Hegningareňar / heňe er hættara vid ad koolna aptur/ eň hiñe/ sm af Ihugan sijns Ovirduglei-ka/ & Guds Giæsku uppsprettr/ Þad sie eg af Achab/ er klæddest i Seck fyrer Gude/ nær honum illa gieck/ eň strax sem Gud hafde lieit Hrijs-inu af haňs Hrygg/ þa frell hň fra hm til aňarlegra Guda. Sa sm undaň dregur Tijma Ydranareňar/ & meinar ad þar sie alltijd noog-ur Tijme til/ haň virdest mier vera eins og sa/ er ecke hyrder um þoott haň lijde Skipbrot / af þvi þad kuñe ad heňda sig/ ad haň kuñe af ad komast a einum Flaka. Meň segia / Ad sa sem giører sitt Testa-ment/ ecke fyrr eň a Dauda-Sængeñe / haň giefe af Erfingians Fe/ og ecke af synu: Natt er vid/ ad Gud mune eins hallda og kalla þad ecke sier giefed/ sem þa er fyrst boded/ nær sagt verdur: Gior Reikn-ingskap þiňar Raadsmeňsku / Þu matt ecke leingur Raadsmeňsku hafa. Sa sm Daglega frestar Ydraneñe/ hň er eins og sa Skulldu-Nautur/ er giefur jafnaň good Ord/ eň betalar alldrei: Skyllda vor er þad Maňaňa / ad lijda þvilijkt hver af ødrum / Naungans Kiær-leika vegna/ i leingsku Løg/ þvi vier erum Gude meira skyllduger/ sem er Fader vor allra / eň haň er ecke skylldugur ad lijda svoddaň Hræsne

af oss/ hverium vier erum skylldugar um Saal og Lijf. Malachias Spamadur lÿser Bølvan yfer þeim/ sem eiga Heilbrygt Fe/ eñ offra þvi Hallta og Limlesta. O Guds Barn/ mun sa ecke þurfa ad Ottast fyrer þessare Bølvan / sem gefur Fiandanum siñ Vngmeñis Alldur/ eñ ætlar ad Foornfæra Skaparanum þad/ sem hañ verdur a Nætium ad bera? Skiool þvi ecke a Frest Ydraneñe/ Barn Guds/ helldur þeink a þiñ Skapara i þÿnum Vngdoome / Þvi þu veitst ecke nær Angisteñ kemur/ og þu leitar ad Fridnum/ og fiñur hañ ecke/ Ezech. 7. Og er þad svo hier um uttalad.

Hvad hinu Sijdara vidvijkur / sem er um TRVNA / Þa eru heñar furduleger Kraptar / og eg mæ segia / Guddoomlegar Verkaner/ sem langt yfergaanga Mañlegañ Skilning/ svo miklar/ ad þad mæ valla med Ordū utskijra/ hañ sem ad er Høfundur Truareñar JEsus Christus/ Heb. 12. Hañ hefur giørt hina bestu Grein a þvi/ er hañ seger vid sijna Læresveina : Ef þier Tru hefdud svo sem eitt Mustards-Korn/ svo mundud þier segia Fialle þessu/ Tak þig upp og fleyg þier i Siooeñ / Og ef ein lijtel Tru kañ þvilijks ad orka / hvad mikla Hlute mun þa hin sterka fæ afrekad/ Svo sem var Abrahams/ er hñ trude til Vonar þar eingeñ Von var/ Rom. 4. Nu vil eg i þetta Siñ ecke um þvilijka Hlute tala / helldur ad þvi Leite sem hun þienar til Syndaña Fyrergefningar/ og er þad Mæla sañast/ ad eingeñ er stærre Kraptur heñar eñ sa/ Þvi miña var þad/ ad giøra Moyses Staf ad Høggorme/ Miña ad sundurskipta Hafenu/ Miña ad læta Soolena standa kyrra/ miña ad tilbyrgia Himeneñ/ og kalla Elld af Himne/ þvi allt eru þetta Guds Skepnur/ er høñū hlijda Mootmælielaust : Miña er allt þetta/ Sege eg/ helldur eñ ad koma Mañenum/ af Syndeñe og Andskotañū vanskopudum/ i Sætt vid Gud/ og þvi er þad hin stærsta Jarteikn og Kraptaverk Truareñar. ÞEGar JESVS Sa ÞEirra TRV / stendur hier i Gudspiallenu / SAGde HAñ Til HIns HALfvisna / VErtu HVGhraustur SONur / ÞIer Eru ÞIINar SYNDer FYRERgefnar. Tvent giørde JEsus hier

Gott/

Gott / Sem var / ad hañ gaf þessum vesæla Mañe Lÿkamans Heil-brygde apftur/ og svo under eins Sælarennar/ eñ mikell var þess Mun-ur/ og svo mikell sem ad skilur Sælarennar og Lÿkamans Vanheilsu/ Þvi talade DRottenn eckert um̃ Lÿkamans Ohraustleik/ helldur sagde hañ : ÞJer Eru ÞJJNar SYNDer FYRERgefnar / þar fyrer sagde hañ og vid hina vantruudu Gydinga : HVert Er AVDvelld-ara Ad SEGia / ÞJer Eru ÞJJNar SYNDer FYRergefnar/ EDur Ad SEGia / STAtt Vpp Og Gack ? Eñ hier ser þu Krapt Truarennar / mædur eñ þesse aume Madur talade Eitt Ord til Fødur Myskunsemdanna/ þa hrærdust hañs Myskunar Ydur i hønum til Medaumkunar / Heiter ecke þetta ad Bænheyra mædur eñ kallad er? Hins sama mættu þier vænta/ Christeñ Madur/ nær þu lætur þig af Hiarta angra þÿnar Synder / Fyrr meiga Himen og Jord For-gænga/ eñ ad Eitt af hañs Ordum falle a Jordu / er sagt hefur til eins Ydrande Syndara / ad þegar hañ lætur af Jllu / og lærer Gott ad giøra/ þa skule hañs Synder vera hønum fiarlægar/ sem Austred er Vestrenu/ fyrr mun Siafar-Hafed uppþorna/ eñ ad Bruñur Mysk-unarennar verde uppausenn / sem lofad hefur ad kasta ydrande Mañs Syndum i Hafsins Diup / svo þeirra skule ecke ad Eilÿfu minst ver-da : Þessu kiemur Truenn til Leidar. DRottenn undradest ecke yfer neinum Hlut/ sem hañ sæ hier a Jardrÿke ; Allt Veralldarennar Yf-erlæte þootte hønũ einkis vert / svo sem Von var a/ þvi allt Silfur og Gull var hañs / Hañ gaf sig lÿted ad Tale Læresveinaña / þegar þeir sÿndu hønum hina kostulegu Byggingu Mustersens/ og þootte eckert til þess koma/ eñ vid hina Canaanisku sagde hañ : Kona/ mikel er þÿn Tru. Svoddañ Gerseme er jafnoel eins Gaungumañs Tru i Auglite DRottens / og hversu dÿrmæt ad hun sie i Guds Auglite/ þad giefur DRottenn sialfur til Vitundar i Epterlÿkingunne um̃ hitt tÿnda Saud og Pening/ er hañ ælyckar med þessũ Ordum. Svo sege eg ydur/ ad meire Glede er i Himnenũ yfer einum Syndugũ sm̃ Ydran giører/ helldur eñ yfer Nÿu og Niutÿu Riettlætum : Hølldum þvi þad

fyrer

þig þad/ ad Endurskapa mig af Andskotanū Vanskapadañ / helldur eñ ad skapa honū Heilsuna / sem þu hafder i Fyrstuñe i Moodurlyfe skapad/eñ fyrst þu syñder med þessu Kraptaverke/ad Mañsins Sonur hefde Magt til/ad fyrergefa Synder a Jordu/þa get eg ecke Efast um̄ / ad þu kuñer mynar Synder ad tilgefa / hverfu sem þær fular eru: Þu sem̄ sagder til ens Halfvisna: Statt upp/tak Sæng þyna og gack i burt/ Matth. 9. Eg veit og ad þu getur hiælpad mier med Naad þyns Anda/ad rysa upp af þeim Syndaña Bed/er eg svo leinge hefe sofed a. Gud er alleina sa / sem Dasemdarverkeñ giører/ Ps. 72. Hañ er og sa alleina/ sem tilgefa maa Syndena: Hvertveggia giørder þu hier/ DRotteñ miñ/þvi get eg ecke um̄ Valld þitt efast/ Eñ um̄ Viliañ mikluszdur / Þvi hañ seger hier i Gudspiallenu: KOMed TJL Myn ALLer. Þa veit eg ad þetta Tilbod nær og til myn/Þoott eg være syndugre eñ aller Meñ/ þegar eg Erfida i Þeckingu og Jatningu Synda miña/i hveriium þu miñ Frelsare hefur Erfidad/Esa. 43. Þegar eg var þiñ Ovin/Rom. 5. Þvi þu seger: KOMed Til Myn ALLer ÞJer Sem ERFided / og þegar eg styn under Þunganū/er þu barst miña vegna/ þegar Hegningeñ laa a þier/ eñ eg vard heilbrygdur fyrer Benfar þynar/ Esa. 53. Þvi þu seger: KOMed Til Myn Sem ÞUnga Erud ÞJader/ Til hvers? Ecke til þess / ad skipa mier ad borga hiñ sydarsta Pening / þvi Gud hefur fyrer þyna Skulld uppgefed mier alla Skulldena : Ecke til þess/ ad eg luke þier þa Handskriftena er þu hefur a Krosseñ neglt / Col. 2. Helldur til þess/ad þu taker a moote mier fæmadre Mañeskiu/svo sem̄ Fadereñ vid hiñ Auma Syne/er siñe Arfleifd sooad hafde/ Luc. 15. Þvi vil eg Allshugar fegeñ koma / O HErra JEsu / og þvo Fætur þyna med Tarum mynum / og smyria þær med Angre myns Hiarta og Elskuñe til þyn/ er mier hefur svo margar Synder tilgefed/ Luc. 7. Ef eg þess verdugur verda mætte fyrer þyna eigeñ Forþienustu. KOmed Til Myn Aller ÞJer Sem ERFided/ seger Bruñur Giæskuñar/Þetta mætte tilheyra jafnvel hinum allra heilogustu Moñum/

Noe/Abraham/Job/Eliæ/Johañi Baptistæ og jafnvel Guds Mood
ur siælfre/ Svo Heilagur er Gud/ Svo er hañ Rettlætur/ad hañ mä
ei lijda hid minsta Grand a Mañeskiune/ æn fullkomens Endurgiallds
fyrer Syndena/ eñ þad verdur ei golldeđ nema i Christi Forþienustu/
z af þeñe hafa Meñ eingeñ Not/ ukañ Meñ ydrest Syndaña af Hiar
ta/ Eñ ad ydrast Syndaña kostar þañ alltijd nockurt Erfide/ sem þeck
er Guds Hæfign og siñ Veikleika/ þar fyrer skulu þeir aller Kvikkunar
bidia/ Ps. 32. A þeim Tijma nær Reikningureñ skal halldast / fyrer
þvi hrædest Job öll sijn Verk / Eñ ef hañ hræddest þau og jafnvel
hin bestu/ þa mun þeñ Guds Mañe þoott hafa/ad þeñ þyrfte Ydran-
ar vid/ hver alldrei geingur Erfides laust af/ eige hun Gude ad lijka/
þar um̃ ber liooslast Vitne hañs sijdarsta Jætning fyrer hönum / Cap.
42. Eg straffa siælfañ mig/og ydrast i Molld og Ösku. þetta sagde
Job / um̃ hvern Gud vitnade a mooke Satan / ad ei være hañs Lijke i
Landenu/ ad hañ være fullkomeñ/ Rettvijs/ Gudhræddur og fordad-
est þad Vonda/ Job. 2. Hvar af Meñ siær/ ad þad satt er/ sem Pæll
seger/ Ad allur Heimureñ sie fyrer Gude Sakfalleñ/ Rom. 3. Og ad
eingeñ sie svo Heilagur/ad hañ ecke Allshugar fegeñ mege taka þessu
Nadarfulla Lausnarans Tilbode/Eñ þar miñ HErra seger: KOM-
ed Til Mijn Aller ÞJer Sem ÞUnga Erud ÞJADer/ þa kalla eg
mier boded med þessare Gudlegu Raust/og öllū Stoorsyndurū/sem̃ mikeñ
Part Æfe siñar hafa i þrioolskuñe z Glæpunū aled/eñ fyrst þeñ hefur
þ talad/ hvers Blood ad hreinsar oss af öllū vorū Syndū/ 1. Joh. 1.
Hañ sē er Forlijkun þ allar Veralldareñar Synder/1. Joh.2. J Krapte
þeirrar Foornar / i hverre Gud forlijkade Heimeñ vid siælfañ sig/ 2.
Cor. 5. Þa get eg ecke ætlad/ad hañ sem alleina er Sañordur/Rom.
3. Ad hañ mune spyrna mier syndugum Orme i burt af Skør Foota
siña/nær eg þar ligg med sañre Ydran/og fullum Asetninge til Yfers
bootar/þvi skyllda eg þa læta mijn Jllgiorder z bloodug Afbrot hind-
ra mig fra/ ad taka þessu Giæskufulla Tilbode mz hinū mesta Fögnude
mijns angræda Hiarta/ J þessu styrkia mig hañs Blessudu Fyrerheit/

 þar

þar hann svared hefur/ ad hann ei vilie Syndarans Dauda/ helldur ad hann snue sier og life/ Ezech. 33. Um þetta kaka allann Efa fra mier þau Dyrmæku Ord/ er hann talad hefur/ ad hann vilie eingann fra sier reka þann sem til hans kemur/ Joh. 6. O/ þvi skyllde eg vera þa svo Myskunarlaus vid sialfann mig/ ad eg ei skyllde leita hans Nadar/ þar eg veit hann er svo Myskunsamur ? Þad er kunnugt hversu ad Juda hafde reitt DRottenn til Reide / og hversu ad hann neyddest til ad reka þa ut ur þvi Landenu / er hann hafde gefed Fedrum þeirra / Enn þegar hann hafde teked þa i Satt aptur/ þa seger hin eilijfa Giæska/ Zach. 10. Eg skal Myskuna þeim/ og þeir skulu vera eins og eg hefde þeim alldrei burt kastad/ Svo langt er fra þvi/ ad Gud tilreikne sann- ydrande Manne drygdar Synder/ þegar hann snyr sier til hans af ollu Hiarta/ og þoott svo mege tilbera/ ad DRottenn legge a þig Tijman- lega Refsing/ Christenn Madur/ þu sem a JEsum truer/ fyrer undann- farnar Synder / til þess / ad þu ecke meiner þig Saklausann ad vera / þa lat þier ei Hugfallast / Edur ætla ad hann mune burtreka Eilijf- lega. Valla neckur Þiood i Heimenum hefur svo þungre Hegningu sætt af hans Volldugre Hende/ svo sem hans Frumgetenn Sonur Jsrael/ Exod. 4. Um nockra Stund / Og þo seger Fader Myskunsemdanna/ Jer. 31. Heyred þier Ord DRottens/ O þier Heidingiar/ og kunngiored þad i fiarlægum Londum/ og seged/ hann ed sundurdreifde Jsrael/ hann samannsafnar honum/ og vardveiter hann svo sem Hyrder Hiord sijna/ þvi DRottenn Endurleyser Jacob/ og frelsar hann af þess Hende sem er sterkare honum. Þacker sieu þier/ þu Dijrdarenar Konungur/ ad þetta Fridar Bod er og komed til vor þinna Aumustu Vesalinga/ sem buum a Hala Veralldarennar/ þvi viliumm vier Allshugar fegner heyra hins Gooda Hyrders Raust/ sem til sijn bijdur ollum þeim Sem ERsi- ide DRYgia/ Og þUnga Eru þJAder. Hver er sa Þioon / ef hann misbrijtur nockud vid sinn Lanar-Drottenn/ og hafe hann nockra Tru- Taug i sier/ edur hyrde umm Velferd sijna / ad ecke leite hann Satta til hans a alla Vegu/ sierdeiles ef hann er Fyrergefningar Von. Nu þoott

vier

vier a hverre Stundu/hveriu Augnablike/styggium DRottens Himens og Jardar / Þvi skylldū vier þo ecke samt leita Forlijkunar hiaa hønum / er vier vitum ad er svo audvelldur ad taka vid Syndaranum / ad: hañ seger / Zach. 1. Snued aptur til mijn / og skal eg snua mier til: ydar. Hier þarf ecke Joab ad bruka Vijsdooms Konuna af Thecoha til ad frida fyrer Absalon hia David/ 2. Sam. 14. Ecke þarf hier Paulum til ad sætta Onesimum vid Philemonem/Philem. v. 10. Eñ hier er JEsus Christus Gud og Madur/Sa einaste Medalgangare millū Guds og Mañа/ 1. Tim. 2. Hañ seger i Krapte þess Vmbods/er hñ hafde af hinum Alvallda Konunge/ til ad sætta Mañkyned vid hñ og sialfañ sig/Hañ seger med fullū Myndugleika: KOmed Til Mijn Aller Þier Sem ERFided Og ÞVÖnga ERud ÞJAder/Eg Vil ENDurnæra YDur. Þad er eitt miked Fyrerheit/sm̄ Gud giefur Jacob edur Israels Huse/ Jer. 30. Hañs Høfdinge skal af hønum koma / og hañs DRottnare skal af hønum frañganga / hverium eg biooda mun ad hañ Nælægest mig / Þvi hver er sa / sem þore ad lofa sier i sijnu Hiarta/ad hñ vilie nælgast mig/seger DRottenñ. Hver er sa Høfdinge? Þad ertu/Dijrdarenar Konungur/JEsu Christe. Hver er sa DRottnareñ? Þad ertu Guds og Mariu Sonur/ þu sem af Meyar Lijfe ert ut geingeñ/ af Lijfe Dootur Jacobs/ jafnvel þoott þiñ Vtgangur sie þo fra Eilijfu/ Mich. 5. Hverium eg mun biooda til mijn ad koma/seger DRotteñ/ þvi skal hañ til þijn koma / O HErra? Hañ sem er i þijnu Skaute fra Upphafe Eilijfdarenar/ Joh. 1. Og epter Mañdoomenum er hañ sa Madur sem þier nærstur er/Zach. 13. Vor vegna hefur hañ nælgast þig/O Gud/ sm̄ fiarlæger vorum/ langt fra þijnu Auglite/ og fra Vellde Dijrdar þiñar/ Eph. 2. Hverium kasta atte i hin ytstu Myrkur. Vor vegna er hñ þier nælægur vordeñ/svo sem Keñemadur epter Skickan Melchizedechs/Heb. 5. Jñgeingeñ i þad Allra Heilagasta/i Himeneñ frañ fyrer þig / med Eina Foorn / ad utvegadre eilijfre Endurlausn/ Ebr. 9. Hver er sa/ sem þyrde ad lofa i Hiarta sijnu/ad hañ villde

nælgast þig? Hver villde taka sier þaſt Neidur til? Eingeſt ſyndugra Maña. O DRotteñ/ Hvad munu Hælm-Skræmeñ bua vid eiñ for-tærande Elld? Edur Riked vid Stormeñ af Eydemørkuñe? Hvad Leyreñ vid Jarn-Spyrruna? Hvad Vatns-Boolañ/ Hvad Gufa Jard areñar vid Reidarſløg Himenſens? Nañ eiñ/ Nañ eiñ mæ þig nælg-aſt/fyrer hverium Troonarner og Magtarvølldeñ ſkiælfa/ og hñ til-bidia / Ebr. 1. Hver alleina i Himeneñ uppſtigur / Mañſens Son-ur ſem ofañ er ſtigeñ af Himne/og þo æ Himnum/ Joh. 3. Og med honum munu uppſtiga aller þeir ſem hañ hefur med ſier dreged / þa hañ upphafeñ var/ þad eru aller ydrande Syndarar/ Aller Þeir Sem ERFida Og ÞUnga Eru ÞJAder/Jæ/ aller þr ſem trua a Nafn Eingetens Sonar Guds/ Act. 10. Eñ þſſ er ad giæta/Brædur mijn-er/ad þeſſu Nædarfulla Tilbode fylger Skilmæle nockur. TAK-ed A YDur Mitt OK/Og LÆRed Af MJer/Þvi Eg Em HOG-vær/Og Af HJarta LJTElætur. Eg vil nu i þetta Siñ ecke tala margt uñ OK DRottens/er ſier i Lage nefneſt hañs Kroſſ/og er iñe-faled i Mooklætingum þſſarra Tijma/helldur vil eg tala uñ þad/ſm hlijder þvi Efne/er eg i Ondverdu hoof uñ ad tala/ſm i tveim Hlut-um er foolged / þad er i Fyrſtu ad plæga Sælu ſijna med Hræſnes-lauſre Jatningu/og Tilfiñingu Syndareñar/hvar af Ydraneñ ſprett ur. Og i Añañ Mæta/ad Kroſſfeſta hiñ gamla Mañeñ/Rom. 6. Er ſig fordiarfar i Gyrndum Villudoomſins/ Eph. 4. Þeſſe Kroſſ-burdur er Gude hvad kiæraſtur/ og ef Mañeſkiañ temde ſier hñ Dag-lega/þa munde þad afſtijra mørgu Utvortes Mooklæte/ Jafnvel þo DRotteñ a Stundum virde ſijna beſtu Aſtvine med Teikne ſijns Son ar. Vier ſkømmunſt vor ad ſøkiu/ ad jæta Synder vorar fyrer Møñ-unum: Vier dylium þær hvad meſt vier kuñum/ jafnvel fyrer þeim ſem verre eru eñ vær(nema þeir ſem Diøfulleñ hefur ſvo bared Sigg i/ad þeir hafa miſt alla Tilfiñingu/ſvo þeir ſtæra ſig af Glæpunū:) Og þad velldur þvi/ad Syndeñ er ſvo lioot/ad jafnvel marger þr ſm Ohlutvander eru / hata hana og laſta a ødrum / Eñ þvi munu Meñ

vilia

vilia dylia hana fyrer Gude/eins z aller Nluker sieu ecke berer og nakt-
er fyrer honum? Ebr.4. En þetta giorum vær ecke einasta/nær vier
ecke jatum Syndernar/ helldur og nær vier ecke rannsøkum þær/ Leitū
ecke epter þeim Smæsmuglega i innstu Filsnum vors Hugskots/ og ecke
ydrumst þeirra af Hiarta/nær vier høfum funded þær. En þvi dyl-
tum vier Siukdoomenn fyrer Læknaranum? Edur þorfena og Van-
mættenn fyrer hm̄/sem er alleina Rijkur? Þyrmer þu sialfum þier/þa
mun hn̄ þier misþyrma/ ef þu hylur/þa mun hn̄ openbera/þvi skyllde
eg ei vilia angrast fyrer honum/ sm̄ gledst af þssu Angre/ og vill mier
þad iauna med þusundfalldre Glede / Þvi eg vil Endurnæra ydur /
seger Lausnarenn : Þvi mun eg skyrrast vid ad jata Synder mijnar i
Augsyn Heilagra Eingla/ þar meire Glede er i Himnenū yfer einum
Syndugum/sem Ydran giører/en yfer Nyu og Nijukige Rietklatum?
Luc. 15. Menn hafa alldrei heyrt/ad Gud hafe deilt Jll-Deilū vid eirn
Sanydrande Vesæling/en um̄ hina seger hn̄/Jer. 2. Eg skal þrætta
vid þig/af þvi þu seg'r: Eg hefe ecke syndgast/En hvar med þrætt
ar hann ? Ecke med Ordum toomum / ecke med Overgmæls-Hlioode /
svo sm̄ Spamadurenn ad Orde kiemst/helldur med Drepsoott og Mann-
drapum' Ezech. 38. Og jafnvel med Ylfre og Tannagnistran vid þa/
sm̄ ecke skipast vid þetta Nadar-Tilbod. Þar fyrer/Brædur mijner/
þess betur sem vier þeckium Guds Fødurlega Giæsku / i þvi/ ad taka
vid Syndaranum/ nær hn̄ ydrast/ og þess meire Næska/sem vier vill
oss buen vera/nema vier ydrumst : Þess helldur leggium allt Kapp a/
ad bleyta vor Hiortu fyrer Gude/svo Heilagur Ande fae þar innebued/
an hvers vier ecke gekum til JEsum komest/svo sem vier medkennum i
vorre Truarjatningu/og er þ ecke noog/ ad angrast fyrer Syndernar
um̄ Stundarsaker/þad er eins og Elldur i Sinu Hlaupe/ad lata sier
volgna nockra Stund um̄ Hiartaræturnar / nema Ydranenn verde oss
svo sterk/ad vier høtum þær Syndernar/er oss adur hafa hvad kiær-
astar vered. Hvad gagnade þad hinum Volldugu i Jerusalem/ad þeir
gæfu lausa þræla sijna og Ambatter / Þegar Nebuchadnezar hafde
lagst

lagst um̃ Borgena/ eñ hneptu þau aptur i Þrældoom/ nær hũ var burt vikeñ um̃ Stundarsaker? Jer. 34. Eins er þeirra Maña Ydran/ sem græta Synder sijnar fyrer Gude/ eñ hverfa þo aptur til hiña sømu: Sa Ydrun fordæmer Mañeñ meir / eñ affsakar / þvi hun sijner þad / ad hañ hefur þeckt Syndena / og vill þo ecke af heñe læta. Drotteñ hefur kient syndugũ Mañe eirn Skriplagæng hiꝛ Jerem. Nañ skyllde oss alldrei ur Miñe falla : Þier skulud hafa Leida a siælfũ ydur fyrer ydar Ranglætinga Saker/ ꝛ skam̃ast ydar fyrer ydar Svijvirdingar / og blygdast fyrer ydar Vegu. Ef Meñ lietu sier þetta Hugfast vera/ þa mundu þeir ecke læta sier þykia svo vænt um̃ Syndena/ ad þeir vellte sier i heñe aptur strax/ sem þeir eru geingner fræ Prestsens Knitæm. Good Vppbyriun er þad ad sønu/ ad ausa ut Hiarta sijnu fyrer Gude med Jætningu Syndañã/og ecke skiedur þad nema fyrer Verkan Hei'igs Anda : Eñ St. Pæll æmiñer þa i Tessalonica/ 1. Tess. 5. Ad þeir ei skule slockva Andañ/ og mun hañ þ viliad hafa øllũ sagt/ Hrygged ecke Heilagañ Anda Guds / J hverium þier Jñsiglader erud til Dags Endurlausnareñar / seger hañ / Eph. 4. H var af audsært er / ad Madur kañ med Apturhvarfe til Syndareñar ad fæla Guds Anda fræ sier / Eins og Dufurnar flyia Reikeñ/Svo flyr Guds Ande Syndsamlegar Huxaner/ eñ þegar Heilagur Ande er burtvikeñ/ Hvad liggur þa fyrer Vesælle Mañeskiu ? Ecke añad eñ fyrer Saul Konunge / 1. Sam. 16. Ad þegar Gud took siñ Anda fræ honum / Þa þuste yfer hañ Guds vondur Ande/ Jæ / Ecke añad eñ ad eiñ Ohreiñ Ande tekur Siø adra Anda sier verre/ og hverfur aptur i Hus sitt/ hvadañ hañ kom/ Og verdur svo þeß Mañs hid Sijdara argara hinu Fyrra / Luc. 11. Jæ/ þad kañ ad koma þar/ad sa sũ svo tijdt forsmæer Anda Nædareñar/ Ebr. 10. Ad Gud verde honũ svo reidur um̃ sijder / ad hañ yfergefe hañ i fræleitt Siñe/ Eins og Pæll talar um̃ Heidingiana/ Rom. 1. Þad er Mælshætt: Guds optlega i Reikninguñe/ ad þegar Mañeskiañ lætur sig ængra Syndena/ þa vilie hañ ydrast þeß Jlla/ er hũ hugde ad giøra heñe/

Heñe/ Eñ þesse Fodurleg Giæska Hins Myskunsama Guds/ sem ætte ad draga oss til Yðrunar / hun ablar mørgum Dæra eñ meire Pver-udar/ svo þeir hverfa aptur til Spillingar/ sem Petur ad Orde kiemst/ 2. Pet. 2. Af þvi Gud hefur svo tijdt forlaated þeim Syndena/ Eñ siae þeir til/ sem þañeñ hafa vaned sig til ad misbruka Guds Þolen-mæde/ ad ecke verde þm sagt eins og Jerusalem : Þu hefur yfergefed mig/ Þu ert a Bak aptur horfeñ/ þar fyrer vil eg utrietta mijna Hønd a mote þier/ til ad farga þier/ Eg em vordeñ þreytt af ad ydrast/ Jer. 15. Gud giæfe/ ad þeir sem Einusiñe hafa smackad hid Gooda Guds Ord/ og Krapt epterkomande Alldar/ þeir villdu Hugleida hvad miklu yndælle er/ jafnvel su Hrygd/ sem ad er epter Gude/ 2. Cor. 7. Helldur eñ allur Heimsins Mignadur / Þegar hañ geingur sem hædst/ Þvi ef hid heidna Skælld seger / ad þar sie nockur Vellyst i þvi ad græta/ Hvad mun ei þm þykia / sm Ande Fagnadarens pressar Tæreñ ut af Augunum. TAKed A YDur MItt OK / seger Frelsareñ hier i Gudspiallenu/ ÞVi MItt OK Er SÆtt/ Og Mijn BYRDe Er LIett. Eg vil ecke i þetta Siñ tala svo eigeñlega um Kross-Byrde DRottens i Utvortis Mootlætingum/ og þa Hugsvølun hins Gooda Anda/ sem heñe jafnañ fylger/ helldur vil eg tala hier um Deydingu Holldsens/ og Krossfestingu hins gamla Adams/ sem byr i oss/ Sege mier þeir/ ed Einusiñe hafa kent a hvad sætur ad DRotteñ er/ mun nockur Assverus i sijnu stoora Heimbode/ Esth. 1. Mun nockur Bal-tazar i øllu sijnu Ohoofe / Dan. 5. Nockur Herodes i sijnum Hooru-Danse/ Matth. 14. Nockur Benhadad i Herbudū sijnū/ 1. Reg. 20. Munu þeir/ s[illegible]ge eg/ una svo vel sijnum Hag/ Svo sem Rett-truads Mañs Sæla i Jatningu Synda siña fyrer Gude / Þegar Ande DRottens ber heñe Vitne um/ ad hun sie Guds Barn ? Rom. 8. Alldrei hefur hiñ gamle Madureñ svo mikel Umbrot / ad ecke sie þad Yndæle þeim sem i Guds Herkruda berst / Eph. 6. Ad sigra hañ/ og hañ gledst af Løgmaale DRottens/ seger Paull/ Rom. 7. Jafnvel þoott hañ fiña þykest eitt añad Løgmaal i sijnum Limum/ sm Hertake

hān under Syndarenar Lögmaal: Ad sönu kuna hiner ad klædast Pelle og Purpura/og hafa kostulegt Bordhalld/ Luc. 16. Margur mun sá vera/er seger til Sálar sinar/þegar hān hefur alls Nægter misjafnt utvegadar / Et og Dreck Sála mijn/þvi þu hefur til margra Ara safnad / Luc. 12. Eñ alldrei kañ þetta ad jafnast vid þa Nadar-Mola. er detta af þui Himneska Borde ofañ a Gootsskör D Rottens/ Matth. 15. Hvar vier Synduger Ormar skrijdū z mænū i Himeneñ/ epter hiñe eilijfu Hugsvölun / er Guds Ande heiter oss fyrer Páls Muñ / ef vier berū Christi Ok med Þoleñmæde. TAKed Af MJer / þVJad Eg Em HOOGvær Og Af HJARta LJTEClatur. Hvar fyrer? Hier um talar Postuleñ/ Heb. 5. Segiande: Þoott hañ Sonur Guds være/þa hefur hñ lært Hlijdnena/ af þvi/sem hañ lided hefur. Seged mier nu/þier sem erud Ættleidingar/og ecke Guds einka Syner/eins og hñ var/munud þier nockurn Tijma leggia þañ Kross a hiñ gamla Adam / ad ecke hafe DRottens Kross vered hönū þyngre / sm̄ hñ bar a sijnū Lijkama/samlijkum Holldenu Syndeñe underorpnu/ þegar hañ var af öllum yfergefeñ / Og jafnvel af sijnum Himneska Födur; Marc. 15. O hvilijk Minkun er nu þad/ ad vier skylldum ei vilia vaka eina Stund med hönū/til ad þina Sáler vorar med Christe legre Ydran / og Deydingu vorra vondra Gyrnda / þar hañ hefur lofad oss sijns Anda Hugsvölun/ nær vier svo giörum. TAKED A YDur MJtt Ok/seger DRotteñ hier: Eñ hvad er Christi Ok? Þad er allt þad / sem Meñ bera med Þoleñmæde / hvert helldur þad kemur fra Gude sialfum/svo sm̄ eru Siukdoomar/ Astvina-Misser/ Skade sá/ er vier meinum ad kome ad Hendingu / edur añad þvilijkt/ Ellegar hañ kemur fra Möñunum/Svo sem er Orettur/Forsmaan/ Offsookner / og þesshattar / Edur og ad þad er Straff vorra eigeñ Synda/er vier sialfer a oss leggiū i Ydranarenar Verke/z Barattune moote Holldsens Gyrndum. Allt er þad Christi Ok/ef Meñ bera þad svo sem hañ skipad hefur / þvi eckert af þessu kañ ad henda oss / sem vier ecke forþienad höfum med Syndeñe / edur añadhvert fyrer hañs

Til-

Tilhlutan edur Tillætseme / Eñ ef vier køstum Okenu i burt med Oleifelegū Nække/ Jer.2. þa verdur þad Heilsusama ORoffeñs OK ad Diøfulsens Oke/ Ef vier erum Opolenmooder i Siukdoomenum/ Møglunarsamer i Orbyrgdeñe/ ef vier giølldum eitt Orett med oðrū/ og bætum vorn Skada med Skada Naungans/ þegar vier ȷ aã Beg breytum/ þa høfū vier eingrar Endurnæringar/eingrar Nugsvølunar ad vænta Sælum vorum/ þa hverfur Sætleike sa/er Christi Oke/og hañs Byrde fylger/ Ja/ Hvad meira er / ad þad OK / sem oss verdur uppalagt fyrer Heimsku vorrar og Synda Saker/ þ kuñū vier ad giøra ad ORoffeñs Oke / Ef vier berū þad med Hoogværd og Christelegre Þolenmæde. David er oss til Epterdæmes hier i: Eg Efast ei um̄/ad þad hefur geinged hønum til Hiarta/ þegar hñ var rekeñ fra Rijke af sijnū eigeñ Syne/ 2. Sam. 15. Og þegar Mord-Eingelleñ sloo Foolked Søkū hañs Yfersloonar/ 2. Sam. 24. Þo vañ hañ svo miked a med sañre Yðran og Audmykt Hiarta sijns/ad Gud leidde hañ heim aptur/ med Sæmd og Heidre/ 2. Sam. 19. Og linade Plaagurnar/ 2. Sam. 24. Lærum oss þesse Dæme til Christum leida/ Audmijkium oss under Volldugra Guds Hønd/ 1. Pet. 5. Þegeñ vitum vier/ spørum ecke ad gaanga hñ/ tøkum a oss hid sæta OK Christi/ og sk ioorū oss ecke undañ hñs Byrde/svo vier meigū fiña eilijfa Endurnæring/eilijfa Nugsvølun Sælum vorum/og gaanga iñ til hañs Hyjbyla. Þad veite oss goodur Gud/ Fyrer sijns Sonar Blessada Forþienustu/ AMEN.

## Tuttugasta og Siøunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Matth. 17. Cap.

Þeim Tijma. Og Sex Døgum þar epter/ took JEsus med sier Petrum og Jacobum/ og Johañem Broodur hñs/ og hafde þa afsijdes uppa hæt Fiall/ og um̄myndadest fyr er þeim. Og hañs Asiana skein sem Sool / En hañs Klæde urdu so biørt sem Lioos. Og sia/ad þeim byrtust þeir Moyses og Elias/og tøludu vid hañ. Eñ Petur ansade og sagde til JEsu:

NErra/hier er oss gott ad vera. Ef þu villt þa vilium vier giøra hier Þriar Tialldbuder/ Þier Eina / Moysi Eina/ og Eliæ Eina. Og þa hañ var þetta ad tala/ Sia/ ad biart Sky umskygde þa. Og sia/ ad Rødden ur Skyenu sagde : Þesse er Sonur miñ Elskulegur / ad hvøriumm mier Velþocknast / Hlyded þier hønum. Og er Læresveinarner heyrdu þad / Fiellu þeir fram̃ a sijnar Asiaaner / og urdu miøg hrædder. Eñ JEsus gieck til þeirra/ Took a þeim/og sagde: Standed upp/ og vered ei hrædder. Eñ þa þeir litu upp / sau þeir Aungvañ nema JEsum alleinasta. Og er þeir geingu ofañ af Fiallenu/baud JEsus þeim/og sagde: Þier skulud aungvum þessa Syn segia / þar til ad Mañsins Son er upp aptur risen fra Daudum.

## Exordium.

HErra Guder eru Fiallaña Guder / Søgdu fordum Þienarar Benhadads Syrlands Konungs / er þeir voru ellter af Jsraels Møñum : Grætlegt er til þess ad vita/ hverneñ Satan hefur blindad Mañeskiuna / ad Skynserne Hollds ins smijdar sier svo værlega Þanka um̃ Guds Hætign/ svo sem ad hañs Ryke sie ecke eins rijkt i øllum Attum hñs Velldis/ Eñ hvernig sem þvi er nu vared/þa sia Meñ þo/ad Gud hefur sig hvad mest Opeñberad Mañkynenu a Fiøllunum : A Fiallenu Sina utgaf hañ sitt Løgmaal/ Exod. 20. A þvi sama Fialle talade hañ vid Eliam i Hellrenum. A Fiallenu Moria talade Guds Sonur vid Abraham / er hañ villde hafa Offrad Gude Syne sijnum Jsaac/ Gen. 22. A þvi Fialle stood Jerusalems Mustere / hvar Gud hafde siñ Elld og siñ Ofn / Esa. 31. Og maa sijnast/ad Gud hafe Teiknad med þessu/ ad hñ være hñ allra Næste / og bygge i Hædunum/ svo ad Diøfullen hefur og apad epter þessare Guds Dijrkan / eins og i mørgu ødru / og lated sier a Hædum þioona: Þad vitna þær Hædernar medal Guds Foolks/ er hñ svo miøg til Reide reitt/a hverium hñ seger/ad ei sieu nema Prettær. Eñ i þessa Dags Evangelio heyrum vier hina allra Lijdlegustu

og

og Huggunarsømustu Openberan/ þar hiñ Eingetne Sonur Fødur-
sins/ Jklæddur voru Hollde/ Vmmyndadest sÿnelega fÿrer Læresveinun-
um a Fiallenu Helga / hvert ed hiner Gømlu Læresedur Christneñ ar
hafa meint ad vera Fialled Tabor i Galilæa. Af Fiallenu Nebo i
Moabs Lande sÿnde DRotteñ Moÿse alla Fegurd og Giæde Cana-
anslands/ Eñ a þessu Fialle hefur hñ sÿnt Læresveinunum/ og øllum
þeim er a Soneñ trua fÿrer þeirra Ord/ iñ i þad Himneska Canaan/
er hañ nefner sÿna Hvÿld / Heb. 3. Og til frekara Vitnes þar uñ/
þa vil eg kvedia ydur/ Guds Børn/ til ad gaanga Afsÿdes med Christo
og hañs Læresveinum/ til ad Hugleida þessa Dÿrdlegu Openberan/ J
hverre Tvent er ad athuga / Sem er. 1. Sialfa Forklaarun-
ena. 2. Vottana sem Naalæger voru.

DRotteñ/ verku i Verke med oss/ og Naad þÿns Anda/ fÿrer JEsu
Forþienustu/ AMEN.

## Vtleggingeñ.

HANN VMMYNDadest FYrer þEim/ seger Texteñ: Ecke
er þad svo ad skilia / ad hañs Mañdoomleg Naattura hafe um-
breÿtst a nockurn Haatt/ helldur forklaaradest hun/ Hin Dÿrdlega
Guddoomsins Fÿlling/ sem i hønum bioo / skaut ut Geislum sÿnum i
Mañlegu Hollde/ svo þeir kyñu ad sia hñs Dÿrd/ Dÿrd svo sem Ein-
getens Sonar af Fødurnum/ Hañ aftlæddest / svo ad segia/ þioons
Myndeñe um Stundarsaker/ eñ ecke Naatturuñe. Tak þad til Hug-
leidingar af þessu/ Guds Barn/ ad ædur eñ þu maatt samlÿkur verda
þessare Dÿrdlegu Mynd þÿns Frelsara/ sem hier umgetur/ þa byriar
þier ad ummyndast epter hañs Mynd/ sem þig skapad hefur/ þad er/
Endurnyast i þÿnu Hugskote/ þvi svo seger Frelsareñ/ nema þier um-
myndest/ og gierest svo sem þetta Vngbarn/ þa kuñed þier ecke ad iñ-
gaanga i Guds Rÿke. Matthæus skÿrer fra þvi i Textanum/ hvi-
lÿkt ad vered hafe Forklaaran þesse / þar hañ seger / Ad HAñs A-
SJaana HAfe SKJned Sem Sool / Og skulum vier þo ecke ætla /
ad Sool Rettlætesins / Mal. 4. Hafe þo ecke øllu fegur skyned / eñ

þesse er a Himnenum lioomar / Þvi heñar Byrte kuñum vier aller ad standast/ eñ þegar Læresveinunū gafst Syn þesse en mikla/ þa skrifar Marcus/ Cap. 9. Ad þeir hafe vorded Otta slegner / svo ad Petur visse ecke hvad hñ talade/svo sem bæde hañ og Lucas Cap. 9. skrifa/ helldur kekur Gudspiallamadureñ Lyking af Sooluñe / þvi hañ hafde eckert biartara ad jafna vid/ sem Daudlegum skiliast kuñe/ og ei skulū vier helldur meina þetta hafe vered su Dyrd/er Guds Sonur atte hia Synum Fødur/ adur eñ Grundvøllur Veralldareñar var lagdur/ Þvi jafnvel Utvalder skulu skyna eins z Sool i Ryke syns Fødur/ Matth. 13. Eñ hvilyk su Byrte mune vera/ er þar af audsært/ad vier skulum verda Einglunū jafner / hverra Siooner ad Daudleger Meñ þo valla stadest fa/ þvi sagde Manoha / Vid munum sañlega deyia / þvi vid høfum sied Eingel DROttens/ Og skulum vier þo vita/ ad Dyrd og Hælign Guds Sonar yfergeingur svo miked Einglaña Dyrd/sm hañ hefur þeim Ædra Nafn ødlast. Framar seger Texteñ / Ad Hañs Klæde Hafe Vorded Svo Biørt Sem Lioos: Þegar Moyses kom ofañ af Fiallenu Sina med Løgmaaled / þa skrifar Paulus / ad hañs Asiana hafe vered svo biørt / ad Israels Syner hafe ei matt lyta i gegn heñe / Alleina af þvi / ad hañ hafde vid Gud talad / og þo feck Moyses hana byrgt med Skyluñe / er hañ heingde fyrer sitt Andlit / Eñ þetta yfergnæfer / hier fa ecke Klædeñ iñelukt þañ skiæra Guddoomsins Fegurdar Liooma/sm bioo i Christi forklarudu Hollde/hellldur skein hun i giegnum / svo þau urdu føgur eins og Lioos. O miñ HErra JEsu/ er þetta su Mynd/ sem ad hieck a Krossenum/ þegar þu giørdest Bølvan fyrer myñar Synder? su sem Esajas uñ talar i 53. Capitula/ segiande: Þar er eingeñ Mynd edur Fegurd a hønum/ og þegar vier lytum hañ/ er þar eckert Alit / sem vier gyrnumst/ hañ er forsmadur og Maña Audvirdelegastur/hñ er plagadur af Meinum/ og Krankdæmenu alvanur/ og svo sem eiñ Madur er byrger sitt Andlit fyrer oß/svo Forackanlegur/ad vier virdū hñ Einkes? O þu Saklausa Gud Lamb/ hvilyk voru nu þße Umskipte/DROtteñ miñs

Hvad

Hvad vorum vier Synduger Ormar/ ad þu Liosme Fødursins Dyrdar skylldet svo bera vor Krænkdæme? Hvad þryste þier til þss/ minn Lausn are/ ad þu skylldet breyka þssare Dyrd i þa herfelegu Asiæn/ et Spæ madurenn talar umm? Eckert annad enn þyn Guddoomleg Elska/ þyn dius þu Myskunar Ydur/ i hverium þu vilender vor Vpprunenn af Nadu. Enn þu Guds Barn / sem heyrer þenna Dyrdlega Atburd / Tak þier hina mestu Huggun af honum / þegar Guds Fødurleg Giæska virder þig med syns Sonar Krosse / ad svo Dyrdlegur sem hann giørdest hier fyrer Augum Læresveinanna/ svo Vegsamlegur og ollu Vegsamlegre munktu verda/ nær þu inngeingur i þyns Herra Fognud/ ef þu tekur hans Ok a þig/ og fylger honum epter/ þvi þessa hans Dyrd sau þr Daudlegum Augum/ svo sem bæde Petur og Johannes votta/ Enn þad hefur ecke Auga sied / og ecke Eyra heyrt / og ecke hefur þad i nockurs Manns Hug edur Hiarta komed / hvad Gud hefur þeim tilbued sem hann elska: Enn Elskann til hanns siest alldrei betur enn i Mooklætenu/ þar reynest hun svo sem Gulled i Ofnenum/ þar er sa Leik-Vollurenn/ hvar ed hinar Andlegu Kempur eiga ad syna Frækleik sinn / þar er Skeid-Flotureñ/ er aller þr eiga ad hlaupa med Pæle/ sem vilia Hnossed odlast. Lucas einn hefur sagt oss þad / hvert ad vered hafe Inntak þess Samtals/ er þeir Moyses z Elias ætu vid Drottenn a Fiallenu Helga/ sem var umm þa Vtfør/ er hann skyllde fullkomna i Jerusalem/ þad er su Burtfør til Fødursins / er hann nefner hiær Johannem i 16. Capitula/ i þeirre Hiartnæmu Predikun/ er hann talade fyrer Læresveinunum under syna Pyslar-Gaungu/ þa ed hann fullkomnade og batt fullann Enda a þad/ sem hans Fader hafde honum umbodeð. Ecke hefur þesse Syn edur þetta Samtal skied fyrer Christi Skullð/ þvi sialfur visse hann allt þad er yfer hann ætte ad koma / Sialfur þeckte hann og Guddoomsins Hætign z Vegsemd/ sem ad i honum bioo/ helldur Postulanna vegna / hverier ed sydann mættu þola svo miklar Hørmungar/ Fiøtur/ Hudstrokur/ Offsookner/ Vmmsætur/ ia/ Syka og Græta þegar Heimurenn fagnade/ og þ fyrer Christi Nafns Saker/ svo ad alltyd

när

nær þeir i Normungunū mistust a þssa Dyrdlegu Openberan/ skylldu þeir hafa þad þeir kynu ad endurnæra Niarta sitt med / sem var ein full Vissa um þvilijka Dyrd/er þeir sau nu fyrer Augum sier/z þvi er ecke ad undra/ þooft ad þeir og þra Lagsmen gengu glader uf fra Radenu/ nær þeir Nudstrykter voru / Ja / ecke þoott ad St. Pall være vel til Frids i Offookuunum/J Angistene/J Naudunū/ þar hū hefur ecke einasta þssa Syn heyrt/helldur og var sialfur i hin þridia Nimen uppnumen. Petur hafde fyrer skomu spurt DRotten ad/hvad þeir skylldu i Laun hafa/ sem ad yfergæfu alla Nlute/ og fylgdu hon-um epter/ En DRotten sijner honum hier a Fiallenu / ad svo mikla Leite sem hū sia kune/i þessu Daudlega Nollde / hvers hū ætte Von fyrer sijna Þioonustu/ og er þ Mæla sanast/ Petre þookte svo miked til þessa koma/ Jafnvel þoott ecke være þad meira hia hine Eilijfu Dyrd/ Nelldur en Rikte Salomonis fyrer Drottningune af Arabia / honum þoockte svo miked til þess koma/sege eg/ ad han sagde/ NJer Er Oss GOtt Ad VEra : Nan var faddur i Judæa / einū Lande/ sem er Paradijs af Verolldene / han hafde vijda vered med Christo / bæde þar og i Galilæa / han hafde sied Jerusalems Mustere / og hina kostulegu Guds Þioonustu þar ine / En ollu gleymde han þvi sem til Baka var/hier þoockte honū alleina Gott ad vera. O hversu munu þeir þa gleyma ollu Oslæte Veralldar / ollu Epterlæte og Fagnade i Neimenum/Er situa Lambsins Brudkaup i Nimnenum : Ad Vijsu var Syn þesse mikel / er Postulunum gaf / og sæla mæ þa kalla af hene/ en þo er þm̄ ei mina veitt/ sem DRotten Auglijser sig i Niart-anu/ Þvi sæler eru þeir sm̄ ei sia og trua þo/sagde Lausnaren Ford-um vid Thomas / Þad sie eg a svo morgum Þusundum Þijslarvotta DRottens/um hveria þad sanfveded er sem Esajas spaer/Cap. 24. Ad þr prijsudu DRotten midt i Elldenum. Petur var vidstaddur þssa Openberun / Nan heyrde Moysen og Eliam tala um Fullkomnan DRottens Vlfarar / Og þar ad auke heyrde han Fodursins Raust/ þo gleymde þesse Guds Vinur ollu þessu skomum Tijma þar epter / i

Biskups

Biskups Holleñe / ecke varde þesse Ummyndan DRokleñs leinge hiaa honum / Eñ þegar Christur var i honum til fulls myndadur / Svo sm̃ Paulus ad Orde kemst / þa munde hñ fyrr hafa þolad hinar skelfe- legustu Pijster Veralldar / eñ ad falla fraa Christo / og gafft Raun þesse optlega sijdañ: Og þetta er nu su Sioon a JEsu Christo/er vier eigum ad kosta Kapps um̃ ad naa/a allre vorre Reisu fraa Vogg- uñe til Grafareñar: Pad er þad heilaga Fiall/er vier eigũ ad klifrast uppaa/medañ vier lifũ. Sa sem þañig hefur komed Auga a Christ- um/hañ kallar DRokleñ fyrer sitt Hlutskipte/ hvort ad Saal og Lijf Vanmegnest / og nær hañ Gud siñ hefur / þa skeiter hañ hvorke um̃ Himen nie Jørd. Eñ svo sem ad þetta er eitt miked Hlutskipte/hver sm̃ þvi nær/ Ja/ svo miked/ ad Himen og Jørd meiga i eingañ Sam- søfnud koma/ Svo skal og miked til þess vinna/ Ef vier vilium verda niootande Arfskiptis Heilagra i Liooseinu/Col. 1. Ef vier viliũ þockn ast Gude i Lioose lifande Manna / Ps. 56. Pa byrtar oss ad skrijdast Hofta-Voðũ/ecke sijdur eñ þr i Fyrndeñe/sm̃ Skijrn og Christne taka villdu/ þ er/ ad vier Iklædumst Herklædũ Liossins/ad vier Iklædumst einũ nyium Mañe/ad vier Iklædumst Guds Herskruda/þad er/ i einu Orde ad segia/mz Pauls Ordũ/Col. 3. ad vi' Iklædumst svo s Utvald' Guds heilager z elskuleger Hiartgrooeñe Myskunseme/Goodgyrneñe/ Lijtelæteinu/Hoogværdeñe/Þolinmædeñe. Eg veit þ maa þykia Undar lega til Ords teked/ad Postuleñ leniur sier þeña Ordehaatt/ad Iklæd- ast Dygdunum/ eñ valla kañ þo nockur betre ad fiñast: An Klædaña getum vier ecke lifad/þau eru þad sm̃ veria oss Froste og Kulda/ Svo kuñũ vier ecke helldur ad lifa Andlegu Lijfe fyrer utañ þeña Sakley- sesins Skruda: Hañ varnar oss vid Helvijtis Bruna. Klædnadur DRokleñs vard fagur og Leiptrande af þvi/ad Guddoomsins Byrte/ sem i hñs Hollde bioo/ hun skein i gegnum þau/ eins og Sooleñ Gler- ed/Svo eigum vier ad læta þad siaa i vorum Lijfernis Hattũ/Ordum og Athøfnum / ad Gud bue i oss fyrer Truna / Pad bijdur Frelsareñ Lærisveinunum/ Matth. 5. med þessum Ordũ: Svo lijse ydar Lioos

fyrer Monnum/ ad þeir siáe ydar Good verk/ og dyrke ydar Fødur/ sem a Himnum er. Enn fyrer þui/ ad Daglega flettist uppa vort Skyrn-ar-Klæde/ a medann vier gongum i gegnum Foroꝺ Veralldar þessarar/ þa maa þad Daglega þvegeꝺ verda. Marcus skrifar umm Klædnaꝺ DRottens Cap. 9. Ad hann hafe svo Biartur vered/ ad einginn þvotta Madur a Jørdu kunne þvilijkt ad giøra. Og sama er ad segia umm vort Brudkaups-Klæde/ þad kann einginn svo hreint ad giøra a Jørdu/ ad i Guds Augum byrkast mege: þad maa umm oss alla segia/ sem DRott-enn seger umm sitt Foolk/ Jer. 2. Þoott þu þvoer þig i Salltpetre/ og tafner þier mikille Saapu/ þa ertu samt Ohreinn fyrer mier: Nann einn/ hann einn getur þaꝺ ad fullu hreinsad/ sem er eins og Kopar-Smidsins Elldur/ og eins og Saapa þvotta Manna/ Mal. 3. þad er þitt dyr-mæta Blood/ minn Frelsare/ J hveriu ad aller Heilager hafa þvegeꝺ sinn Skruda/ Apoc. 7. Svo kanntu og/ DRottenn minn/ ad giøra jafn-vel Synder mijnar hvijtar eins og Snioo / þoott þær sieu raudar sem Blood/ og Ullhvijtar/ þoot þær Purpura raudar sieu/ Esa. 1. Ja/ eg em þess fullorugur / ad nær þu breider þinn Lioomande Klædafalld ut-yfer mijna saurug Tøtur/ þa mune þeirra ei giæta/ Guddoomsins Fylle-ing / sem i þier bioo Lijkamlega / Nu skein i gegnum þinn Klædnad a Fiallenu Helga / Enn Sorte minnar Illsku mun allrei geta brotist i gegnum þessa Byrke iff i Augu þijns Himneska Fødur. Þessu full-treyste eg/ DRottenn minn/ þvi eg veit/ ad þu ert komenn til ad leita ad þvi sem tapad er/ og ad kalla Synduga/ og ecke Rettlaata til Yörun-ar/ Þier sie Lof/ Æra/ Magt og Dyrd/ ad Eilijfu/ Amen.

J Munne Tveggia edur þriggia skulu oll Ord standa / Sagde DRottenn i Løg-Book sinne Fordum. Enn umm þetta Þijng maa eg seg-ia þad/ er Johannes seger i hanns fyrsta Pistils Fimmta Capitula: þrijr eru þeir sem vitna a Himne/ og þrijr eru þeir sem vitna a Jørdu. Nier eru þrijr Vottar Jardnesker/ og adrer þrijr Himnesker. Eg vil tala fyrst umm þa Jardnesku/ þvi Textenn getur fyrr umm þa: þad voru Pet-rus / Jacobus og Johannes / þesser voru einger Smalingiar i Guds

Nuse / Jafnvel þoott þeir være halldner Afrak og Hreinſunar Foorn hia Vitsllderie. Petur var ſa ed fyrſtur allra Poſtulana þeckte / ad JEſus være Chriſtur Sonur Guds lifanda / Matth. 16. Hañ var ſa / ed DRottenn fyrſtum afhendte Lykla Himnarijkis / til ad leyſa og binda / ecke þad / ad Petur afhendte þa hinum Poſtulunum ut af ſier / helldur giørde DRottenn þad ſialfur ſijdañ: Hañ lagde Lijfed ofañ a ſijna Medkeñingu um JEſum / Þvi jafnvel þoott ecke hafe Mẽñ ſvo viſſar Søgur um hans Lijflaat / þa keñer Johannes oſſ þad / ad Lauſnareñ hafe ſpaad honum þvi / Ad hañ munde Gud med ſijnum Dauda dijrka. Jacob var ſa / er fyrſtur allra af þeim Toolf liet Lijf ſitt fyrer Vitnisburdeñ JEſu / z underſkrifade hañ med ſijnu Sakelauſa Bloode. Johañes var ſa / ed la fyrer framañ DRottenn um Kvølldmaaltijdena / honum auglijſte hañ Svikarañ / hañ er ſa Læreſveiñ / um hvern ſkrifad ſtendur / ad JEſus hafe hañ Elſkad / Hañ hefur og Greinelegaſt af øllum Gudſpiallamoñunum talad um Perſoonu Frelſarans / honum auglijſte DRottenn þa miklu Hluke / er ſke ſkylldu a epterfylgiande Tijmum / Svo ſem lioſt er af hans Opinberunum / Hañ lifde og leingſt allra Poſtulana / til ad mootſtanda þeim Ebioni og Cerintho / er neitudu Guddoome vors Frelſara / Og þeſſ vegna er þad af Gudlegre Forſioon ſked / ad hañ feinge hans Hatign Augum ad lijta i þeſſum Stad / ſvo hañ þeſſ betur kyñe þar um ad vitna. Mooder þeirra Jacobs og Johs beidde Frelſarañ um / ad añar Sona ſiña mætte ſitia honū a hægra Veg / eñ añar a vinſtre / Drottenn ſvarade heñe / Þier vited ei hvers þier biddied: Eñ þo ſijneſt mier / ad hañ Bleſſadur hafe ad nockru leite orded vid Boon heñar i þeſſum Stad / Þar hañ took þa framar ødrum med Petre / til ad ſijna þeim ſvo ſem Aleingdar iñ i þa Dijrd / ſem hū a hia ſijnū Himneſka Fødur. Eñ af þeſſare veglegu Stoon hafa þeſſer Guds Meñ lært / þar þeir valla gatu ſtadeſt hana / ad ei munde þſi hendt i þſſu Daudlega Hollde ad ſitia honum a hægre edur Vinſtre Hlid i Dijrd Himnaña / og þvi ſporudu þeir ecke ſijna Daudlega Lijkame ſijdañ fyrer hans Skulld /

Þegar þeir vaxner voru epter fullkomnu Mæler Christi Alldurs/svo þeir med Paulo/Phil. 3. Nꝏ kynu i Vpprisu hiña Daudu/og Hnoss enu þeirrar Køllunar/sm̃ þar uppe er i JEsu Christo. Eñ vier sem nu heyrt høfum Vitne þeirra um̃ Forklaran DRottens/og vitum ad þeir iñgeingner eru i Dyrd síns Herra/ Vier skulum leggia allan Hug a / ad vera eins lynder og þeir / ad vier holldum alla Hluke þreck ad vera/ og jafnvel sialfft Lyfed / svo vier ávinnum Christum/ Phil. 3. Þvi hver sem ad hatar Sꝏlu sijna i þessu Heime/ hañ mun vardveita hana til eilijfs Lijfs / Joh. 12. Og þesser eru nu hiner Jardnesku Vottar ad Stoormerke þssu/sm̃ teked hafa vid Vitne þra Himnesku/ Vm̃ hveria eg hefe hier epter nockud ad tala.

DRottenn sagde Fordum under sijna Pijnu/ Joh. 12. Fader/Vegsama þitt Nafn/og Raustenn af Himne svarade hønu/Eg hefe Vegsamad/og eg skal aptur Vegsama/ Þa sagde hañ vid Lærisveinanar þesse Raust skede ecke vegna mijn/ helldur ydar vegna. Svo mꝏ eg og segia um̃ þa Himnesku Vottа/ sem Texten umgetur/ ad ei byrtust þeir DRottne fyrer hañs Skulld/helldur þeirra sem med hønu voru/ Jꝏ/vegna allra þeirra/ sem epter þeim heyra mundu þessa Tilburd. Vottarner eru Þrijr af Himnum/ Moyses/ Elias/og sialfs Fødurs sins Raust/er vitnade af Skyenu. Moyses var eiñ trur Radsmadur i øllu Guds Huse/ Hañ valde Gud til ad utleida sitt Foolk af Egyptalande / Hañ talade vid Gud i Horeb / Þegar Jsrael villde hafa sig undan þegeñ ad heyra Raustena DRottens Guds sijns / Hañ medtook Løgmꝏled af hañs Hende / og talade vid hañ Optlega eins og Madur vid Mañ talar. Hvert Moyses hafe vered hier med Sꝏl og Lijkama / skal eg ecke margt um̃ tala / Þad er vijst / ad hañ Doo a Fiøllunum Habarim/ hvadañ Gud sijnde hønu Landed Canaan/og Gud groof hañ i Dalnum/ seger Ritningen/ Deut. 34. Þo er lijklegt / ad Moyses hafe hier allur vered / Þvi um̃ Eliam er þad vijst / ad hñ foor med Ønd og Lijkama til Himens / Eñ eingañ Mun giører Matthæus edur hiner Gudspiallamenerner þeirra i sijnu Ri-

um̃ þessa Openberan. Nockrer færa til ad styrkia þessa Meiningu/ þad sem stendur i Judas Pistle / v. 9. Ad Michael Hofud-Engell hafe þrattad vid Satan um̃ Lykama Moysis / Svo sem ad villde Andskoleñ hafa fenged Valld hañs/ Eñ Gud hafe hañ uppnumed/ Og ad Vijsu lijtur Petur til þeirrar Søgu/ er þar skrifud stendur/ J sijns Sijdara Pistils Ødrum Capitula : Eñ hverneñ sem þessu er vared / Þa veit eg / ad hañ sem uppvakte Son Eckiuñar af Sarepta/ og hiñar Sunamisku / Hañ sem Lazarum leidde ut af Grøfeñe / Hañ sem uppreiste Dootkur Jairi / Hañ sem liet Marga Framlidna gaanga ur Grøfunũ i Christi Vpprisu / Honum var ecke um̃ Megn/ ad lata Moysen koma til þessarar Hækijdar a Fiallenu Helga med Ønd og Lijkama / Og þesse var nu Hiñ Añar Himneskra Votta af Mønum. Eñ Hiñ var ad sijnu Leite eingu miñe/Elias/hver med øllum Rette maa nefnast hiñ Ypparste af Spamøñunum / Hañ var hiñ Meste Vandlætare vegna Guds Nafns / Hañ liet slaatra Jessabels Spamøñum vid Lækeñ Kischon / Honum sende Gud Elld af Himne yfer þa Tveña Fim̃tigu Achabs Sendemeñ / Hañ fieck med Bæn af Gude Døgg af Himneñu/þa ecke hafde rignt i heil þriu Ar/ Hañ foor med Elldlegum Hestum og Vøgnum til Himna / Hañ talade vid Gud a Fiallenu Horeb/ Eins og Moyses/ og bæder føstudu þeir i 40. Daga og 40. Nætur / eins og Christur i Eydemørkeñe / Beggia þeirra getur og Malachias i þridia Capitula siñar Mala-Bookar/under eins og hañ Endar hid Gamla Testament. Slijka Votta byriade Guds Syne ad hafa til Dijrdar siñar / er hañ Forklaradest/Og skulum vier vita/ad Gud giører eckert Forgefens/auk-helldur svo mikla Hlute/ sem þesse var/ Øll var og Þørf a þvi/ Su Tijd var nærre komeñ / ad Gud munde slaa Hyrdereñ / og ad Sauder Hiardareñar mundu sundur tvistrast / Eñ hversu ad Læresveinarner hafe vered buner under þa Ogn/ þad sijna oss Gudspialls Søgurnar. Ad Soñu hafde Petur lyst þvi skømu adur/Matth. 16. Ad JEsus være Christur Sonur Guds lifanda/ og kallade Frelsareñ hañ sælañ

 þar

þar fyrer / Þvi Holld og Blood hefde honum þad ecke Openberad / helldur Ande sijns Fødurs / Eñ þo took Hollded svo ad Rꜳda skꜳmu þar epter / Er JEsus talade um̃ sijna Pijnu / ad Petur ꜳtalde hñ / og sagde: Spara sialfañ þig / ad ei verde þier þetta: Jꜳ / þegar hañ heirt hafde / ad Moyses og Elias toludu vid DRottieñ um̃ hñs Sijd-urstu Utfør frꜳ Jerusalem / þa var þo Einfelldnen svo rijk i Holld-enu / ad hañ sagde: VJer VJLiũ GJøra HJer ÞRJꜳr TJalld-Buder / ÞJer EJna / Moysi EJna / Og Eliæ EJna / Og þoott hañ hefde Mꜳl fyrer hinum Postulunum / þa er audvitad / ad þeir hafa eins fꜳkiæner vered. Hier mꜳ nu segia þ sama um̃ þeña Guds Ast-Vin / sem Paulus um̃ sig seger: Þegar eg var Barn / giørda eg sem Barn / og eg talade sem Barn: Petur var eñ nu ecke fullvaxeñ i Christendoomenum / og þvi talade hañ Bernsklega. O þu Guds Madur / Munde hañ nockud þurfa Tialldbudar vid / hvers Asiꜳna ad skein sem Sool / og hañs Klæde voru biørt eins og Lioos? Munde hñ ætla sier ad eiga lꜳnga Dvøl a þßu Fialle / sm̃ ꜳdur sagt hafde / ad hañ munde Lijflꜳtiñ verda i Jerusalem / Hvad þu og heyrder / Guds Vinur / af þessum Tveimur Himnesku Vottum? Var þesse Openberan til þess giør / ad hun skyllde lenge vara / og ei miklu helldur til ad vera Forsmeckur hiñar eilijfu Dijrdar? Þvi skyllde Moysi og Eliæ giøra Tialldbud / eins og ad ei være i JEsu einum Sælañ full? Rett hafa þeir nu Marcus og Lucas skrifad um̃ þetta Fꜳfræde Peturs / ad hañ hafe ecke vitad hvad hañ sagde / kañske þvi / ad Felmtur var yfer þa komeñ / Eñ i þvi mꜳ marka Elsku þa og Traust / er hañ hafde a DRottne / ad hañ giører ei Rꜳd fyrer neiñe Tialldbud handa sier edur sijnum Lagsmøñum / þvi hañ hef-ur vered fulltrua þar um̃ / ad þar sem hañs HErra være / þar mundu og þeir verda. Svo skulum vier og Lynder vera / Christner Meñ / þegar vier erum visser um̃ Christs Vinꜳttu / þa verum ecke Hugsiuker fyr-er Lijfe þessu. Hvar kuñum vier svo ad vera hiꜳ JEsu / ad oss illa lijde? Hvar meigum vier svo vera fyrer utañ hañ / ad oss vel lijde?

Vørþ

Vorpum þvi allre vorre Ahyggiu uppa DRottenn / hann mun þvi vel til Vegar koma. Og þesse var nu Veikleike Peturs og hinna Læresveinanna / Enn til þess ad bua þa under hina miklu Freisting / sem a epter fylgde / þa skiede nu þesse Dyrdlega Jarteikn / og þoott þeim fielle ei miøg svo Hugur / þegar i Raunernar rak / þa er þad vijst / ad þeir hefdu miklu minnur hafft sig / hefde ei hann hennar vered. Þesser voru þeir Þryr Læresveinar / er JEsus took Afsijdes med sier / a þeirre Nott er hann forraden var / þegar Kvølenn hoofst. Gud nade oss Auma og Synduga / Vier giefum hverke þolad Heitt nie Kallt med JEsu / Þessa Dyrdlegu Syn gatu þeir valla stadest / enn i Kvølenne svæfu þeir / þa yfergæfu þeir hann aller : Enn þu ert sieu þier / hin Guddoomlega Speke / þu kannt ad midla fyrer oss bæde Medlæte og Mootlæte / epter þvi sem þu veitst ad med Mannenum bijr. I þisse Dyrdlegu Forklaarun lietstu þijna Postula sia þijna Dyrd / ad svo miklu Leite / sem þeirra Daudleg Augu gatu þolad / enn i Kvølenne leifder þu þeim ad sofa um Hryd / þu gafst þeim og Fararleife þegar Hoopur Manna var yfer þig kominn / svo þad mætte rætast / DRottenn minn / ad þu ert Einn Biskup freistadur a allann Hatt lijka sem vier / þo ann Syndar / Þar fyrer kanntu ad samþyngiast Eymdum vorum.

Adur enn eg skilst vid þetta Mal / þa vil eg þar um tala / ad Postularner þecktu þa Moysen og Eliam / er þeir alldrei høfdu þo adur sied : Lykleger þeirra Gata / er meina / ad af Samtalenu hafe þeir mætt þeckia þa : Enn hverke Moyses nie Elias høfdu Greiniglegar spaad um DRottens Pijsler / helldur enn David og hiner Spamennerner / sierdeiles Esaias / nema hann hafe þa vid Nafn kallad / hvar um ecke er skrifad / Þo helld eg þad lyklegra / og nære þvi fyrer satt / ad Guds Ande hafe þeim þad Openberad i þad Sinn / Þvi hann sem liet Samuel þeckia Saul Konung / adur enn hann hafde hann sied / Hann sem liet Johannem þeckia sinn Herra i Moodur Kvide / Hann gat og audvelldlega gert Christi Læresveinum þesse Þeckingu af Moyse og Elia / og er þad ecke lytell Huggun fyrer Christna Menn / ad hver Einn mun þeckia ecke Einasta sijna Ast-Vine i þeirre Himnesku Glede / helldur og alla Utvalda / sem hafa yfervunned fyrer Lambsins Blood / fra þeim Fyrsta til þess Sydarsta / sem inngeingner i Føgnud sijns Herra / og med þeim Eilijflega gledjast / og Guds Lof syngia a þessu Fagnadarens Lande / og er nu þetta sagt um Moysis og Eliæ Vitne / sem voru fra Himnum. Enn hier kemur eirn øllum meire / sem uppfyller bæde Himenn og Jørd / Þad er Fader DRottens vors JEsu Christi /

sem

sem hier vitnar/ ÞEsse Er SOnur MJnn ELSKVlegur/ HOnum SKVlud ÞJer HLÝda. Rett er Sagt Hieronymi Lærefødur / ad minne hyggiu / er hann skrifar/ ad Moysen og Elias hafe þess vegna vered svipader i Skye þvi hinu biarta/ adur enn Raustenn kvad vid / ad ei skylldu Postularner meina / ad annarhvor af þeim være sa/ er til var talad: Og þegar þeir uppstoodu / þa sau þeir eingann nema JEsum: Þeir sau hann alleina/ J hverium alleina er Saluhialpenn: Þeir sau hann alleina/ sem er hinn einaste Medalgangare mille Guds og Manna: Enn hvilykur er nu Vitnisburdurenn? ÞEsse Er Minn ELSKulegur SOnur: JEsus stood hier i synum fullum Manndoome/ fullum af Guddoomenum / og þo seger Fadrenn: ÞEsse Er MJnn ELSKVlegur SOnur/ Hvar af audsært er/ ad Christur er Guds Sonur/ bæde epter Guddoomenum og Manndoomenum. Minn Frelsare/ Þeir kølludu þig Tymburmannsins Son/ Þinn Fader seger: ÞEsse Er Minn ELskulegur Sonur: Þeir søgdu ad þu giørder þig ad Gude / af þvi þu kallader Gud þinn Fødur/ Enn Gud seger hier: ÞEsse Er Minn Elskulegur SOnur. Þeir søgdu: Vier viljum ecke lata þenna drottna yfer oss/ Enn DRottenn allra DRottna / þinn Fader/ er þeir kølludu sinn Gud/ enn þeckttu hann þo ecke / Hann seger: ÞEsse Er Minn Elskulegur SOnur / HOnum SKulud ÞJer HLÝda. Moyses hafde adur fyrersagt / Deut. 18. Spamann mun DRottenn uppvekia ydur af Brædrum ydar/ hønum skulud þier heyra; Enn sa hinn same kom til sinnar Eignar / og hanns eigenn þeckttu hann ecke. Moyses lærde og sialfur meira hier / helldur enn hann sialfur hafde fyrerspaad: Ad sønnu vysade hann til hanns i greindum Spaadoome/ Enn hier sa hann þad/ sem bæde hann og marger Spamenn girntust ad sia/ og sau þad ecke. Abraham sa hanns Dag ad sønnu / Enn ei sa hann DRottenn voru Hollde Jklæddann / eins og Moyses i þessum Stad. Allra Sijdarst vil eg giæta þess Myskunnar Verks / er DRottenn giørde a Lærisveinunum/ er þeim var lided i Yrioest af þessare Dyrdar Sioon/ ad hann gieck ad þeim/ og snart þa/ og sagde: STANDed VPP Og VEred OHRÆDDer. Hann sem alvanur var Dyrdenne / og þo i Mannlegu Hollde Opennberadur / hann kunne best ad vægia Holldsins Veikleika: Þad syner hanns Manndoom / ad hann snart þa / þad auglyser hanns Guddoom / ad hann reiste þa a Fætur med þessu Atvike. Minn HErra JEsu/ eg veit ad þu ert ei sydur Mattugur nu enn þa / og eckert Manngreinar Alit er hia þier: Svo þegar vier føllum i Andleg Omegie / og høfum eingann Matt edur Frid i vorum Beinum vegna Syndanna / þa giethur þu snorted oss/ og reist oss a Fætur aptur/ Jaa/ DRottenn / þegar hid Sydarsta Aungvited lydur yfer oss i Daudanum/ Snert oss þa/ minn Frelsare/ og seig til Saalar vorrar: Statt upp og vert Ohrædd/ og leid oss svo inn i þyna Dyrd/ þar er oss gott ad vera/ þar vilium vier Eilyflega med þier bua; Þier / Fødurnum og Heiløgum Anda Eendanlegt Lof syngia/ umm Allder Allda/ Amen.